Greinilig

# Vegleidsla

til

# Talnalistarinnar

med

## fiórum høfudgreinum hennar og þriggia lida Reglu.

skipud

eptir Landsvísu og Kauplogum

Islendínga.

Og prentud í Kaupmannahøfn
af Johan Rúdolph Thiele
á 1780sta ári eptir Gudsburd.



*Romani pueri longis rationibus aſſem*
*Diſcunt in partes centum diducere. Dicat*
*Filius Albini, ſi de quincunce remota eſt*
*Uncia, quid ſuperat? poteras dixiſſe, Triens: heus,*
*Rem poteris ſeruare tuam. redit uncia: quid fit?*
*Semis.* —

HORAT. de Arte Poët.

DERES

HÖIGREVELIGE EXCELLENCE

HERR

# SCHACH RATHLAU

RIDDER AF ELEPHANTEN m. m.

TILEGNET.

NAADIGSTE

# HÖIE HERRE!

*Atter fordrifter jeg mig til i dybeste Underdanighed at tilegne min Höje Velynder et Forsög til det Islandske Folks Oplysning. For 10 Aar siden vovede jeg ubekiændt af Dannemarks Store Mænd, allene paa Rygtet om Deres höje Egenskaber og Retsindighed mod mit Födeland, at underkaste en Urtegaardsbog for Island Deres höje Dom. Rygtet*

*var fandt, og Held fulgte mig! De Belönninger* DERES HÖIGREVELIGE EXCELLENCE *i den Anledning naadigst tilvejebragte mig, kunde ikke andet end opmuntre og oplive mig til mange fildigere Forsög, til mit Fædernelands Kundskabs Befordring, hvoraf nogle ere trykte, og andre utrykte, henliggende i et værdigt Selskabs Værge, som derfor har kronet mig med Belönninger. Hvor meget större Grund har jeg da ikke til at tilegne Islands og min höje Velgiörer nærværende liden Bog, hvor det ikke gielder om en enkelt Næring, men noget nær om det hele Lands Oplysning i en Videnskab, som det har favnet lige fra* FLOKES *Tid, eller dets förste Opdagelse. Om Regnekunsten, denne vigtige og for Mennisket*

*nifket uundværlige Kundskab, har man hidindtil ikke havt nogen betydelig Underretning i Landets Sprog. Huus- og Handelsregningerne har derfor Mængden afgiort ved* Karveſtok *eller Streger, paa de uſlebne, ja vilde Folkes Made: Men hvo indſeer vel ikke deraf flydende ſkadelige Fölger, iſær naar der handles med fremmede Kiöbmænd og erfarne Regnemeſtere, ſom maaſkee undertiden kunde og vilde vinde meer end de burde? Ja hvo ſkulde troe at Landet, blottet for denne Kundſkab iblandt andre, ſkulde kunde beſtaaet ſaa længe, ſom det dog har, ſkiönt derhos bragt i den Form, ſom det nu befindes i, og hvorover man ej maae forundre ſig? Jeg har da ſtræbt at afhielpe denne Kundſkabs Mangel ved Udgaven af nærværende*

*rende* Veileedning til Regnekunſten, *indrettet ſaavel til de latinſke Skolers Brug i Island, ſom andres af Landets Börn, der maatte finde Lyſt til at öve ſig i Regning. Og ſkal intet glæde mig mere, end at det, jeg har bidraget dertil, maatte medföre alle Vedkommende den forönſkte Nytte, ſom forbliver med den fuldkomneſte Æreſrygt*

DERES

HÖIGREVEL. EXCELLENCES

KIÖBENHAVN,
DEN 31TE MAJI 1780.

*underdanigſte Tiener,*
OLAUS OLAVIUS.



# Formáli ritarans
til
## ens góðfúsa Lesanda.

Svo ønugligt sem sumum mætti þat lítaz, hve til hefir gengit með margt hvað Islands háttum viðvíkianda, einkum á hinni seinni øllo, svo furðuligt má þat virðaz, at engi merkismaðr í meðal svo margra fróðra ritara af Islendsku kyni hefir viðborit at skrásetia bækling nocqvarn, er vera kynni almenníngi synishorn Talnavitskunnar, sem í samlifi þeßu er sva miøg úmißandi, hellzt þar sem útlendum

er at gegna, at án henni er traudla fært at gánga fiártióni á mis og felli gódgripa sinna, er liós røk hafa svo tídum tilgefizt. Veit eg þat med sønnu, at mørgum er í hendi útlendsk Talnalist einhver, og ágrip nokkur þvílik her og þar á Islendsku, en hvarig almenníngi til nota, søkum þeß er fáir einir skilia og fáir hafa. Nú er sva med vexti, kærir Landar, at eg hinn minsti einnhverr í medal ydvar, hefir derst mig at byria lítinn Talnalistar verka í módurmáli voru, sem nú er í liósi látinn øllum her at sva miklu sem titullinn ávísar. Á døgum þeßum hafa menn óteliandi verka Talnavísinnar í útløndum, suma fullbúna øllu því at heyrir, en suma minnr. og því er nú komit svo (eigi at eins um þenna lærdóm, helldr og flesta adra), at þótt madr riti nýia bók, þá er þó fátt eitt í sem nýtt megi heita, ne fyrr fundit af ødrum ritnrum. en þat er iafnan vid hvat, at hverr hefir sinn hátt til framburdar sannindum þeim, er han ritr of. At slíku þarf þá engi til þeß at ætlaz, at finna margt í verk-

língi

língi þeßum, er eigi se framleitt og ofrædt í verkum annarra. en ímóti margt þat er flestum (ef eigi øllum) hefir verit úkent á Islandi. Og dylzka þá fyri ne einum, at tekit hefir enn mesta lut reglna og undirstadligra setnínga og lærdómsgreina, med fleiru sem þannug litr, úr verka C. v. Clausbergs, hins snotrasta ritara einhvers med þiódverskum Talnameisturum. og þó svo, at sumu hefir eg snúit á vára túngu ord at ordi, en sumstadar leitat mergiar málsins vid færrum søgnum. møgr dæmanna hefir eg og þadan tekin, hellzt med einskonar tølum (numer. homogeneis), og tøblurnar í §. 298. nokkur haft frá R. P. M. Hell, og fleiri frá Chr. Cramer, en þó vída hvar at lausnum farit ødruvís enn þeßir tveir. nokkur eru og þau med ymißkonar tølur (n. heterogeneis), at numin hefir eg hiá Clásbergi og Cramer, og skipat þeim at Landshàttum vorum í tilliti kenníng- anna (denominationum). Tel eg þá eigi mer nema þat, er eg hafa í liósi látin sannindi þau á vort mál, sem ádr eru framqvedin

á út-

á útlendſkar túngur, og heimfært dæmi nokkur annarra til háttalags edr haga lanz-búſ vors. En medr því at tølur várar Islendínga og Einverſlunar áløg eru ſva mørgu fráſnidin annarra þióda, þá má eg þó haft hafa þat or ſiálfum mer, at finna má eiginligt þeim og ſamqvæmt í bæklíngi þeßum. Hygg eg þat megi vera hverium einum iamgillt, hvart eg hafa tilteknа þeßa tølustafi edr adra, edr ſiálfr ſett dæmin ſaman edr adrir, ſvo fremi er þau ſam-hióda reglunum, og eg geng því í gegn at eigi ſe øll mín: allra hellzt þeim, er vera má at alldri ſeit hafi nokkura Talnaliſt, edr þá eina ſem lítid gagn edr eikki vard at, en fá nú atnotid mikils góda frá vitr-um mønnum, at aungir gátu þeir fyrr. At eg ſkipat hafa meſtum lut dæmanna eptir íſlendſkum tølum og Kaupløgum, þat má allvída ſiá, en þó hellzt í þriggia lida reglunni, ſvo at bædi er þar ſynt med tøl-um og lauſnum þat er ſkylldi, enn Afurdin ſegir þó ſem vídazt id ſanna verd lutanna í almennri kaupſtada verſlun og lands,

at

at iøfnudi verds og varnings þeim er áqvedinn er og gánga skal. þótti slíkt einkum gegna á þeim stad í tilliti bændalids, at siá mætti þeir betr hve fara skuli vid tølum sínum, edr skynia um tølur kaupmanna, þá er hvarir skipta vid adra.

En almællt at segia til, þá var áhugi siá med verklíngi þeßum, at sem flestir mættu hafa nokkur not af út á Islandi. og fyri því hefir eg iafnan stund á lagit, at skyra svo greiniliga frá øllu sem máttag og nauzynligt þótti edr þó nytsamligt at vita. og søkum þeß verinn sva fiølmælltr vída, at meira hefir úr vordit, og þó minna tilheyriligs efniß, enn til var hugat í fyrstu. og man því rit þetta lítt skapfelligt verda þeim, er líta á stuttleikinn einn, og rita kunnu svo samslegit næsta, er eigi vyrdi hálft úr. En eg veit ekki af, er sá se nokkurr úti þar, sem kenni almenníngi nokkvat í Talnalist (þat er sem flest ønnur skipan á ólandinu!), eg fráqved lítinn hlut í skólunum. og mun þá siálfmællt, at hverr al-

menníngsmadr skal vera kennandi sinn siálfr, er læra vill nokkut. At skrifa þeim þá bók slíka, er á litlu edr aungu veri grein giør, og sýnt at eins hve atfara skyli med fám dæmum (sem bækur margar eru í útløndum, og hælazt þó af nafni vel grundvalladrar Talnalistar, iá algerrar), þat gat eg engi at mer. Látum eigi børn og únglínga skilia, þá eru þó fedr þeirra og adrir yfirbiódendur komnir til vits og ára og þó skyrir menn, og kunnu því betr at undirstanda, og segia til hinum af því sem talit er for. en af aungu nemr ekki. Allengr hefir eg framleitt slíka fiølld dæma, er varla má nocqvat áfátt heita til audsýníngar reglunum og æfíngar vidvaníngum. og þó svo (er í fám Tølubókum er vandi), at verknadr allr og leysíng þeirra er fyri siónar sett (vídazt hvar), sem geyraz á hvartveggia. og helld eg þetta mun sæmiligra og gagnsamra, enn at setia dæmi beint fram án leysíngum edr úrlausnum, at meira er þó! mundi slíkt eigi til at reyna megin vesællínga þeirra sem úngan

hafa

hafa ser leidsaga ne vidrádumann? Eg segir of mig, at eg læri meirr af einu dæmi leystu, enn 10 ólaustum, þvíat ávallt er hvar nockvat afbrugdit, og má þá betr læra af 3 edr 4 enn einu, hve fara skal annarstadar. Þá er vidvaníngum verda fengin dæmi þeßi til lausnar, edr taka þeir sjálfir id sama, og leysa rángt or, þá megu þeir siá af verknadum bókarinnar, hvar í se fólgin villa sín, og koma þá svo á retta leid tølu sinni. en þat ser æva á spurníng og svari einu. At þeßu leiti kallar eg verklíng minn greiniliga Vegleidslu til Talnalistarinnar. Ella er þat áfátt, er eg hefir eigi fram leitt serlig rauk á hverium stad, edr synt hversu álykta skylldi um sannindi reglnanna af því sem talit er ádr, en bent at eins til þannug, sem ástædit hefir, svo at í flest má þó ráda, se vandliga lesit og ígrundat. hefdag hitt geyrt, myndi bæklíngrinn vordit stærri miklu. og læt ek þeim þat, er meira farit hafa mer í þvísa efni, at rita Arithmeticam demonstratam.

En at eg hefir sem optazt haft miklar tølur í dæmunum og stundum afskapligt verd edr gróda (sem t. d. í §. 319 2c.), þat skyli engi láta ser fátt um finnaz ne heita vitlausu. miklar tølur verka meirr í augu manns og hugskot, enn smár, og afla jafnan at auki betri framníngar enn hinar litlu, sem þó er eigi vant á serligum stødum, at því betr megi skynia um rettindi reglnanna og hinna mikilfiørligu dæma.

At hallda brotum í midlíd bædi í leysíngum og afurdum í 3 lida reglu med brotnar tølur, þat geyrda eg til þeß at geta vidvæníngum tækifæri at betra til framníngar ser í brotum, sem eru líf og andi Talnalistar, og sva nauzynlig at kunna bædi í bútølum og ødru leysi þeir brotin, og viti hvart á endum standizt vid hitt at til er vísat. Ne en helldr hefir eg fordazt dæmi þau í Prílidu hmißkonar talna, er brot verda í mikil, þvíat þeß megu menn vísa ván eiga í Landsvísu tølum sínum og kaupstadar id sama, einkum ef telia skal algert

algert, svo at eigi muni ne einum ß (penníngi, edr smælíngia rettarr at heita).

Sumt hefir eg sett í Rynbreytíngar (reductionis specjei majoris ad minorem & v. v) töblunum, sem eigi heyrir túngu várri edr landshætti, ne sva kauplögum enum dönsku, sem gullsvætt og annat smávegis. Þat er at öllum úþarfligt at vita, og svo eigu menn skipti mörg við Dani (ef eigi adrar Þeódir), at vel megu skil á kunna tölum Þeirra. Hvítíngar og ß er engi verulig mynt, en at telia á þeim við og við er þó opt til brotfirríngar í Cúrrentstölum, þótt eg hafa þat hvergi vidhaft.

Lesta tölur og vætta (zc.) eru nú med sönnu afnumnar, en þó hefir eg komit við þær innan í þeßu, at eigi manu þær allar, medan vantaldar eru eptirstödvar manna frá verslunar hætti þeim at skömmu var í gaungu. og þurfu því hlutadeigendr at vita grein á, og má vera nidiar várir til einhvers.

Nú ef ritinn er bæklíngr þeßi øllum at nokkuru, þá má eigi lesandi hverr álíta nocqvat sem úþarfligt, þótt þat megi hann sídr henda í þíngum sínum edr lifnadar kynferdi. þvíat þetta er svo hmißligt hiá mannfólkinu og umbreytiligt, sem ellá er náttúru vit og nám og skarpleikr misjafnt gefit hverium vid sig. Sumir skilia fliótarr enn sumir, en því meigu þeir eigi, at skiótnæmir eru edr ádr vitu, kalla þat úþarfa mælgi, er eg segi greiniliga frá því sem þeim virdizt audvellt. hinum er hún til nota er lítid skynia, ne en helldr megu þeir, at veikari skilníngu hafa, láta ser þegar í augu vaxa þat er eigi fá numit at brádgirni sinni, en leiti helldr at sigrazt af slíku med idulignm lestri og athygli.

J slíku tilliti hefir í verklíngi þeßum 1) almenniligar reglur, grundvalladar á undirbúníngi þeim at fyrri ferr. 2) ánægianliga útskýríngu þeirra med serligum dæmum. og í 3dia lagi serligar reglur fyrir afvikum og Talnabrogdum.

Um reglurnar hinar almennu, edr þær at heyra øllum vidburdum talna, þá eru fyrisagnir þeirra med skøruligri prentstøfum ritnar til adgreiníngar, og skulu þær allir lesa gagngert medr undirbúníngi øllum, þeim er fyrri gengr í grein hverri, og iafnan líta til þannug, sem á er vísat med nóta þeßum § og hiáritinni tølu. Ení þikki þær nokkurum úskilianligar, sem vera má únglíngum og fáfródum ødrum, þá fari þegar til dæmanna er fylgia (sem eg í fyrstu hefir þeßvegna sett í medal atridanna, at betr mætti þeir skynia hvat skilit er). og hefir þar framferdi allt og orda tiltøk, er vidr skal hafa, svo greiniliga sem má. og er þannug færr skilit, þá beri vid reglurnar saman, og festazt þær sva í minnum. At svo búnu fari madr atfram, og fremi sig vel í afvikum þeim edr smávegis afbrøgdum, er næst koma eptir.

Um Talnabrøgdin (er eg einkanliga svá heiti frá brotatølum til 3 lida reglu, þótt margt þat megi slíku nafni kalla, sem á

lesti er høfudgrein hverri med einskonar tølur og margskonar), þá er þetta at segia til, at øll eru þau annadhvart til skyndíngar verknadi edr hægínda. Talnaskyndíng edr flýti nefnir eg þat, er í verda færri stafir í tølu dæmanna, en þat hægindi, er vid verdr þørf minni heilabrota, enn at almennum hætti. t. d. þá er vidneyta má (1) Samlagníngar edr Frádragníngar í stad Margføldunar og Deilíngar, edr (2) Margføldunar fyri Deilíngu. ítem (3) telia med minnum tølum enn fram eru qvednar, og (4) firraz brot sem má, þótt hitt beri til ósialldan, at talit verdi med þeim bædi fliótar og hægar. Nú koma þau dæmi til handa er leysa má or á ýmißan veg, og annarr er miøk sva stuttr, en krefr meiri atgætni, annarr hægri, er fleiri má tølur skrifa, þá verdr hverr at taka þann af, sem lízt at hvar muni bezt gegna. Þeir eru eigi fáir er víta miøg Talnabrøgd, og finna þat til er þau verdi eigi notud í øllum tilburdum, er sialldan beri þau undir, og atferdin se vandleiknari og úskilianligri, villugiarnari

ari og útrúrri enn hver in almenna. En
sva makliga sem því má ígegn gánga, er
talnabrøgð þau se øðrum at fremri og nyt-
samligri, sem optarr má viðkoma. svo má
þó með úngum retti ónýta hin er siallðnar
verðr neytt. þat er sem villði nokkurr álykta
þannug: at allðregi skyli fara Glámu, fyri
því er hún se eigi fær nema um hám sum-
rum, og se því ávallt betra at fara á
Siørðum. eðr at allðri skoli hafa lengri liá
á sletta enn í þýsi, søkum þeß er honum
verði eigi viðkomit þúfurnar. At siallðan
beri sva tølur at, er brøgðum megi við-
beita, þat er um sum, en øll ekki sinn. þeir
sem ekki kunnu til, siá þat eigi á tølunum,
þótt telia megi 2fallt eðr 3fallt greiðarr í
dæmi nokkuru, se af alvegi brugðit. eg dirf-
izt at votta, er allr helmíngr dæma se svo
nokkurninn með vexti, at við má hafa
bragð eitthvert. Vandleikni og úskiliandi
talnabragða og villugirni hið sama, þeßu
velldr øllu stundarleysit eitt og kunnáttu,
þat er menn læra þau allðri at gagni. og
er þat iamt um høfuðreglur allar sem þau,

at ekki dugir íllnumit. En útrúleikr þeirra gegnir óheilum áburdi, þvíat þau eru med øllu grundvølluð á eiginligleikum talnanna, og fundin af þeim, beint sem inar algengnu reglur, og gefa mann alldregi vid, nema rángt teli. Þeir at nú lesa og íhuga, megu taka þat af er vilia, og hveríum líʒt vidrqvæmiligʒt áhuga sínum og lífernis hætti. og manu svo reyna at mikit er gagnit flestra. En þat eina bragd í §. 316 til 329 saman er svo, at eg segg þat øllum lyd, ef eigi læra vilia, þá kunnu þeir alldri æfi sinnar at nema ʒgia lida reglu, þvíat sjá er nú brautin einust og beinʒt er allir skolu fara. og því var ek þar svo fiøltali, og bar þó eigi allt fram, at nytsamligt er vitundar, en skynsamir kunnu þó af at ráda hinu. Of gagnsemi talnabragda allra má þetta leggia til, at 1) jafnframt og madr stundar á nám þeirra, þá fremr han sig í hinum almennu framførum, søkum þess at, því optarr sem rángt er talit, því optar skal

skal endrtelia med algengnum reglum, edr audvelldari brøgdum ødrum, se sva vid-vaxit. og sem þannig hefir numit, þá er ábatinn tvífalldr. 2) kann madr einn veg til at eins, þá má han æva prófa tølu sina ne retta, nema med iammikilli fyrirhøfn sem ádr, en veit han 2 edr 3 atferdir, þá má han veita ser hvartveggia med styttra verk-nadi edr þó hægra, ef bregdr á annat ráð. og í 3dia lagi getr madr því meiri vit-andi of náttúru talnanna og serliga eigin-ligleika, og lærir af mikit miøg er ævagi myndi ella. Nú ræd eg eigi at helldr, at børn edr únglíngar stundi á talnabrøgd í fyrstu, iamframt sem høfudreglurnar. en þá er þeir vel hafa numit þær, þá fari til vid hitt, og fremi sig sva í hvartveggiu mik-inn lut, ádr þeir byri med 3gia lida reglu til alvøru.

At lyktum þeßa málo er vidgetanda, at vill madr telia á ríkisdølum og ß (skilldíng-

 um)

um) einum í Þrílidu at tilskipun kauplaganna, þá má iafnan beita því bragdi, sem kennt er í §. 101 við eptirstødvar Rdala, en fyri þær sakar lagdizt ek þat undir høfut, og hellt mk (marka) tølum sem optazt, at eigi verdr summu ß deillt án hiáritníngar, þótt hæg se margfalldaþin. en við mk tal og ß ferr allt greidarr af hendi, því er minni verda þá tølur til deilíngar, svo at veita má í huganum leysíngar allar.

En alqvedit um penínga tølurnar, þá hefir eg mestan lut skipat þeim eptir Cúrrenti edr hversdags Hlaupamynt. Þvíat eg hygg nú svo nær komit, at flestum verdi at vandrædum Crónur og Speciur í landi váru, og þeß at auki lagdar á cúrrentstølur í verslun allri vidr útlendska. sem eigi bendir sva úgløggt til ættar um almenna vanhøfn hinna, þá er framlída stundir. At hafa crónu tal og speciu, þá er ß einir teliazt í cúrrenti eptir 3dju Kynbreytíngar tøblunni

unni hærna, þat er hverium hægt at nokk-
ut lærir í tølum. En í 3gia lida reglu þarf þeß allz eikki, því er allt má telia sem cúrrent, at því sem þar er sýnt. og finnazt þó dæmi þau, at talit er á tvenns konar mynt í einu, til eptirbreytnis þeim at sva myndu vilia fara.

Nú hverf og þannug aptr, er engi Talnalist hefir komit í allzheriar liós á Norræna túngu, ne en helldr mer í hendur slík nokkur óprentud, at mættag afneyta styrks nokkurs edr hægdar í tilliti Smídsagna þeirra sem heimtar Talnavitskan (eins og allar Kunnáttur adrar), til at giøra gløggva grein á hveriu sem fram er borit, þá hefir eg mátt taka þær sem í hug komu í skyndíngi. og þóttizc ella ekki skýrt geta nokkurninn sva, nema eg vidhefda nýgervíngs atqvædi. En hversu mer hafi tiltekizt of þat, verda gódir menn um at geyra. ek læt mer nógt, ef þau prófazt málrett

edr samqvæm túngu vorri, og þó af kenn-øndum. mun þat hverr skynia, er reyna vill til, hvart sva hægt mani at finna slík-ar sagnir í máli voru, at sambiódi þeim er gánga í látínskum Talnalistar verkum. Vel flestir ritarar á adrar túngur hafa beygt þvílík ord hverr at sinni. svo hefir eg geyrt vid nøfn Høfudgreina og fá ønnur. en um hin leizt þat gnógligt at setia þau hellstu um sinn, til handa skóla læri-sveinum, er fara mundu látínsk rit sídarmeirr. en almúgalidi myndu jafnhægt í munni falla íslendsk ord sem látínsk, er þat kann varla at lesa rett, og þá miklúngi minnr beygia heyriliga.

Um rædu-skap mitt í verklínginum, þá skalat nokkurr vænta her blómsturligrar mælsku. eg hafda of annat at hirda. og lætk vel farit, se þat eigi verzt eitthvert á leirølldu þeßari Íslendskunnar. Og þótt her se eigi svo margt alþýdu máltaka, sem

fleirum myndi betr í skaut falla, þá skalat þó hverr álykta þat málleysur einar, sem honum er eigi heyrinkunnigt. Þvíat færra man svo, at eigi kunni skynsamir at undirstanda. Þótti þat betr gegna at taka til elldri sagna vorra, þar sem eg mundat hinar algengnu, enn til hinna útlendsku, sem nú svo miøg slángra í tali og riti nokkurra, er bædi hafa tíma og tækifæri at vardveita módurmál sitt, en giøra þat þó lítt at álitum. Of Rettritníngu mína er allt eitt at leggia til, og þurfut menn at kalla þat allt prentvillur eda rits, sem eigi er stafat at skaplyndi hvers, edr því er lesa hiá ødrum. Nú er sva komit laungu rettritníngu máls vors, sem rædu, at hiá fám ser støfum skipat med skynsemd. en fyri því segir eg þó eingi, at ritsháttr minn se gódr.

Prentvillur þær, at eg hefir varr vid ordit med skiótligum endrlestri, má leidretta svo sem her stendr aptan til. En um fleiri

fleiri talnavillur ásamt vítum ødrum og úvændum, sem meiri ván er at sig hafi skautfólgit herna, þá er þat bænastadr minn til allra góðra manna, at liúfliga vili færa á retta leid, og kunni eigi sva hirduleysi mitt edr vanvit, sem flýti hann at verklíngr þeßi er í titinn og prentadr, svo at nú var ekki færis til rannsóknar. At lokum tølu þeßar, þá virdlzt hverr at hafa í svo góðum høfnum, sem til er ætlat. og nióti þá allir og neyti sva vel bæklings þeßa, sem unna framfærendur hans!



## Yfirlit Bæklingsins.



Frá

Frá

Tal-

## Um ARITHMETICAM.

§. 1.

ARITHMETICA (Talna eda Reikníngs-list) er kunnátta um telur, þad er ad ransaka náttúru talnanna, og af henni draga og áqveda um þeirra eiginligleika.

§. 2. Tala er áqvedinn fiøldi af einskonar einíngum.

§. 3 Einíng (unitas) er uppháf tølunnar.

§. 4. Einíng (þad er Einn edr ein edr eitt) er hverr lutr vid sig. Til dæmis: madr, kona, dýr. item: ríkisdalr, tunna, skippund. item: tugr, hundrad, þúsund. þótt slíkir hlutir samanstandi af mørgum ødrum hlutum innvortis.

§. 5. Einíngar eru þá annadhvert smár og einfalldar, edr stórar og margfalldar. sem tigr, hundrad, þúsund.

§. 6. Af ýmiskonar edr ólíkum hlutum og einíngum verdr engi samselld tala. Til dæmis: eitt skip og ein kirkia er hvarki tvø skip, ne tvær kirkiur.

§. 7. Tekr madr fleiri einíngar saman edr undir eins, þá verdr þar af tala (§. 3). Til dæm. er einn ríkisdalr lagdr á annan ofan edr hiá ødrum, þá eru tveir: og einn til þessa tveggia, þá verda þrír: og einn til þriggia, þá fiórir: og enn einn þar til, þá fim: af fim og einum verda sex: af sex og einum siø: af siø og einum átta: af átta og einum níu, og svo framvegis.

§. 8. Álíti madr ad eins þá hluti edr parta er í sumum einíngum eru innifalnir, þá eru þær eigi lengr einíngar, helldr áqvedinn fiøldi edr tala einskonar hluta (edr minni einínga). Til dæm. ríkisdalr álitinn einn um sig er eining edr einn hlutr, en í tilliti til skillíngana er han níutíu og sex hlutir. og eitt mark ad slíku leiti sextán.

§. 9. Talan er annadhvert vidkend edr óvidkend. óvidkend er tala sú er jarteinar fiølda einn án þess ad nefndr se til nokkurs konar hlutr. sem, tveir, þrír. En vidkend heitir sú er bædi jarteinar áqvedinn fiølda og kend er vid hluti þá er talnir eru. sem tveir menn, þrír fiskar, hundrad saudir, og svo framv. En heiti þad er teknum

num verdr á slíkan hátt gefid, nefnist kenníng edr kenníngar nafn.

§. 10. Vidkendar telur eru annadhvert samakonar edr ymißkonar. Samakonar edr einskonar eru telur þær er merkia hluti einnar tegundar edr kenníngar. sem, tveir menn og þrír menn. og fyrir því heita þær og samkendar edr samnefndar. Ymisskonar edr margskonar eru þær telur er merkia hluti sundrleitrar og ólíkrar tegundar, edr þá er ólíkt kenníngarnafn hafa. sem, tveir menn, fim hestar, níu dagar. Og því heita og þær telur sundrkendar edr sundrnefndar.

§. 11. Ymißkonar telur eru annadhvart kynbreytanligar edr ókynbreytanligar. Kynbreytanligar eru þær er færdar verda til einnar tegundar, edr giera má samkendar. sem, einn ríkisdalr og fiegur mørk, þvíad hann samanstendr af sex mørkum. item, ein alin og einn eyrir, er hann er sex álnir, &c. Ókynbreytanligar eru þær er eigi kunnu ad færast til einnar tegundar edr eins kenníngarnafns. sem, tveir saudir og ein tunna hrogna.

§. 12. Merk ad þó kunna ókynbreytanligar tølur ad verda kynbreytanligar, ef þær koma saman í einhveriun enum þridia hlut. Til d. ad verdaurum, þá tveir saudir gillda vid tvo ríkisdali. en hrogna tunnan vid einn.

§. 13. Einíngu hverri (þad má vera hverr lutr er vill) má deila i fleiri og smærri einíngar, ef eigi veruliga þá þó í hnga mans: sem einni ègn í þúsund agnir.

§. 14. Aqvedinn fiöldi af ódeildum einíngum (edr þeim sem heilar verda álitnar fyrir sig) kallast **heil tala.** En hluti þá er í verdr skipt einíngu, heita menn **parta** edr **stykki.** og til tekinn fiöldi af pørtum eda stykkium deildrar einíngar, nefnist **brot (broti)** eda **brotin tala.** En þad heitir **blandin tala,** er adfylgist heil og brotin.

§. 15. **Heillt** er iafnt øllum sínum pørtum samteknum, og allir partar jafnir því heila. Til d. ein vætt er jafnmikid og átta fiórdúngar, og fiórdúngr iafnmikid og tveir tígir marka. It. fim fiórdúngar og þrír fiórdúngar jafnir vættinni, er þad eru átta samt.

§. 16. **Heillt** er meira enn hlutr nøkkurr þar af, og hverr lutr ser er minna enn id heila. sem lísipund ímóti pundi, edr pund ímóti lísipundi.

§. 17. Þegar hlutirnir eru misjafnir eda telur á hlutunum eigi jafnstórar, þá eru þær annadhvart **stærri** edr **minni** hver annarri. Her af leida þá ad eins **tvær umbreytíngar** í allri teln,

tølu, ad hún verdr annadhvart stækkud edr mínkud. Talan stækkar edr fiølgar þá er madr bætir vid nokkurn áqvedinn fiølda einni edr fleirum einíngum. og þetta kallast ad addera edr leggia saman. En seti madr ina somu einíngu edr tølu tvisvar edr þadan af optarr saman, þá heitir þad ad multiplicera edr margfallda. Talan verdr mínkud edr fækkud, þá er madr tekr einíngu edr adra áqvedna tølu þar ífrá einu sinni, og þá heitir ad subtrahera edr draga frá. En taki madr ina somu tølu optarr frá annarri, edr svo opt sem hún er þar í innifalin, þá kalla menn ad dividera edr deila.

§. 18. Nú med því tvær eru adferdir til hverrar umbreytíngar i tølunum, þá er og audsært ad fiórar eru Species edr Høfudgreiner Talnalistarinnar bædi í heilli og brotinni tølu, sem á er grundvalladar allar adrar reglur og hættir, er menn telia tølur med. Þessar greinir heita í Látínu máli Additio, Subtractio, Multiplicatio, Divisio. En med því þær verda eigi gløggliga skýrdar edr numnar fyrr enn áviísad er hverir tølustafirnir se og hversu þeir eigi ad lesast og ritast í allskonar tølum, hverr eptir sínu gilldi og afstødu, þá vil eg nú fyrst þar nokkura grein á gera, og heitir hiá Látínumønnum formáli siá edr undirbúnadr Numeratio.



## Um NUMERATIONina.

§. 19.

NUMERATIO (Teliandi edr Talníng) er íþrótt ad lesa rett og skrifa hverskonar telur eptir fullum mætti þeirra.

§. 20. Mindir þær eda merki er menn audsýna med í riti hvern áqvedinn fiølda hlutanna, og ver køllum tølustafi, eru þeßi:

1. er þannig heitir: einn, ein, eitt.
2. — — — tveir, tvær, tvø.
3. — — — þrír, þriár, þrjú.
4. — — — fiórir, fiórar, fiøgur.
5. — — — fim.
6. — — — sex.
7. — — — siø (siau).
8. — — — átta.
9. — — — níu.
0. — — — ó (er sumir rángliga kalla Siffra, fyrir því ad hverr einn þessa tølustafa heitir ad rettu lagi Ciffra, og øll tálau Ciffrutala til adgreiningar frá rómverskri tølu).

Hinn sidasti telustafr jarteinar ekki einn fyrir sig, en þegar settr er einnhverr af hinum níu framan hann, þá eykr han (þad er ad segia o) gilldi hans um tíu. Her fyrir kallast þeir níu stafir merkiligir edr serþýdandi, en óid ómerkiligr stafr.

§. 21.

§. 21. Nú svo sem þeßar tølur allar verda af einíngum samanløgdum (er ádan var sagt §. 7.) svo eru og þeßir tøluſtafir, er þeir rettliga ſkrifaſt og uidrradaſt, nógir til ad ávísa med allan ſtærra fiølda, og þeirra nefn uppruni til ſleſtra allra annarra tølunafna. þvíad þá er ver hefum talid 9, førum vær aptr fram ſyrir og tekúm einínguna, ſetium hana framan vid óid og ritum ſva, 10, og køllum tíu. er ſá hinn fyrſti tigr. hefu ver nú einn edr ſleiri umfram, þá leggium vær þar til hina tøluſtafina hvern eptir ſinni rød, og ſkrifum ſva, 11 (eigi 101) og nefnúm ellifu (þad er, einn og tíu): 12, tólf (þad er tveir og tíu): 13, þrettán; 14, fiórtán; 15, fimtán; 16, ſextán; 17, ſautián (edr ſiøtián): 18, átián; 19, nítián. og nú er ver komum i ødru ſinni til óſins, er þad audrádid, ad þar sem ádr er kominn einn edr hinn fyrſti tigr, þá má nú annarr koma. og því tøku ver 2 og ſetium ſyrir óinu, og ritum ſvo, 20, og køllum tuttigu, þad er tveir tígir, eda tvennir tíu. Skuli enn lengra telia, þá ferr madr ad sem ſyrr og leggr til þeßa 20 (ad óinu fráteknu) 1, 2, 3 og ſvo framv. og rítr á þennan hátt, 21, 22, 23 ꝛc. allt þar til komid er ad óinu hid þridia ſinn. þá tekr madr 3 og ſetr ſyrir 0 á þeßa lund, 30, og nefnir

þriátígi edr þriátíu. þad er hinn þridi tigr edr þrír tugar. á þvísa leid verdr hinn fiórdi tigr ritinn 40, og kalladr fioritigir, eda fiøritíu: hinn fimti 50, fimtígir eda fimtíu: hinn fiøtti 60, sextigir eda sextíu: hinn fiøundi 70, fiøtigir eda fiøtíu: hinn átti 80, áttatígir edr áttatíu: hinn níundi 90, níutígir eda níutíu: og hinn tíundi 100, tíutígir eda tíutíu, sem ødru nafni heitir smátt hundrad. Nú er talin verda hundrud yfir 9 (sem 200, 300, 400 ꝛc.) þá leggr madr 0 til í endanum og ávísar þannig ad af þeim se einn tigr, og ritar svo 1000, og nefnir (eina) þúsund edr þúshundrad, þad er allt eitt og 10hundrud. þá tigr er af þúsundum talinn, þá verda 10000 tíu þúsundir, þarnæst 100000, hundrad þúsundir, og þá 1000000, þúsund þúsunda.

§. 22. Af því er nú hefir eg sagt má þad ráda ad 0 er einúngis til haft ad fylla med þau audu rúm aptan tigu og hundrud og þúsundir ꝛc. þá er aungvar er einínga tølur edr tiga edr hundrada um fram.

§. 23. Þad er máttr edr gilldi tøluſtafs ad han iarteiknar einíngu, edr tug, hundrad edr þúsund og sv. fr.

§. 24. Máttr edr gilldi tøluſtafanna leidir ad eins af rúmi þeirra edr afſtedu. Rúmid,

er

er af ſkal þekkia máttinn, finnr madr er gengr frá hægri hendi fram í mót hinni vinſtri, þad er frá eptra enda tølnradarinnar til ins fremra. til d. ef ráda ſkal gilldi þeßar tølu 1779, þá merkir tøluſtafrinn 9 í fyrſta rúmi næſt hægri hendi einfalldar einíngar, ſem ein 9 ár. 7 er næſt er fyrir framan i ødru rúmi, þýdir ſvo marga tigu, ſem han ſiálfr hefir einíngar, þad er 70 ár. adrir 7 í þridia rúmi frá hægri hendi iarteina ſvo mørg hundrud ſem í eru einíngar, þad er 700 ár. en ſá í fiórda rúmi frá hægri hendi (ſem her er fyrſtr mót vinſtri) þýdir ſvo margar þúſundir, ſem ſiálfr han jarteinar margar einíngar, þad er 1000 ára.

§. 25. Her af er þá lióſt ad máttr talnanna vex um tíu i hverium ſtad eda rúmi fram frá hægri hendi, og ad einíng hver ſem framan adrá ſtendr þýdir 10 einíngar af þeim er eptir koma. Item, ad þá er bætt verdr einu rúmi (edr ói) aptan vid nokkura tiltekna tølu, þá verdr hún 10ſinnum ſtærri enn ádr var hún (ſiá §. 21). ef bætt er vid tveim rúmum, þá 100ſinnum ſtærri, og ef þrimur, þá 1000ſinnum, og ſv. fr. En hinnveginn ef frá er tekid eitt rúm, þá verdr talan 10ſinnum minni; og ef tvø, þá 100ſinnum minni, og ſv. fr.

§. 26. Efni til slíkrar nidrradanar frá hægri mót vinstri (sem gagnstædilig er vorum ritshætti og annarra þióda í nordrhálfunni) er þad, ad rits atferd hinna austurlendsku (sem eru Arabískir Hebreskir og Tyrkiar med fleirum ødrum, sem høfundar eru Talnavísinnar) gengr enn á døgum frá hægri til vinstri. En siálf talna merkin høfu ver fengid frá Arabískum, þvíad þau eru þeirra ordstafir. Líkt sem bædi Grickiar og Rómveriar áwísudu fiølda hlutanna med sínum ordstøfum.

§. 27. Þad er máttr talnanna vex med tíu, má leida af siálfri náttúrunni, sem gædt hefir manninn med tíu fíngrum svo sem verkfærum ad telia med hlutina. þvíad eptir náttúrunnar leidsøgu neytu ver fíngranna vid er telium, medan ver eigi kunnum reglur og adferdir Talnavitskunnar.

§. 28. Hversu upp skal qveda hverskonar stóra tølu.

I. Regla. Byria vid hægri hend þer og adgrein þá syrisettu telured med smám strikum nedan til, og lát í hverium flokki þriá telustafi, og verda þá í flokki hverium einingar og tígir og hundrada tala (§. 24).

II. R. Set einn púnkt yfir hinn fiórda tólustaf frá hægri hendi, og iarteinar sá þúsunda tølu. sídan set eitt smástrik yfir siøunda telustaf (sem

(sem er sidarstr í þridia flokki), og þýdir þad milliónar telu edr þúsundsinnum þúsund. þá set annan púnkt yfir tíunda telustaf (þad er hinum sidarsta í fiórda flokki), og merkir siá þúsund millióna. þá smástrik twó ofan þrettánda telustaf (edr sidarstum í fimta flokki) og merkia þau bímillión. þá enn púnkt ofan sextánda. og iarteinar hán þúsund bímilliónir. þá þriú strik yfir nítiánda telustaf, og þýda þau trímillión. á þvísa lund skal iafnan fara adfram ímót vinstri hendi ef redin er lengri og setia ymist púnkt og strik, þar til búid er ad asmarka þá fyrisettu telured.

III. R. Tak sidan til vid vinstri hend og qved upp eda les teluna eptir hiá settum merkium, og vid hin efri strik nefn milliónir, vid púnktana þúsundir, vid nedri strikin hundrud. en þá adra telustafi, er ímillum verda, kalla tigu, og gæt jafnan vel hinna næstu strika edr púnkts til hægri handar.

1sta dæmi.

| 1 | 1, | 1 | 1 | 1, | 1 | 1 | 1, | 1 | 1 | 1, | 1 | 1 | 1, | 1 | 1 | 1. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| tigr | eining | hundrad. | tigr | eining | hundrad. | tigr | eining | hundrad. | tugr | eining | hundrad. | tugr | eining | hundrad. | tugr | eining |
| þúsund bimilliona. | | bimilliona. | | | þúsund.millióna. | | | milliona. | | | þúsunda. | | | einfeld. | | |

Þad eru: 11 þúsundir 1 hundr. og 11 bimilliónir, 1 hundrad 11 þúsundir 1 hundr. og 11 milliónir, 1 hundr. og 11 þúsund. 1 hundr. og 11.

2nad dæmi.

1,234,567,891,234,567,890.

Þeßi tølurød vil eg til betra skilníngs addeila og setia hvert atrid fyrir sig, og skal svo lesa:

| | |
|---|---|
| 1 Trímillión — | 1,000,000,000,000,000,000. |
| 2 hundr. 34 þús. bimill. | 234,000,000,000,000,000. |
| 5 hundrud 67 bimilliónir | 567,000,000,000,000. |
| 8 hundr. 91 þús. millión. | 891,000,000,000. |
| 2 hundr. 34 milliónir | 234,000,000. |
| 5 hundrud 67 þúsundir | 567,000. |
| 8 hundrud og 9 tígir | 890. |

§. 29. Af þeßu er audsært ad med því o eitt vid sig. iarteignar ekki, þá verdr þad eigi helldr nefnt eda lesid í uppqvadníngunni; og hvargi sem þad stendr ímillum hinna tølustafanna þá hleypr madr yfir þad til ens næsta serþýdanda stafs, sem her:

601,000,500,802,004,067,039. Þad er: 6 hundr. og 1 trímillión, 5 hundr. tvímilliónir, 8 hundr.

hundr. (Þúsund.) 2 þúsundir og 4 milliónir, 67 þúsundir, og 39 (til d. minútur).

§. 30. Líkt sem Millión jarteinar þúsund þúsunda, eins merkir og Bimillión (edr Tvímillión, þad er tvítekin eda tvímællt millión) eigi ad eins tvær milliónir, helldr þúsundsinnum þúsund millióna, og Trímillión (edr þrímillión, þad er þrímællt edr þrítekin millión) eigi þriár milliónir ne tvímilliónir. helldr þúsundsinnum þúsund tvímillióna. Eru þessi atqvædi til fundin af Frøkkum, og betri miklu ad uppqveda tøluna med og skynia um hennar fiølda, enn þá er madr verdr ad segia vid hvert atrid þúsundsinnum, og getr þó eigi ad helldr fengid nokkura gløggva skilníng um tøluna. en af hinum atqvædunum kann madr greiniliga ad skynia þar um. þvíad þegar madr setr ser fyrir siónir til dæmis eina Gulltunnu, sem er allt eitt og 100000 ríkisdalir, þá er þad sem væri 100 ílát og 1000 ríkisdalir í hveriu. Fyri því má og álita 1000000 edr 1 millión Rdala svo sem 1000 ílát er í hveriu væru 1000 Rdalir. á slíkan hátt yrdi 1000000000000 edr 1 tvímillión Rdala álíka sem 1 millión íláta og í hverin 1 millión Rdala. og 1000000000000000000 edr 1 þrímillión eins og 1000000000 edr þúsund milliónir íláta og í hveriu 1000000000 Rdala.

§. 31. Ef nokkur tølurød er lángt um lengri enn þær sem eg tilleidt hefir innan í þessu, þá merkir sá 20sti og annarr tølustafr þúsund þrímillióna, og sá 25ti Qvadrillión (fiórmællta millión, og skulu þar 4 strik yfir), sá 31sti Qvínimillión (þ. e. fimtekna

edr

edr fimmællta millión, med 5 strikum yfir), og 37di Sexmillión (sex-mællta millión, med 6 strikum yfir), og eigu þessi nøfn ad skiliaz á saman hátt og hin fyrri.

Nú kynni þad einhverr ad mæla, ad eigi þurfi ráð ad gera fyrir slíkum óskapa fiølda. en þá mætti spyria i móti, hversu uppqveda skyldi 1 med 51 ói aptan vid, er speksingrinn Archimedes hefir tiltekid ad væri stærri tala enn á øllum sandøgnum í øllum heiminum? hertil ad segia þá er þad 1000 áttmælltra millióna.

§. 32. Þad er lióst af tilleiddum dæmum ad millión krefr 7 tølustafi, tvímillión 13, þrímillión 19, fiórmillión 25, fimmillión 31, sexmillión 37, siømillión 43, og áttmillión 49. fyri þvi nærgi sem talan samanstendr mest af ómerkiligum støfum, þá má hana og á þann hátt allskiótliga ráda ad telia stafina frá hægri hendi fram eptir.

## §. 33. Hve rita skal hverskonar stóra tølu.

Af því sem ádan var tínt í §. 21. ser madr hvernig ritadir skuli tígir og hundrud, þúsundir og milliónir, og einnig þad hve setia skuli eíníngar þær er umfram tigu verda. á sama hátt skal þá og jafnan rita er eíníngar eru fram yfir hundrud edr þúsundir eda milliónir, ad úr skal tekid eitt 0 fyrir hverium ødrum serþýdanda tølustaf úr enda hundrada tølu edr þúsunda edr millióna.

Til

Til d. Hundrad og 1 skal rita 101 (enn eigi 1001, þvíad þá verdr þúsund og einn). hundrad og 12, 112 (eigi 10012, þvíad svo er þúsund og 12). hundrad og tuttigu, 120 (eigi 10020, þvíad þàd eru 10 þúsundir og 20). Allt eins verdr tilfarid med þúsund og milliónir og þadan af meira.

En þá er madr vill skrifa upp úr ser nokkura mikla tølu er á se í huganum qvedid, T. d. eina tvímilliọn edr þúsund þrímillióna, þá skal ad fara því á líkan hátt sem greint hefig i §. 28. þad er ad segia, afmarka nokkur bil med smám strikum nedan, en ymist púnktum og strikum ofan, og ætla þriá tøluſtafi í bil hvert, og skulu þá bilin svo mørg ad í gángi allir þeir stafir er hverri áqvedinni tølu stærd heyra og um getid var i §. 32. á þvísa lund:

ĭ″, ˙, ′, ˙, , edr svo 1 ‴, ˙, ″, ˙, ′, ˙, ,

Se nú eigi fleiri merkiligir stafir (enn hinn fyrsti, er vera má hverr er vill) ad skrifa, þá fylli madr bilin med óum (§. 22.), sem her:

1″,000˙,000′,000˙,000.

edr svo:

1˙,000‴,000˙,000″,000˙,000′,000˙,000.

En se fleiri serþydandi stafir, T. d. 25 þúsundir tvímillióna, 5 hundr. og 4tíu milliónir, 8 þú-

sund

ſundir og 3 tígir, þá gæti vel ad ſetia hvern tøluſtaf eptir mætti hans í tilheyriligu rúmi, og þar o er audt verdr í medal. ſem her:

.   ‴   .   ″   .   ′   .
1,  , 25,  ,  ,54 ,  8, 3 .
og 1,000,025,000,000,540,008,030. þad er alt eitt

Merk ad millión krefr 2 bil, tvímillión 4, þrímillión 6, fiórmillión 8 og ſ. fr. þó ſvo ad einn ſtafr verdr framan fremſta ſtrikid í hverri. en ef þær hlaupa í tigu, þá 2. edr í hundrud, þá 3.

§. 34. Nú er þad ſýnt hve rita ſkal allar einskonar tølur, hvert helldr þær eru vidkendar edr óvidkendar, fyrir því er og ſkyllt ad áminnaſt **hvernig menn riti ſundrkendar edr margskonar tølur.**

Svo ſem ſlíkar eru jafnan vidkendar hmiſsa og ſundrnefnda hluti, og af þeim lutum kann engi ſamfelld tala ad verda (§. 6.) án ſkynſamligrar kyniabreytingar (§. 11.), ſvo er og þad audſkilid ad hverr áqvedinn fiøldi af hveriu kyni og tegund og pørtum þeim er hverium lut heyra fyri ſig, má ritinn vera ſer í lagi, þad iafnan fyrſt ſem meſt er og þar næſt id minna. T. d. ef rita ſkal fióra ríkisdali áſamt fim mørkum og tólf ſkillingum, þá ſetia menn þad ſvo: 4 Rd. 5 m. 12 ſk. edr ſvo 4 Rdlr. 5 mk. 12 ß. Skuli nú her til laginn annarr þeſs háttar fiøldi, ſem

tíu

tíu Rdalir med fimm merkum og áttskillíngi, þá gætir madr ad setia hvert undir þad er samnefnt er, og hins med ad einíng standi nedan einíngu, tigr nedan tig, hundrad nedan hundrad og s. fr. sem her:

4 rd. 5 mꝶ 12 ß. Item 24 rd. 4 mꝶ 7 ß.
10 — 3 — 8 — 135 — 1 — 15 —

| | | | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | Rdr. | mꝶ | ß. | | rdr. | mꝶ | ß | | rdr. | ß |
| edr svo | 10 = | 3 = | 8 | edr | 135 | 1 | 15 | edr | 135 | 7 r |
| | 4 = | 5 = | 12 | | 24 | 4 | 7 | | 24 | 3 r. |

§. 35. En nú til þeß er madr kunni greiniliga ad skrásetia slíkar tølur, þá er naudsynligt ad vita bædi nøfn hluta þeirra sem þær hellz eru af nefndar. og øll røk tegunda og parta er hverin kyni heyra, þad er hve margar tegundir edr greinir og partar se i hverin þeßarra kynia innifalnir: og hlýdir því ad ágiøra her nokkura grein á slíku, og er þá

## I. Landsvoksu Tolur.

1. Kynbreytíngar Tabla.

| | | | | Rd. Cr. |
|---|---|---|---|---|
| | | | Sk. | $\frac{1}{60}$ |
| | | Al. | 2 | $\frac{1}{30}$ |
| | Cyr. | 6 | 12 | $\frac{1}{5}$ |
| St. H. | 20 | 120 | 240 | 4 |



Þýding

Þýding toblunnar.

1 stórt hundrad álna gilldir 4 ríkisdali í Crónum.

20 álnir vid slettan dal í Crón.

10 áln. gillda hálfslettan dal í Crón.

20 Aurar eru stórt hundrad álnir.

10 aurar 60 álnir.

5 aurar 30 álnir.

1 Eyrir er 6 álnir.

1 áln gilldir 2 Fiska á landsvísu.

1 fiskr gilldir $\frac{1}{60}$ Rd. (edr $1\frac{7}{10}$ skilldings) í Crón.

## II. Kaupstadar Tolur.

### 2. Rynbreytingar Tabla.

| | 1 Rd. | 1 ℔. | 1 ß. | |
|---|---|---|---|---|
| Cour. | $42\frac{2}{3}$ | $7\frac{1}{9}$ | $\frac{4}{9}$. | Fsk. |
| Crón. | $45\frac{1}{3}$ | $7\frac{5}{9}$ | $\frac{17}{36}$ | Fsk. |
| Spec. | 48 | 8. | $\frac{1}{2}$. | Fsk. |

| —— | Cour. | Crón. | Sp. | —— |
|---|---|---|---|---|
| 1 Fsk. | $2\frac{1}{4}$ | $2\frac{2}{17}$ | 2 | ß. |

$42\frac{2}{3}$ Fiskiar gillda vid 1 ríkisdal í courant edr smápeningum. en 4 Fsk. vid 9 ß.

$45\frac{1}{3}$ fisk. vid 1 ríkisd. í Crónum.

48 fisk. vid 1 Speciu.

1 fiskr er $2\frac{1}{4}$ ß. í courant. $2\frac{2}{17}$ ß. í Crónum. en 2 ß. í Speciu.

III. Danskt

## III. Danskt Penníngatal.

3. Kynbreytíngar Tabla.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| | | | | | 8 |
| | | | | Hv. | 4 |
| | | | ß. | 3 | 12 |
| 1 Mark | Cour. | | 16 | 48 | 192 |
| | Crón. | | 17 | 51 | 204 |
| | g. Sp. | | 18 | 54 | 216 |
| | n. Sp. | | $19\frac{1}{2}$ | 59 | 236 |
| 1 Rdalr | Cou. | 6 | 96 | 288 | 1152 |
| | Crón. | 6 | 102 | 306 | 1224 |
| | g. Sp. | 6 | 108 | 324 | 1296 |
| | n. Sp. | 6 | 118 | 354 | 1416 |

1 Dúcatr er 2 Rd. í courant.
1 tvøfóld Cróna er 2 dalir slettir.
1 Rd. í courant er 6 mørk edr 96 skildíngar.
1 Rd. í Crónum er 6 m. edr 102 sk.
1 gømul Specia er 6 m. edr 108 sk.
1 ný Specia er 6 m. edr 118 sk.
1 slettr dalr er 4 mørk í Crónum.
1 hálfslettr er 2 m. í Crónum.
1 mark í Cour. eru 16 skild.
1 mark í Crón. eru 17 sk.
1 gamallt Sp. mark. 18 sk.
1 nýtt Sp. mark $19\frac{1}{2}$ sk.
1 skildíngr er 3 Hvítíngar, edr 12 penníngar.

## IV. Innlendsk Vigt.

4. Kynbr. Tab.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| | | | | M. |
| | | | Fsk. | 4 |
| | | Frd. | 5 | 20 |
| | V. | 8 | 40 | 160 |
| L. | 30 | 240 | 1200 | 4800 |

1 Lest er 30 Vættir.
1 vætt er 8 Fiórdúngar.
1 fiórdúngr er 20 merkur, edr 5 fiskar.
1 fiskr er 4 merkur.

## V. útlendsk Vigt.

a) stór.

5. Kynb. Tab.

| | | | M. |
|---|---|---|---|
| | | Pd. | 2 |
| | Lpd. | 16 | 32 |
| Skp. | 20 | 320 | 640 |

1 Skippund er 20 Lísipund, edr 320 Pund.
1 lísipund er 16 pund.
1 pund er 2 merkur.
NB. 1 Centner er 100 pund, edr 6 lísipd. 4 Pd.

b) smá

6. Kynbr. Tab. — 7. Kynbr. Tab.

| | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | | | Qv. | Gr. | | | |
| | | Ld. | 4 | 3 | Gr. | | |
| | U. | 2 | 8 | 12 | 4 | K. | |
| Mork | 8 | 16 | 64 | 288 | 96 | 24 | M. g. |

1 mørk er 8 úntziur, edr 16 Lód.
1 úntzia er 2 lód.
1 lód er 4 Qvintin.
1 mørk (Gulls) er 24 Karøt edr grádur.
1 gráda er 4 Grønd (Gran).
1 grand er 3 Greinir.

## VI. Mála Tal.

8. Kynbr. Tab. — 9. Kynbr. Tab.

| | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | | | Pl. | Pl. | | | |
| | | Qv. | 6 | 12 | F. | | |
| | Al. | 4 | 24 | 24 | 2 | Skt. | |
| Fdr. | 3 | 12 | 72 | 72 | 6 | 3 | Skf. |

1 Fadmr er 3 álnir danskar.
1 Alin (eda stika) er 4 Qvartil.
1 qvartil er 6 Pumlúngar.
1 Skref er jafnt fadmi, en 3 Skritt í.
1 Skritt er 2 Fet.
1 fet er 12 þumlúngar.

VII. Mæla

## VII. Mæla (edr ílàta) Tal.

10. Kynbreytíngar Tabla.

| | | | | | Pl. |
|---|---|---|---|---|---|
| | | | | M. | 2 |
| | | | P. | 2 | 4 |
| | | Hk. | 4 | 8 | 16 |
| | K. | 2 | 8 | 16 | 32 |
| L. Tn. | 15 | 30 | 120 | 240 | 480 |
| S. Tn. | 22 | 44 | 176 | 352 | 704 |

1 Lagartunna (þad er, undir vín, öl og brennivín, lýsi og tiöru) tekr 120 Potta edr 15 Kúta.

1 Sallt og Steinkola tunna tekr 176 potta edr 22 kúta.

1 kútr tekr 8 potta, en 2 hálfkúta.

1 Hálfkútr tekr 4 potta.

1 pottr er 2 merkur edr 4 pelar.

11. Kynb. Tabla.

| | | | P. |
|---|---|---|---|
| | | Hk. | 4 |
| | K. | 2 | 8 |
| K. T. | 18 | 36 | 144 |

12. Kynb. Tabla.

| P. | | | |
|---|---|---|---|
| 4½ | Fk. | | |
| 18 | 4 | Sk. | |
| 144 | 32 | 8 | K. T. |

1 Korntunna tekr 144 potta, en 18 kúta.

8 skeppur eru og í korntunnunni.

1 skeppa tekr 4 Fiórdúngsker.

1 fiórdúngsker 4½ pott.

## VIII. Teliandi hlutir.

1 Lest af Spönsku sallti og steinkolum er 18 tunnur.

1 Lest af Frønsku sallti, brennivíni, øli, sólltudum fiski, smiøri og ødru feitmeti, og korni er 12 tunnur.

1 Lest kallast og 15 hestar, er hverr ber 2 vættir.

1 Tylft eru 12.

| 13. Rb. T. | | | A. skr. | A. pr. |
|---|---|---|---|---|
| | | Bk. | 24 | 25 |
| | Hr. | 20 | 480 | 500 |
| Bl. | 10 | 200 | 4800 | 5000 |

1 balli pappírs er 10 hrís.
1 hrís er 20 bækur.
1 bók af skrifpappír er 24 aurk,
en af prentpappír 25.

## IX. Tímatal.

J ári eru 12 Rím-mánudir er svo heita:

| | | | |
|---|---|---|---|
| Januarius | er hefir 31 dag. | Julius | er hefir 31 dag. |
| Februarius | — 28 — | Augustus | — 31 — |
| Martius | — 31 — | September | — 30 — |
| Aprilis | — 30 — | October | — 31 — |
| Majus | — 31 — | November | — 30 — |
| Junius | — 30 — | December | — 31 — |

14. Kynbreytíngar Tabla.

| | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | | | | | | | Secúnd. |
| | | | | | | Mín. | 60 |
| | | | | | Qv. | 15 | 900 |
| | | | | St. | 4 | 60 | 3600 |
| | | | D. | 24 | 96 | 1440 | 86400 |
| | | V. | 7 | 168 | 672 | 10080 | 604800 |
| | M. | 4 | 28 | 672 | 2688 | 40320 | 2419200 |
| Ár | 13 | $52\frac{1}{7}$ | $365\frac{1}{4}$ | 8766 | 35064 | 525960 | 31557600 |

J ári eru og 13 viku-mánadir.

1 viku-mánadr er 4 vikur.

1 vika er 7 dagar

Dagr

Dagr og nótt edr 1 sólarhríngr er 24 stundir.
1 dægr er 12 stundir.
1 stundu eru 4 fiórdúngar edr 4 qvartil.
1 stund er og 60 mínútur.
1 mínúta er 60 Secúndur.
1 ár telst og almennt 365 dagar, en hlaupár 366 hvert fiórda ár.

## §. 36. Hve rita skal brotna tølu bædi eina ser og ásamt heilli.

I. Þá parta edr brot af hverium lut er rett verda áfram talnir, sem tveir, þrír, fiórir og s. fr. ritar madr fyrst og dregr þar undir þverstrik, sem her $\frac{2}{\;}$, $\frac{3}{\;}$, $\frac{4}{\;}$. nedan þetta strik skal setia þá tølu er áqvedr hve marga parta edr stadi hlutinum se í skipt, og menn nefna t. d. þridiu, fiórdu, fimtu og s. fr. sem her $\frac{2}{3}$, $\frac{3}{4}$, $\frac{4}{5}$. Þad er: tveir þridiu partar, þrír fiórdu og fiórir fimtu partar, til d. úr skilldíngi.

2ad dæmi. Madr vill skipta áttskillíngi med fim mønnum og veit þegar ad einn kemr á hvers luta. Þad eru 5. en af þeim þrimr er eptir verda skal hverr hafa þriá fimtu parta. hve skal þá rita? svo: $5\frac{3}{5}$.

II. Nú er þad opt ad menn nefna eigi nema eitt tølunafn, sem hálfr fiskr, þridi, fiórdi, tíundi, tuttigasti edr hundradasti partr úr fiski, en skilia þó iafnan þar vid, ad partrinn se

ad eins einn, þá skal og 1 rita ofan strikid, en nedan telu þá er ávísar fiölda partanna. t. d. þá fiskrinn er hálfr, þá er honum í tvo stadi skipt, og því skal svo rita, $\frac{1}{2}$. Þar er mællt er tíundi, tuttigasti edr hundradasti partr, þá má fiskinum deilt i 10, 20 edr 100 stadi, og því skráir madr svo, $\frac{1}{10}$, $\frac{1}{20}$, $\frac{1}{100}$.

III. Framvegis er þad er nefndar verda tvær telur, en eigi svo lióst hvernig í rit skal fœra. t. d. þá er ver segium hálfr annarr, hálfr þridi, fimtándi, nítiándi og s. fr. en svo sem ver skilium þar med ad þetta se einn heill og hálfr, tveir heilir og hálfr, fiórtán heilir og hálfr ꝛc. þá skal og rita $1\frac{1}{2}$, $2\frac{1}{2}$, $14\frac{1}{2}$, og $18\frac{1}{2}$.

2ad dæmi. 13 skillíngum skal deila í medal tveggia, og ser madr þegar ad hvarr skal fá hálfan siþunda. hvern veg skal þad í rit setia? svo, $6\frac{1}{2}$.

Her med er þá og undir eins sýnt hve lesa skal brotateluna. sem ef stædi $\frac{2}{5}$, þá les madr tveir fimtu, edr tvo fimtu parta, ad því sem greint var í 1sta atburdi. $\frac{1}{2}$, hálfr, $\frac{1}{8}$ áttundi partr og s. fr. eftir IIdrum atburdi. $3\frac{1}{2}$, hálfr fiórdi, $8\frac{1}{2}$ hálfr níundi, og s. fr. eptir IIIdia atburdi. En se talan yfir hundrad, þá er greiniligar adqvedid $100\frac{1}{2}$ hundrad og hálfr, enn hálfr hundradasti

radasti og fyrsti. 101½ hundrad og hálfr annarr, enn hálfr hundradasti og annarr.

§. 37. Til skyndíngar sagna og rits hafa Talnameistarar ýmisliga nóta (edr merki) er vita hlýdir, og þessir eru hellstir:

✠ heitir Samlagníngarnóti, og þýdir ad tala sú er eptir kemr se lagin til þeirrar er fyri stendr. sem 8 ✠ 4, þad er allt eitt og sagt væri 8 ásamt 4, edr 8 ad tillögdum (edr vidbættum) 4. 2 ✠ 3 ✠ 5, þ. e. 2 ásamt 3 og 5.

÷ edr — heitir Frádragníngarnóti, og iarteiknar ad eptir komandi tala se frádregin þeirri fyrirfarandi. sem 8 ÷ 4, þad er allt eitt og mællt væri 8 fiórum færra edr fátt í. edr 8 ad fráteknum (frádregnum edr fránumnum) 4. Hid sama er ad skilia um 8 — 4.

⋈ edr × kallast Margfølldunarnóti, og merkir ad tølurnar, er hún í medal stendr, se margfalldnar hver med annarri. sem 8 ⋈ 4, þad er allt hid sama og sagt veri 8 sinnum 4, edr 8 fiórfalldadir. edr og 8 margfalldnir med 4. Fyrir þennan nóta hafa sumir eitt strik edr einn púnkt, sem 8,4 og 8.4, og skal þad eins ráda og hitt.

: nefnist Deildarnóti, og þýdir ad fyrri tølunni se deilt med hinni sídarri. sem 8:4, þad er allt eitt og stædi 8 deildir med 4, edr í 4 stadi.

= heitir Jafnadarnóti, og iarteignar ad tølurnar se iafnar er han ímillum stendr. sem 8 = 4 ✠ 4;

það er, 8 er jafnmikið og 4 ásamt 4. It. $8+4=12$. It. $8-4=4$. It. $8\times4=32$. It. $8:4=2$.

§. 38. Að síðustu heyrir og að kunna lesa og skrifa Rómversku tölu, er svo opt stendr á skrám og bókum. og er hún innifalin í þeßum sex ordstøfum er svo þýda:

I. V. X. L. C. D edr Iɔ. M edr cIɔ.
1. 5. 10. 50. 100. 500. 1000.

Med þeßum støfum einum á tvær leidir sam-settum verdr áqvedinn í riti hverskonar tølufiøldi. 1) Þá er einhverr þeirra hefir oflitla merkíngu móti áqved-inni tølu, þá setia menn þar aptan vid annan minna edr iafnan staf. sem her: II, 2. III, 3. VI, 6. VII, 7. VIII, 8. XI, 11. &c. XV, 15. XX, 20. LV, 55. LX, 60. CX, 110. CL, 150. CC, 200. DX, 510. DL, 550. DC, 600. MDCLXVI, 1666. En 2) þá er stafrinn hefir ofstóra merkíng ímóti tiltekinni tølu, þá setr madr einnhvern af þeim minnum þar framan, og þýdir þá sá stærri svo mørgum færri sem hinn minni jarteinar marga. sem IV, 4. IX, 9. XL, 40. XC, 90. Her af er þá lióst ad hvargi er minni edr jafnstórr stafr stendr eptir annan, þá skal báda lesa. en hvar sem stærri kemr eptir, þá má hann lesa svo mørgum færra sem enn minni þýdir mikid.

---

Um

# Um fióтar Hofudgreinir Talnavitskunnar í einskonar tølum. og ser í lagi Um ADDITIONina.

§. 39.

ADDITIO edr Samlagníng er saman safnan tveggia edr fleiri sundrlausra en þó einskonar talna í eina samfellda telu, á þá leid ad sú tala se iafnmikid og allar hinar. Þær telur, er samansafna skal, eru kalladar (í látínumáli) Addendi edr samleggiandi telur. En su tala, er fyrir samsefnun þeßara talna verdr fundin, heitir Summa eda Safnadr (aggregatum).

§. 40. Þar sem af hmißkonar edr sundrkendum einíngum kann engi samfelld tala verda (§. 6.), þá megu þær telur, er saman skal leggia, vera samnefndar og einskonar. fyrir því skulu einfalldar eiríngar med einfelldum saman leggiast, stærri med stærrum, sem tígir med tigum, hundrud med hundrudum, þúsundir med þúsundum og s. fr. Her af er þá og sied ad hmißkonar telur útheimta ad verda heimfærdar til ins sama konar, ádr þær eru samlagnar. en med því ad slík kynbreytíng verdr eigi regluliga veitt nema fyrir Deilíngu, þá mun eg þar um ekki fyrr greina, enn synt hefir hve deila skuli.

§. 41.

§. 41. Hve saman leggia skal nokkurar (stórar) tølur.

I. Regla. Rita fyrst samleggiandi tølur í dálkum hveria nidr frá annarri frá hægri hendi til ennar vinstri, svo ad einíngatala standi undir einínga telu, tígir undir tigum, hundrud undir hundrudum, og þúsundir undir þúsuudum og s. fr.

II. R. Ad svo giørvu drag þverstrik nedan telurnar ad þær blandist eigi vid summuna (edr søfnudinu).

III. R. Þá byria vid hægri hønd (það er á einínga dálkinum) ad leggia saman, og skrifa summu einínganna beint nidr frá undir strikinu. Tel þarnæst tugana saman, og set tuga summuna rettlínis undir þeßum dálki. sídan tel hundrud saman, þá þúsundir og hvad meira er, og rit søfnudinn undir hvert sinn á hverium stad. sem her:

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1sta dæmi. | Samlegg- iandi tølur | 2431 | Seg nú á þeßa lund. |
| | | 5267 | 7 og 1 eru 8. 6 og 3 eru 9. 2 og 4 eru 6. |
| | summa | 7698 | 5 og 2 eru 7. |

IV. R. Ef einínga summan verdr stærri enn 9, edr verdr hún þeßháttar tala sem ella skrifast á med tveim tølustøfum, þá set ad eins þann tølustafinn undir strikid er ella skal standa

nær

nær hægri hendi, en legg hinn þá þegar til næsta dálks framan, er í standa tígirnir. verdi tiga summan yfir 9 edr tveir telustafir, þá rít inn hægra nedan vid tuga dálkinn, en bæt þeim vinstra vid hundrada dálkinn. á þvísa leid skal adfarid í ellum edrum teludálkum er slíkr adburdr verdr. sem her:

2. dæmi. Samleggiandi telur

| | |
|---|---|
| 93597 | Seg nú svo: 3 og |
| 154 | 5 eru 8, og 8 til |
| 9968 | eru 16, og 4 til eru |
| 85 | 20, og 7 til eru 27. |
| 3 | set 7 rett nidr frá undir strikid, en legg |
| summa 103807. | |

þá 2 (þad eru 2 tugar) til næsta dálks, og mæl svo. 2 og 8 eru 10, og 6 til eru 16, og 5 til eru 21, og 9 til eru 30. skrifa o beint undir, en legg 3 (sem iarteina her 3 hundrud) til þridia dálks, og seg þá. 3 og 9 eru 12, og 1 til eru 13, og 5 til eru 18. set þá 8 rett nidr undan, og mæl sídan: 1 (þad er 1 þúsund) og 9 eru 10, og 3 til eru 13. rít 3 undir þúsunda telunni, en legg þann 1 (sem her þýdir 10 þúsundir) til 9 og skrifa þar nidr frá 10.

V. R. Hversu merg o sem standa í samleggiandi telum, þá hlaup yfir þau til flýtis og nefn eigi. en se engi annarr telustafr til, þá set o í summuna undir, sem her:

3. dæmi. 90400360020
85601700980
176002061000.

§. 42. Enn dæmi vidvaníngum ad æfa sig í.

1. dæmi.

Hve mørg ár voru frá sköpun veralldarinnar til Nóaflóds, þar sem

| | | | |
|---|---|---|---|
| Adam er han gat Seth | var | 130 | ára |
| Seth er han gat Enos | — | 105 | — |
| Enos er h. g. Kenan | — | 90 | — |
| Kenan er h. g. Mahaleel | — | 70 | — |
| Mahaleel er h. g. Jared | — | 65 | — |
| Jared er h. g. Enoch | — | 162 | — |
| Enoch er h. g. Methusalah | — | 65 | — |
| Methusalah er h. g. Lamech | — | 187 | — |
| Lamech er h. g. Nóa | — | 182 | — |
| en Noa er flódid kom | — | 600 | — ? |
| | úrlausn | 1656 | ár. |

2. dæmi.

Hve mørg voru Israels Børn eptir út førina af Ægyptalandi, þá er talnir voru i ættqvísl

| | | | |
|---|---|---|---|
| Rubens | — | 46500 | menn. |
| Simeons | — | 59300 | — |
| Gads | — | 45650 | — |
| Judæ | — | 74600 | — |
| Isaschars | — | 54400 | — |
| Sebulons | — | 57400 | — |
| Ephraims | — | 40500 | — |
| Manaßis | — | 32200 | — |
| Beniamins | — | 35400 | — |
| Dans | — | 62700 | — |
| Aßers | — | 41500 | — |
| Nephthalis | — | 53400 | — ? |
| úrlausn | | 603550 | menn. |

3. dæmi.

3. dæmi. Hve mikid verda 101 + 232 + 113 + 220 + 334 + 241 + 5352 + 6463 + 7614 + 8942 álstar fiadrir? Svar 29612 f.

4. dæmi. A. hefir fengid í hlut í veri 848, B. 123, C. 987, D. 978, E. 489, F. 348, G. 708, og H. 421 fisk. hve margt er þad? úrlausn 4902 fiskar.

5. dæmi. Hve mikid eru 5343 + 1234 + 2135 + 2396 + 5379 + 1238 + 9129 + 3793 + 76529 + 93243 skillíngar? Svar 200419 ß.

6. dæmi. J kaupstadi eru látin 25395 + 19336 + 21957 + 33765 + 44876 + 55697 + 76738 + 87249 + 78152 + 32931 par duggara sokka. hve margt er þad? úrlausn 476096 pör.

7. dæmi. Til kaupstadarins A. eru flutt 30 Pd. Caffebauna, til B. 39, t. C. 25, t. D. 43, t. E. 461, t. F. 791, t. G. 309, t. H. 459, t. I. 565, t. K. 179, t. L. 192, t. M. 189, t. N. 398, t. O. 345, og t. P. 129. hve mörg voru þau samt? Svar 4154 Pd.

§. 43. Þegar miög margar tölur skal samanleggia, sem tídt er í talnabókum eda brefum kaupmanna, svo ad tala sú er til næsta dálks ad framan skal leggia, verdr meira enn einn tölustafr, t. d. 10, 15, 24 edr þadan af fleira, þá er rádligast ad madr addeili þeim samleggiandi tölum med þverstrikum, og leggi svo hvern kafl saman fyrir sig, og skrifi hveria serliga summu undir annarri, og seinast safni þeim öllum í eina höfud summu eptir almenniligum samlagníngar reglum (§. 41). Þetta er svo audskilid ad eigi mun dæmi til þurfa.

§. 44.

§. 44. Það er menn veniuliga rita samleggiandi tølur hveria uidr frá annarri, er ad sønnu eigi nauðsynligt, en vegna þeirrar nytsemi fundit, ad madr hefir þá fyrir siónum hveriar einíngar um sig rettlínis upp og nidr, og kann eigi villr fara í samsøfnuninni, t. d. ad leggia tuga einíngar til hundrada, edr hundrud til þúsunda tølu. En ad byria frá hægri hendi samlagníngnna, það er nær naudsynligt til ad þegar verdi lagid til fremra dálks það er yfir stígr hinn eptra, sem tígir til tiga er af einínga tølu verda, hundrud til hundrada tølu er af tigum verda, og s. fr. Ella ef tekid væri til frá vinstri hendi, mætti skrifa summurnar hveria ser, og svo telia þær saman aptr, og er það tvíverknadr einn. Af þessu má og það skilia ef partar edr brot af einføldum einíngum fylgdu samleggiandi tølum, þá mætti og á þeim pørtum byria ad safna saman.

§. 45. Eins og tala sú øll, er minni er enn 10 í dálki hverium samløgdum, verdr þar undir sett, en hverir 10 frá hægra dálki hverjum teljast fyrir 1 í vinstra (§. 41. IV. R.); svo mætti og þá allt eins ef eining hver í vinstra þýddi annadhvert fleiri edr færri enn 10 einíngar í hægra, setia það allt er minna væri þeim stóru einíngum undir þær minni, en allt það er jafnadist vid enar stærri eitt sinn og þaðan af optarr, mætti telia fyrir 1 af þeim og til þeirra leggia.

Til d. Ef 16 einíngar í hægra dálki skylldu jarteikna 1 í vinstra, og einínga summan í ennum hægra vyrdi (t. d.) 18, þá med því 16 eru þar í 1 sinni innifalnir, en 2 verda umfram, þá skylldi þessa 2 rita undir slíkar minni einíngar, en leggia 16 fyrir 1 til enna stærrn. It. skylldi 4 minni einíngar giøra 1 stóra í fremra dálki, þá ef summan af slíkum væri (t. d.) 23, mætti setia 3 undir þær smáu, en telia 20 fyrir 5 stærri einíngar, er 4 eru í 20 fim sinnum.

§. 46. Pad er øngan veginn þorf, helldr einíngis verkatøf ad skrifa hiá þá tølu er vid fremra dálk skal bæta, medan hønum er samnad. þvíad hana þarf eigi lengr í minni hafa enn medan ritin er sú hægri, og þá þegar verdr hún lagin til næsta dálks, sem siá má af ødrn dæminu §. 41.

§. 47. Fyrir eitt kemr hvert byriad er ad ofan edr nedan med samlagnínguna. þvíad hvert helldr eg segi t. d. 7 og 1 edr 1 og 7 (siá 1sta d. §. 41), þá verda 8, og svo ferr um annad allt. Fyri því ef samleggiandi tolur eru margar, og fyrst er safnad upp eptir og nidr, eptir annad sinn og summan verdr øll ein, þá er miøg líkligt ad rett se gert. og er þá þetta nokkurskonar prófan. Um þann reglnliga prófunarhátt Samlagníngarinnar med Frádragníngu skal greint verda sídarmeirr. en þad ad prófa med 9 og 7, er margir gera, vil eg her ekki um tala, þvíad þad er bædi seint og ótrútt.

## Um SUBTRACTIONina.

§. 48.

SUBTRACTIO edr Frádragníng er frátekníng einhverrar telu frá annarri stærri edr iafnstórri samakonar, á þann hátt ad fundin verdr sú tala er sýnir veruligan mismun hinna beggia. Tala sú er frá annarri skal draga, heitir (i Látínumáli) subtrahendus edr frádragandi tala. item subtractor edr Frádragi. Sú er frá verdr dregid, kallast minuendus edr mínkandi tala. en hin þridia er á slíkan hátt verdr fundin, nefnist residuum, þad er leifar edr eptirstød. Item differentia edr mismunr.

§. 49. Frádraginn og leifarnar eru i tilliti heillrar edr mínkandi tolu sem partar hennar, òg med því engi samfelld tala kann verda af sundrkendum eíníngum edr hlutum (§. 6.), þá megu þau og vera sama kyns og kenníngar sem hún. Her af leidir og þad er hverskonar eíníngar skal draga frá þeim er samnefndar eru, sem einfalldar edr minni frá minnum, stærri frá stærrum, þ. e. tígi frá tigum, hundrud frá hundrudum og s. fr. Item, ad engi sundrkend tala kann verda frá minnin annarri fyrr en hún (þad er ad segia mínkandi) er heimfærd til sama konar

konar og kenníngarnafns. en med því slíkt verdr eigi regluliga veitt nema fyrir margfölldun, þá má þar ekki um geta fyrr enn siá grein er kend. Og id sama er um þótt frádragandi se heimfærd til sama konar og mínkandi, þvíad med slíku móti verdr talan brotin.

§. 50. Hve draga skal einhveria tölu frá annarri.

I. Regla. Skrifa þær tilteknu tölur hveria nedan adra, sem skilid var í Istu reglu §. 41. á þann hátt ad frádragandi tala standi undir mínkandi.

II. R. Drag þverstrik nedan tölurnar, (svo ad leifarnar blandist eigi vid frádragann).

III. R. Byria vid hægri hönd og tak fyrst einíngar nedri tölunnar frá einíngum hinnar efri, þá tigu frá tigum, þá hundrud frá hundrudum, þá þúsundir frá þúsundum 2c. og rit hveriu sinni þad er leift verdr eda mismunar nedan strikid: einínga mismun undir einínga dálki, tuga leifar undir tuga dálki og s. fr. sem her:

1. dæmi. Mínkandi 87945
Frádragi 55432
Eptirstod 32513.

Seg nú á þvísa lund. 2 frá 5, verda 3 edr munar 3 (þad er med fullu atqvædi: þegar 2 eru teknir frá 5 verda 3 eptir, edr munar þrimur). 3 frá 4, verdr 1. 4 frá 9, munar 5. 5 frá 7, munar 2. 5 frá 8, munar 3.

IV. R. Se Frádraginn jafnstórr og mínkandi telustafr, þá set o nedan strikid, og þýdir þad er engi se munr talnanna.

2. dæmi. mínkandi 7842 Her seg: 2 frá 2, munar
Frádragi 6842 o, eda verdr o. Þad er:
leifar 1000. munar aungu, eda verdr ekki eptir. og s. fr.

V. R. En ef Frádraginn er minni enn mínkandi stafr, edr er mínkandi ómerkiligr (§. 20), þá tak til láns eina eíníngu hiá stafi þeim er næst fyri framan stendr mót vinstri hendi. en sú eíníng þýdir veruliga 10 minni eíníngar af þeim er næst eptir koma (§. 25). Þeßa legg til ens minna telustafs edr ófins, ef er. nem sídan frádraganda frá mínkanda staf er nú var um 10 aukinn. en set púnkt vid hægri hlid telustaf þeim er hiá var 1 ad láni tekinn, til minnis ad han se einum færra en ádr. sem her:

3. dæmi. mínk. 9037 Mæl nú svo: 8 frá 17 (því
frádr. 5418 ad 7 er minnr enn 8 og verdr
mism. 3619. ad taka 1 til láns hiá 3.)
munar 9. 1 frá 2 (þvíad hinn þridi var ad láni tekinn) verdr 1. 4 frá 10 (þvíad frá o kann ekki nemast, og má því til láns hafa 1 frá 9.) munar 6. 5 frá 8 (þar er hinn 9undi var nú tekinn ad láni) verda 3.

VI. R. En beri svo til, þá er draga skal meira telustaf frá minna, ad o standi næst fyrir

í þeim

í þeim stad er til láns á ad taka, þá nem 1 frá tölustaf þeim er næst fyrir óinu gengr, og þá er einíng sjá er lagin til ósins, verda 10. af þeßum 10 nem þá aptr einíngu til láns (sem og merkir 10 minni) til ad stækka med inn minna tölustaf er frá skylldir ádan draga, og tak sídan þar í frá hinn nedra staf, er nú er minni vordinn. en set einn púnkt bædi vid tölustaf þann er fyrir óinu stendr, og hiá var id fyrra sinn ad láni tekid, og eins vid 0 (er frá var id seinna sinn numid), til þeß ad skilia megir ad þad merki nú ad eins 9. á sömu leid er ad farid þótt í röd standi fleiri 0, því ad nærgi sem til láns er tekid fyrir framan, þá verda þau öll ad 9.

4. dæmi m. 800304 Seg nú á þvísa leid. 7
Fr. 278937 frá 14, verda 7: 3 frá 9,
Esi. 521367. verda 6. 9 frá 12, verda
3. 8 frá 9, verdr 1. 7 frá 9, verda 2. 2 frá 7, verda 5. Her má ad vísu undra, er engi þeirra talna sem í standa efri rödinni, verdr nefnd er frá er dregid. en þad er svo ad skilia, ad þar sem eg mællta 7 frá 14, þá tók eg 1 til láns hiá 3 og lagda vid óid, og vard þá 100. af þeßu 100 nam eg aptr 10 og lagda vid 4 og því urdu 14. Þar er eg sagda 3 frá 9, þad kom svo til ad tekid hafdag 10 frá því hundradi er eg nam frá 3

og urdu því 90 eptir. þar sem eg mællta 9 frá 12, bar þad til ad 1 var fyri fram tekinn hiá 3, sem ádan um gat eg. en aptr 1 (sem iarteignadi 100,000) numinn í frá 8 og laginn til ens fremra ós. þar í frá tók eg enn 1 (sem þýddi 10,000), og bætta vid hid sídara 0. og þar frá nam eg enn aptr 1 (sem jarteiknadi 1000) og lagda vid 2 og því urdu 12 (hundrud). Efni til þeß er eg mællta 8 frá 9 og 7 frá 9 var þad, er eg hafda 1 ad láni tekid framan' óin, sem fyrr sagdag. og frá þeim aptr numid hverin um sig, og því vard 9 í hverju rúmi. en þar sem 1 var tekinn frá 8, þá stódu ad eins 7 eptir, og því sagdag 2 frá 7. Hversu margt eg rædi her um, þá er þó fákunnøndum vándskilid, hverniginn 0 kunni umbreytast í 9 þótt fyri framan se til láns haft. en her til kann eg eigi liósara dæmi leida enn þad, ad þá er 1 skal dreginn frá 10, þá má fyrir fram taka þá einingu sem framan óid stendr, og vitu þá allir ad 9 einir leifast. 1 frá 20, þá má annan ad láni hafa frá 2 og verda 19 eptir. 1 frá 100, verda 99. 1 frá 1000, verda 999. og 1 frá 1000000, verda 999999.

VII. R. Hvargi sem 0 stendr í frádraganum, þá rit minkandi tøluſtaf undir. þvíad svo sem frá ói verdr ekki dregid nema tug-einingu se vidbætt, svo tekr 0 eigi helldr nokkvarn hlut frá neinum serþýdanda staf. En se 0 bædi í efri og nedri tølu á einum stad, þá set og 0 undir, þar engi er munrinn. En ef í frádraganum eru færri tøluſtafir enn í minkandi tølu, þá set

þann

þann staf undir er fram af gengr, edr ef þar í frá er 1 numinn ádr, þá næsta minna. sem her:

5. dæmi. M. 78069050 Seg nú. o fra o munar o
Fr. 800000 (það er, øngu). o fra 5,
L. 77269050. munar 5. o fráo, verðr o)
þ. e. ekki eptir). o fra 9,
verda 9. o frá 6, verda 6. 8 frá 10, munar 2. sídan rit ordalaust 77 undir.

VIII. R. Hvergi er 1 steudr í mínkandi og hefir madr hann fyrir fram tekinn, þá verdr o í stadinn (§. 22). sem her:

6. dæmi. M. 21010310 Mæl her svo. 9 frá 10
Fr. 5478269 verdr 1. 6 frá 10 v. 4.
Est. 15532041. 2 frá 2, v. o. 8 frá 10,
v. 2. 7 frá 10 verda 3.
4 frá 9 v. 5. og 5 frá 10 verda 5.

§. 51. Enn dæmi til æfingar vidvaníngum.

1. dæmi (eptir øllum reglunum samt), ad draga
frá 280051010200606 2345
100694734587486 13
leifast 279044062854731 3732.

2. D. Nú telia menn frá skøpun verafldarinnar 5746 ár, en frá Kristsburdi 1779. hve mørg vóru þá frá skøpuninni þá er han kom til? úrlausn (þá er 1779 eru dregin frá 5746, verda það) 3967 ár.

3. D. Nú er lidin eru frá skøpuninni 5746 ár til þessa tíma, en til Nóaflóds 1656, og frá Gudsburdi 1779, hve mørg ár voru þá ímillum flódsins

og Kristi fædíngar? þetta skal svo nidr setia (en siá þó §. 52. og 58):

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 5746 | 4090 | | 1656 } samlogd. | 5746 |
| 1656 | 1779 | edr svo | 1779 } | 3435 |
| 4090 svar | 2311 ár. | | 3435 | Svar 2311 ár. |

4. D. Rikissiórn tók í Danmørku Olldinbyrglínga ætt 1449 árum eptir híngadkomu Krisiar, hve lengi hefir hún þá rikt? úrlausn (þá er 1449 eru numin frá 1779), í 330 ár.

5. D. Frá umbreytíngu páfatrúarinnar í Lútheri átrúnad eru lidin hérum 262 ár. hvenær var þá sidnum breytt? Svar (þá er dregin eru 262 frá 1779), 1517 árum eptir Gudsburd.

6. D. Madr er nú hálfsiötigr (ad alldri), hvenær er siá fæddr? þad skal svo setia: 1779

65 (alldr mannsins).

úrlausn: á 1714 ári eptir Gudsb.

7. D. Annarr er fæddr 1688. hve gamall er han þá? Svar: han hefir einn um nírædt.

8. D. á bók noqvarri stendr um alldr hennar cIↄ D L V. hve gømul er siá nú? Set þannig (eptir §. 38):

1779

1555

úrlausn 224 ár.

Merk af þeßum dæmum ad nærgi er madr telia vill alldr manna og annarra hluta hid sama, edr og á hverin ári menn eda hlutir hófust, þá skal slíkt gera med frádragníngu, og iafnan þar til hafa árs tølu þá er yfir stendr, hvert helldr telia skal frá skøpun verralldar edr fædíngu Krists.

9. D. Í talnabók kaupmans nokkurs greinir ad út se tekid af heradsmønnum til 1200102 fiska, en þeir hafi talid honum allir samt 1199092 fiska, hve mikil er þá eptirstodin? Svar 1010 fiskar.

10 D. Drag 2340567 merkur frá 6712349 morkum. verda eptir 4371782 m.

11. D. 21987956 sk. ÷ 11786907 skildíngum, verda 10201049 sk.

12. D. 9998887798 minútur ÷ 7897656768. minútum, verda 2101231030 m.

§. 52 Ad rita frádragann nedan minkandi tolu er regluligr sidvandi (af somu rokum til fundinn sem greint var í §. 44.) en naudsyn engi, þvíad þótt han standi ofan hana, sem opt kann til bera í talna skrám edr bókum, þá verdr allt ad einu frádregid, svo fremi reglanna se gætt um hvert fyri sig (§. 50.), og má þad best audsýna med 3dia æfíngardæmi (§. 51.). Þar reit eg 3435 tvisvar (til drýginda bókfellinu), er ella mátti 5746 nedan setja þá tolu á þvísa lund, og draga 3435 (summu 1656 og 1779 samlaginna).
frá 5746 árum, og
verda 2311 ár leifd sem fyrr.

En meira vandhæfi er á ef frádraginn stendr ad annarri hverri hlid minkandi tolu, þótt í slíkum atburdum megi allt ad einu frádraga.

§. 53. Þad er byria skal frádragnínguna vid hægri hønd, er fyrir þær sakir tilskilid, ad madr kunni, hvargi er þorf verdr, ad taka til láns (einíngu) hiá fyrifaranda toluštaf, er í honum er einíng hver 10 sinnum stærri enn þeim sem næst eptir kemr. En se

byriad frá vinstri hendi, þá má tvisvar frá nema og tvisvar skrifa eptirstødina, sem her:

532460210 Her má segia: 3 frá 5, verda 2.
354678926 5 frá 3 kannat eg nema. má því
~~28339279~~4. ad láni hafa 1 frá 2 er fyrst leifd-
57778128 ust. fyri því frá 13, verda 8, og
1 frá 2 (er undir eins verda út dregnir) munar 1. og s. fr.

§. 54. Af sømu røkum leidir og þad, ef þeim áqvednu tølum bádum edr ad eins Frádraganum fylgia partar einínga edr brot, þá má og frádragníngina byria á þeßum pørtum.

§. 55. Hverr tølustafr í mínkandi kann minni vera enn í frádraganum, svo fremi sem hinn fyrsti er stærri edr og mínkandi (einn) rúmi lengri enn frádragandi mót vinstri hendi: því ad þann hátt má jafnan 1 fyrir fram nema úr vinstra dálki er þýdir 10 í eptra. En nú er mínkandi øll samt skal ad minsta kosti jøfn øllum frádraganum (§. 48), þá kann engi tala verda frá numin annarri sú er stærri stafi hefir mót hægri hendi enn hin, en jafna mót vinstri, ne en helldr sú er rúmi er annarri lengri.

§. 56. Med því frádragandi er samfelld sem optast, edr þótt sundrlaus se þá venuliga samlagin ádr enn frá dregid er (sem í 3. d. §. 51.), en hinn stærsti stafr í henni er 9, þá verdr eigi þørf ad taka fleiri einíngar enn 1 frá fremra staf í mínkandi ad láni. en skylldi nú samanleggia tvo frádraga edr fleiri og undir eins nema summuna frá mínkandi, en hún yfirstígi hana, og svo þótt eining (er 10 þýdir) væri høfd frá vinstra

vinstra til láns, þá má allt eins taka 2 tiga einíngar edr 3 (og enn fleiri ef þarf) ad láni hiá fremra siaf mínkandi, enda gæta þá eins ad siá stafr er til hans kemr, þýdir og svo morgum færra.

T. d. frá 4000321 skyli dregnir 987989 + 879798, þá mæli svo í 1sta rúmi vid hægri: 8 og 9 eru 17, frá 21 verda 4. í 2dru R. 8 og 9 e. 17, frá 20 (þvíad þá 2 tigu nam eg ádr burt, en nú 2 frá 3.) v. 3. í 3dia R. 7 og 9 e. 16, frá 21 (þvíad nú tek eg 1 hiá 4 og legg vid óin, og hefi sídan 2 tigu frá enn sídarsta, og verda þar 8 eptir) v. 5. í 4da R. 7 og 9 e. 16, frá 18 (og tek nú 1 frá 9 er hin óin urdu ad) v. 2. í 5ta R. 7 og 8 er 15, frá 18 (og nem enn 1 af 9.) v. 3. í 6ta R. 8 og 9 e. 17, frá 18 (og hefir enn 1 frá 4, svo ad þá eru þar 2 eptir) verdr 1. og er nú munrinn 2132534.

§. 57. Af slíku má enn skilia, ef hver einíng í fremra rúmi skylldi eigi ad eins merkia 10 í eptra, helldr annadhvert fleiri edr færri, þá mætti hana telia fyrir svo margar einíngar í hægra rúmi er hún ad láni væri numin, sem veruliga væru innifalnar í henni.

Til d. Þýddi stærri einíng hver 16 minni, og draga skylldi 9 frá 3, þá mætti einíngu þá er ad láni væri tekin, telia fyrir 16 einíngar slíkar sem 3 eru, og yrdu þá 19. It. ef stærri einíng jarteindi 4 minni og taka ætti 3 frá 2 sama konar, þá skylldi hana fyrir 4 telia í hægra rúmi, og yrdu þá 6 í mínkandi (siá §. 45).

§. 58.

§. 58. Ad sídustu er þeß getanda ad þá er mínkandi edr frádragandi er eigi samfelld tala edr og hveriq þeirra, þá eru menn vanir ad hafa tvíverknad á því, leggia fyrst saman og draga sídan frá. en nú skal þád sýna hversu veita megi hvartveggia med einum verknadi. Og er þá hinn.

Isti atburdr sá er draga skal nokkurar sundrlausar tølur frá samfelldri. Skal þá svo nidrsetia sem nú þegar ser, og leggia fyrst saman frádragandi stafi í dálki hverium, og verdi summan yfir 9, þá skal setia púnkt vid einhvern telustaf í næsta dálki framan, er þýdir ad tugar einíngin se þar til lagin, og siá stafr merki nú einum fleira enn ádr. en þad er yfir tíginu verdr, skal draga frá mínkanda stafi og rita undir á þeßa leid:

| | | |
|---|---|---|
| | 5746 | Seg nú svo: 9 og 6 eru 15. |
| Siá §. 51. | 1.6.5.6 | og set púnkt vid 5 í tuga |
| 3. D. og §. 52. | 1779 | dálkinum. en drag 5 frá 6, |
| | 2311. | verdr 1. þá seg: 7 og 6 |

(þvíad púnktrinn þýdir 1) e. 13. 3 frá 4 v. 1. þá 7 og 7 e. 14. 4 frá 7 v. 3. þá 1 og 2 e. 3, frá 5 v. 2.

IIuarr atburdr er þad er draga skal samfellda tølu frá nokkurum sundrlausum. þá skal svo nidrsetia sem nú man eg sýna. og fyrst nema frádraganda staf frá einhverium mínkanda í sama dálki, sídan skal leggia mínkandi stafi saman

þá

þá er eptir eru og rita summuna undir. en se hún yfir 9, þá seti púnkt fyrir tug vid einhvern staf í næsta dálki, en þad er umfram er tuginn, undir strikid. sem her:

| | | |
|---|---|---|
| Samleggiandi. | 4:9 3.2<br>3 8 7 4<br>8 3 8 | Mæl nú svo: 3 frá 8 verda 5. þèßir 5 og 4 til eru 9 og 2 til e. 11. skrifa 1, en set púnkt vid 3 í efstu rød. þá mæl: 9 frá 3 + 7 (þ. er 10) v. 1. þeßi |
| Frádr. | 9 1 9 3 | |
| | 4 5 1 | |

1 og 4 (þvíad 1 tigr var laginn til 3) e. 5. þá 1 frá 8 v. 7. 7 og 8 e. 15 og 9 t. e. 24. rit nú 4 undir, en set tvo púnkta vid 4 í efstu rød. og seg þá: 9 frá 3 + 6 (þ. e. 9) verdr ekki.

Merk. Her kann madr og fyrst leggia hvern dálk saman ef vill, og setia þegar púnkt fyrir tug í fremra dálk, ef frádragandi stafr er eigi svo stórr ad tigarins vid þurfi, og segia svo: 3 frá 4 v. 1. þá 9 frá 14 v. 5. þá 1 frá 5 v. 4. þá 9 frá 9 v. 0.

Illdi atburdr er sá er draga skal sundrlausar tølur frá ødrum sundrlausum. og skal þá setia á þann hátt er her nedan ser. og fyrst leggia saman frádragandi stafi í dálki hverium, setia púnkt fyrir tug í næsta dálk, ef tigr verdr. en draga þad sem yfirstígr frá einhverium staf í mínkandi þar upp frá (sem í 1sta atburdinum) þá leggia eptirstødina saman vid hina adra stafi í sama dálki, og verdi summan yfir 9, þá skal setia púnkt fyrir tug i næsta dálk, en rita undir

þad

þad er yfir verdr (sem í 2drum atburdinum;. til dæmis:

| | | |
|---|---|---|
| Saml. | 2.1:4.5<br>3562<br>4387<br>5924 | Mæli nú: 4 og 3 e. 7 og 6 t. e. 13. set nú púnkt fyrir tíginn vid 5 í næsta dálki. en drag 3 frá 4, v. 1. þeßi 1 og 7 e. 8 og 2 t. er 10 og 5 t. e. 15. set 5 undir strikid, en púnkt vid 4 í tiga rød mínkandi. þá seg: 2 og 3 e. 5 og 6 t. e. 11. 1 frá 2 v. 1. þá 1 og 8, v. 9 og |
| Frádr. | 4.1.5.6<br>923<br>6734 | |
| | 4205 | |

6 t. e. 15 og 5 t. e. 20. set nú 2 púnkta vid 1 í hundrada rød mínkandi, en o undir. þá 7 og 9 e. 16 og 2 t. e. 18. 8 frá 9 v. 1. sá 1 og 3 e. 4 og 5 t. e. 9 og 3 (þ. e. 1:) e. 12. set 2 undir, en púnkt vid efstu tvo. þá 6 og 5 e. 11, frá 5 + 4 + 3 (þ. e. 12) v. 1. siá 1 og 2. (edr 3) er 4.

Merk. Í øllum þeßum dæmum má og adfara sem um er getid í §. 56. og taka til láns 1 edr 2 tiga einingar (og fleiri ef þarf) allt eins í frádraganum sem í mínkandi, og setia þá púnktana vid stafi þá er hiá er ad láni tekid, og þýda þeir þá svo miklu minna sem púnktarnir eru margir. sem her:

| 1sta D. | 2nad D. | 3dia D. |
|---|---|---|
| 5.7.4.6<br>1656<br>1779 | 4932<br>3874<br>838 | 2145<br>3562<br>4387<br>5924 |
| 2311 | 9:19.3 | 41.56<br>923<br>6734 |
| | 451 | 4205 |

Seg þá í 1. D. ad hverium dálki samløgnum: 15 frá 16 v. 1, 12 frá 13 v. 1, 13 frá 16 v. 3, 2 frá 4 v. 2. En í 2drn D. 13 frá 14 v. 1,

v. 1, 8 frá 13 v. 5, 21 frá 25 v. 4. Og í 3dia D. 13 frá 18 v. 5, 20 (þvíad eg tek 1 tug ad láni) frá 20 v. 0. 16 frá 18 v. 2, og 10 frá 14 v. 4.

Um þetta mun eg hellsti ordmargr sýnast, en hitt man þeim þikkia er vel æfa sig í, ad siá einverknadr se fliótari mikla, hvergi veg sem til verdr farid. enda um nytsemi slíkrar adferdar er seinast greindag, þá má þad hverr skynia ad med henni læri madr ad frádraga miklu stærri tølur í huga ser enn med hinni almennu (§. 50.). þarf og eigi ad undrum hafa þótt fleiri tigu til láns taki enn 1 í mínkandi edr í frádraganum siálfum, þvíad fyrir eitt kemr hvart eg segi t. d. 3 frá 5, edr seg eg 13 frá 15, edr 23 frá 25, edr 33 frá 35, þá verda hvervetna 2 í eptirstød. It. hvart eg segi 5 frá 14 edr segir eg 15 frá 24, edr 25 frá 34, þá verda iafnan 9.

## Um MULTIPLICATIONina.

§. 59.

MULTIPLICATIO edr **Margfalldan** er samlagning einhverrar sému tølu svo opt ítrekud sem ønnur áqvedin tala þýdir margt, á þá leid ad fundin verdr sú tala sem innibindr í ser þá adra tilteknu telu svo margsinnis sem í annarri tiltekinni eru margar einíngar innifólgnar.

Til d. Ad margfallda 5 med 3, er allt eitt og ad leggia 5 þrim sinnum saman (þvíad í 3 er þriár einín-

einíngar), sem 5 og 5 eru 10, og 5 til eru 15. og eru nú 3 innibundnir í 15 sim sinnum, sem einíngar eru í 5, en 5 þrim sinnum, sem einíngar í 3.

§. 60. Þær ágvednu tølur kallast (af látínu mønnum) einu nafni Factores, þad er giørendur eda verkendur. slíkar eru 5 og 3 í tilleiddu dæmi. Tala sú er margfallda skal, nefnist multiplicandus edr margfalldandi tala. sú er med er margfalldid, heitir multiplicator eda Marg-falldi. en hin þridia er fundin verdr fyrir marg-felldunina, kallast factum, þ. e. Verkan edr verdandi tala. item productum edr afleidandi.

§. 61. Þá er margfalldnar verda tølur tvær hver med annarri, og hast er þar til þetta at-qvædi sinnum, sem 3 (þrim) sinnum 5 (edr þrisvar 5), þad kallast ad leida tølu til annar-rar, og athøfn siá heitir leidsla.

§. 62. Auk þessa hefir túnga vor miøg stutta og náqvæma málsgrein ad vísa med talnanna margføll-dun edr leidslu, hellst enna einfølldu, þvíad í stadinn þess ad margfallda med 2, 3, 4, 5, 6, 7, 8, 9, rc. køllu ver ad tvífallda, þrefallda, fiórfallda, fimfallda rc. item tínfallda, rc. hundradfallda, þúsundfallda. og mun eg þessi atqvædi sídarmeirr á þvísa lund rita: 2fallda, 3fallda, 4fallda rc. 10f. 100f. rc.

§. 63. Þá er tølurnar eru margfalldnar hver med annarri, þá verdr øll ein verkan, hvart helldr

helldr in fyrri er leidd til ennar sídari, edr hin sídari til ennar fyrri. t. d. hvart eg segi 5 sinnum 3 edr seg eg 3 sinnum 5, þá af leida 15 einir.

§. 64. Þetta er ad skilia um tølurnar siálfar án tilliti kenníngarnafnanna. nú eru þau annadhvart lík edr ólík á gierendum. en hvart sem er, þá þarf madr hvergi ad alíta nema annad þeirra ad eins og kalla því verkunina, enn hinn gioranda þótt vidkendr se sem óvidkendan edr sem tølunafn eitt. (og fyri því heyrir grein þeßi til einskonar talna). fyrir margfalldandi skal þá skilia slíka vidkenda tølu sem iafnan helldr sinu kenningarnafni í verkaninni þá er búid er ad margfallda, en margfalldann skal álíta sem telu eina án kenníngarnafns. Nú berr svo tídum ad er gierendr eru sundrkendir, sem ef ádrnefndir 5 skylldu iarteina ríkisdali, en 3 hetu pund, og veit þá ógerla hver talnanna se margfalldandi, edr hvart verkanin skal heita 15 Rdalir edr 15 pund. en þetta er audrádid af kríngumstædum slíkra dæma. sem: þá er fyrir 1 Rdal verda fengin 3 pd., þá mega fyrir 5 Rd. ad sama verdi fást 5 sinnum 3 pd. þ. e. 15 pd. Her eru 3 og 5 giorendr, en þad sýna kríngumstædurnar ad 5 verdr ad álíta sem

kenníngarlausa tolu, og fyrir því má verkunina kenna vid pund. Hinn veginu er þad, ef 1 pd. er sellt fyrir 5 Rd. þá megu 3 pd. seliast (ad sama verdi) fyrir þrenna 5 Rd. þ. e. 15 Rd. Enn eru giørendr 5 og 3. en af kríngumstædunum sést ad 3 má álíta sem kenníngarlausa tolu, og verkanin heita Rdalir. Segi madr nú í fyrra dæminu 3 sinnum 5 Rd. þá verda 15 Rd. edr í sídara d. 5 sinnum 3 pd., verda 15 pd. og hvartveggia rángt. þó má ad vísu svo mæla í bádum, en þá umbreytast kenníngarnefn giørenda, svo ad í fyrra d. heita 5 pd. en í seinna 3 Rd. og er þó rett, þvíad verkanina skal svo kenna. Þad er almenn sidvenia ad hafa minni tolu fyrir margfalldann, þótt hún ad rettu lagi se margfalldandi, þvíad þad þykir hægra. enda gilldir einu hver fyrir hann er høfd, svo fremi gætt er þess er nú hefir eg skýrt, og veit hveriu nafni heita skal verkunina. og því kemr þad optsinnis fyrir mikid ad hafa minni tolu fyrir margfalldandi, sem sídarr mun umgetid. En nú til einkunnar giøranda hvarum, þá vil eg þessu vidbæta: ad hvargi sem þetta atqvædi med stendr í medal þeirra, þá er hinn fyrri margfalldandi, en hinn seinni margfalldi. en þar sem þad atqvædi sinnum edr fallda stendr ímillum, þá er hin fyrri tala margfalldi, en hin sídari margfalldandi.

falldandi. og se þeßu breytt, þá breytast og kenn-íngar, ef eru, sem ádan sagdag.

§. 65. Hvart helldr Eining (þ. e. ad s. 1) er leidd til annars merkiligs tøluſtafs edr merkiligr ſtafr til einingar, þá verdr afleidandi (§. 60.) tala æll ein og ſtafr ſá er til var leiddr edr leidt var til. ſem 1ſinni 2 eru 2, edr 2ſvar 1 eru 2. og má þetta ſkilia af ſkýríngu Margfolldunarinnar §. 59.

§. 66. En af leidſlu ómerkiligs tøluſtafs til merkiligs, edr merkiligs til úmerkiligs verdr ómerkilig verkan edr engi (ſem og ſkilia má af §. 59). t. d. 1 (einu) ſinni o er o, edr 1ſinni ekki er ekki. Item: o ſinn 1 er o. þad er: ekki ſinn (edr aungu ſinni) 1 er o, edr ekki.

§. 67. Þótt margfalldanin ſe verulig ſamlagníng einhverrar tølu nokkurum ſinnum itrekud (§. 59.), þá kennir hún þó ad finna ſummuna edr verkunina miklu fliótarr enn ſamlagníngar háttrinn. þvíad í ſtadinn þeß ad rita 5 þriſvar, og ſegia 5 til 5 eru 10 og 5 til eru 15, þá ſegir madr nú í einni atrennu 3 ſinnum 5 eru 15, og allt eins um adrar tølur. og fyrir því er margfalldanin ſtutt og greidlig ſamlagníng.

§. 68. Nú hverr ſem greidliga kunna vill ad marg-fallda, má bædi vita og muna verkun talnanna, þá er þær leiddar verda hver til annarar, ad minnſta koſti þeirra einſtøku (er 9 er hin ſtærſta). en med því vid-

vaníngum veitir þad ærid þungt ad segia skiótliga hve margt se t. d. 8 sinnum 9, þá eru þeir vanir er ødrum kenna ad selia þeim í hendur margfølldunar tøblu skrifada, er heitir Pythagors tabla, og láta þá nema hana utan bókar, sva ad þeir kunni án nokkurrar umhuxunar ad segia verkun hverskonar einstakra talna. og med því nytsemi þeßar tøblu er sva mikil, ad madr lærir alldregi ad margfallda til nokkurrar hlítar, nema hana giørliga kunni, þá hlýdir og haga ad setia innan í þeßu.

2 sinnum: 1 eru 2, 2 — 4, 3 — 6, 4 — 8, 5 — 10, 6 — 12, 7 — 14, 8 — 16, 9 — 18

3 sinnum: 3 eru 9, 4 — 12, 5 — 15, 6 — 18, 7 — 21, 8 — 24, 9 — 27

4 sinnum: 4 eru 16, 5 — 20, 6 — 24, 7 — 28, 8 — 32, 9 — 36

5 sinnum: 5 eru 25, 6 — 30, 7 — 35, 8 — 40, 9 — 45

6 sinnum: 6 eru 36, 7 — 42, 8 — 48, 9 — 54

7 sinnum: 7 eru 49, 8 — 56, 9 — 63

8 sinnum: 8 eru 64, 9 — 72

9 sinnum: 9 eru 81

| | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| | | | | | | | 2 | 1 |
| | | | | | | 3 | 4 | 2 |
| | | | | | 4 | 9 | 6 | 3 |
| | | | | 5 | 16 | 12 | 8 | 4 |
| | | | 6 | 25 | 20 | 15 | 10 | 5 |
| | | 7 | 36 | 30 | 24 | 18 | 12 | 6 |
| | 8 | 49 | 42 | 35 | 28 | 21 | 14 | 7 |
| 9 | 64 | 56 | 48 | 40 | 32 | 24 | 16 | 8 |
| 81 | 72 | 63 | 54 | 45 | 36 | 27 | 18 | 9 |

Efri tablan er øll ein og sú nedri og hennar útskýring. en svo er þá seinni ad skilia, ad nær sem madr vill vita hve margt se t. d. 8 sinnum 9, þá skal minni tølunnar leita (sem her er 8) ad vinstri hlid tøblunni, en hinnar stærri (sem 9.) vid hægri, og stendr

standr þá verkan þessarra talna á sameiginligum reit, það er þeim er liggr rettlínis nidr frá 8 og beint fram undan 9, og er hún 72. slíkt hid sama er um allar adrar tølur sem í standa þessi tøblu. og liggr enn hertil þessi minnisstaka:

Hiá er stærra hægri þer,
Hiá er vinstri minna.
Reitr, er ad frá bádum ber
Beint, mun verkun inna.

§. 69. Nú med því er allar stórar tølur eru samsettar af hinum einstøku tølum, þá kann madr med þessi margføldunartøblu, er numid hefir, miklu fliótarr ad finna verkun allra stærri talna enn ella med samlagníngu (siá §. 59 og 67). Nú eru tveir atburdir í margføldun allskonar stærri talna, ad annarhverr giørenda er einstøk tala edr einn merkiligr tølustafr, edr ad giørendr bádir samanstanda af fleirum merkiligum tølustøfum. og vil eg því fyrst ser í lagi umtala

## §. 70. Hversu margfallda skal nokkura stóra tølu med einum sierþýdanda tølustaf.

I. R. Rita fyrst margfalldandi tølu og þá margfalldann vid hægri hlid henni med boga í millum til adskilnadar. og

II. R. Drag þverstrik undir stærri tøluna edr margfalldandi (fyrir sømu sakir ad greint er í Samlagníngunni, §. 41. II. R.).

III R. Þá byria vid hægri hend og leid margfalldann til serhvers margfalldanda tølustafs, og rit verkanina hvert sinn nedan þverstrikid. sem her:

1. dæmi. margfalldandi 342 (2 margfalldi.
verdandi tala 684.

Seg nú eptir margfolldunar toblunni: 2 (tveim) sinnum 2 eru 4. 2 sinnum 4 eru 8. og 2 sinnum 3 eru 6.

IV. R. En verdi afleidandi tala nokkurstadar meira enn einn tølustafr (sem umgetid var §. 41. IV. R.), þá rit ad eins þann hægra undir (nema í vinstra enda telunnar, þvíad þar skal báda setia), en haf í minnum enn vinstra, medan þú margfelldr næsta telustaf framan, og legg hann þá saman med verkun þeirri er þadan afleidir. sem her:

2. D. margf. 6875 (3 margf. Mæl nú þannig-
verkan 20625 inn. 3 (Þrim) sinnum (edr þrisvar) 5 eru 15. skrifa 5, en haf 1 í minni (sem her þýdir 10). þá seg: 3 sinnum 7 eru 21 (tigr) og 1 (tigr) í hug eru 22. rita 2 undir, en geym 2 (sem jarteina 2 hundrud) í huga þer. þá mæl: 3 sinnum 8 eru 24 og 2 í hug eru 26 (hundrud). skrifa 6 undir, en haf 2 (sem her merkia 2 þúsundir) í minnum. þá seg: 3 s. 6 eru 18 og 2 í hug eru 20 (þúsundir).

V. R.

V. N. Standi o í medal margfalldandi stafa, þá rit ordalaust nedan strikid það er í minnum hefir frá hægra rúmi, ef nokkud er, en se það ekki, þá set o ordalaust undir, á þvísa leid:

3. D. $\frac{10203040506070809}{40812162024283236}$ (4.

§. 71. Adrir eru vanir at setia margfalldann, þótt einstakr se, undir þann staf í margfalldandi er næstr er hægri hendi og stendr þá svo:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 1. D. | margfalldandi | 342 | 2. D. | 6875 |
| | margfalldi | 2 | | 3 |
| | afleidandi | 684 | | 20625. |

og ferr ad vísu allvel. en med því jafnan er af brugdit slíku og á hina leidina, þegar er madr kann ad margfallda til nokkurrar hlítar, og hin fyrri adferd er meiri til drýginda bókfellinu, þá er opt skal margfallda í sífellu (sem seinna mun siást) og líkari því er menn øngan margfallda strifa hiá og geyma í hug ser, þá fyri þeßar sakir hefir eg fyrri atførina tekna framarr enni sídarri.

§. 72. J þeßum dæmum øllum voru tølurnar óvidkendar. en nú vil eg framleida nokkur dæmi vidkendra talna til æfíngar.

1. D. Hve margir hálfir eru í 86436052 heilum (t. d. fiskum)? Nú er helmíngr er áqvedinn, þá vitu allir ad hverri einíngu (edr hverium heilum fiski) er tvískipt, og helmíngarnir megu vera tvøfalldt svo margir sem enir heilu, edr ad 86436052 heilir mega

óefanliga innibinda í fer 2 helmínga 86436052 finnum. Nú er margfallda skal, og þad gilldir eins um tølurnar fer, hvart eg segi 86436052 f. 2 edr 2 f. 86436052 (hálfir, ad breyttu nafninu, sem um var getid í § 64. þvíad her eru 2 med rettu margfallldaudi) þá má fetia sem fyrr (í 1. D.) og verdr verkanin 172872104 og kenniſt vid helmínga.

2. D. Hve margar álnir eru í 386207 fødmum? Nú má enn ráda sem fyrr af kríngumſtædnnum hve gera ſkuli. þvíad þar sem 1 fadmr hefir 3 álnir í fer (§. 35, 8 Kbr. tab.), þá megu og úefanliga í 386207 fødmum inni fólgnar vera 386207 finnum 3 álnir. fyri því má og fetia sem fyrr (í 2. D.), en verkanin 1158621 færr þó kenníngarnafn af álnum sem margfalldaudin 3, er ſtærri talan má tekin vera sem kenníngarlaus.

3 D. Hve margar vikur eru í 98765 mánudum?
98765 (4 vikur (14 Kbr. T.)
úrlausn 395060 vikur.

4. D. 550354848 fiórdúngar, hve margir fiſkar?
550354848 (5 fiſkar (4 Kbr. T.).
svar 2751774240 fiſk.

5. D. Hve margar álnir eru 4' og 5 aurar?
485 (6 álnir (1 Kbr. T.).
úrlausn 2910 áln.

6. D. 347018542 vikur, hve margir dagar?
347018542 (7 dag. (14 Kbr. T.)
svar 2429129794 dag.

7. D.

7. D. Hve margir fiórdúngar eru 68794356 vættir?

68794356 (8 fiórd. (4 Kbr. T.).
úrl. 550354848 fiórdúngar.

8. D. 998877665544332211 heilir, hve margir níundu partar? 998877665544332211 (9
svar 8989898989898989899 u. v.

§. 73. Þá er annarhverr giørenda er einhver stærri eining, sem 10, 100 edr 1000 ꝛc. þá set þegar ordalaust svo mørg 0 vid hægra enda annarri telunni sem í eru annarri, og svo finnr þá rettu verkun (siá §. 25 og 65).

1. D. Í fiórdúngs ílát fara 10 pottar, hve margir fara þá í 38 slík? svar 380 pottar.

2. D. Hve mørg pd. eru 24 Centner, er í hverin eru 100 pd.? úrlausn 2400 pd.

3. D. Hversu mørg blød hafa 364000 þúsund-bladrúngar? svar 364000000 blød.

4. D. Hve margir ríkisdalir eru í 23 Gulltunnum (siá §. 30)? úrl. 2300000 rd.

§. 74. Nægi sem annarhverr giørenda er stærri einínga tala, sem 20, 30, 40 ꝛc. edr 200, 300, 400 ꝛc. edr 2000, 3000 ꝛc. þá skal fyrst margfallda med serþýdanda staf (sem greiniliga er sýnt í §. 70 og 72), og þarnæst bæta svo mørgum óum vid hægra enda verdandi tølu, sem hinum merkiliga staf fylgia. Á sømu leid skal

adfarid þótt bádum giørendum fylgi o eitt edr fleiri, margfallda þá ad eins ferþÿdandi stafi og setia óin aptan vid verkunina svo mørg sem til eru hvervetna.

1. D. Hvemørg Lpd. eru 4385 Skpd. er 20 eru í hverri? Nú má svo nidr setia 4385 (2.
(ef vill) og eigi rita o Sp. 87700 Lpd.
fyrr enn vid verkunina. Slíkt id sama er þótt annarr giørauda væri 200 edr 2000, þá vyrdi afleidandi 877000, edr 8770000.

2. D. 6845029 lestir, hve margar vættir er þad?
6845029 (30 vættir (4 Kbr. T.).
úrlausn 205350870 vætt.

3. D. 14730 vættir, hversu margir fiskar?
14830 (40 fisk. (4 Kbr. T.).
svar 589200 fisk.

4. D. Hve mørg ørk eru 27 ballar af prentpappír?
27 (5000 ørk (13 Kbr. T.).
úrlausn 135000 ørk.

5. D. Hversu margt er 600 Legiónir, er hver er 6666? 6666 L. (600
svar 3999600.

6. D. 290 sinnum 70000 lód, hve margt er þad?
290 (7....
úrl. 20300000 lód.

7. D. 24000 sinnum 8 milliónir, hve margt verdr þad? 24... (8000000
svar 192000000000.

8. D.

8. D. Hve margt er 1234567890 margf. med 90000000? 1234567890 (90000000

úrl. 111111110100000000.

§. 75. Þá er margfelldud er einhver áqvedin tala med annarri, og verkanin enn med annarri, þá verdr hin áqvedna tala svo mergum sinnum stærri, sem einíngar eru í verkun beggia þeirra talna er med var margfalldid hvad eptir annad. Slíkt id sama er þó at þetta se giørt þrísvar og þadan af optarr.

T. d. 2falldi madr 4 og 3falldi verkunina, sem er 8, edr 3falldi fyrst 4 og sídan 2falldi verdandi, sem er 12, þá eru 4 hvervetna 6falldnir og verkanin 24, þvíad af 3svar 2 edr 2svar 3 afleida 6.

Fyrir því hvart margfelldud er tala nokkur med annarri eitt sinn, edr med giørendum þeirrar tølu hvad eptir annad, þá verdr hvervetna øll ein afleidandi.

T. d. Hvart eg margfelld 4 med 6 edr med giørendum hennar 2 og 3 hverinn eptir annan, þá verdr hvartveggia 24, sem ádr.

§. 76. Nú heita samsettar tølur allar þær er af kunnu leida margfelldun tveggia edr fleiri heillra giørenda edr talna, hvart helldr þær eru einstakar edr samstædar (þ. e. samanstandandi af fleirum enn einum tølustaf).

T. d.

T. d. 24 eru samsettir af 2sinnum 12, edr 3s. 8, edr 4s. 6, edr 2⋊3⋊4, edr 2⋊2⋊6, edr 2⋊2⋊2⋊3. Og ad því leiti kallast þessar tølur 4, 6, 8, 9, 10, 12, 14, 15, 16, 18, 20, 21, 22, 24, 25, 26, 27, 28, 30, 32, 33, 34, 35, 36, 38, 39, 40, 42, 44, 45, 46, 48, 49 ꝛc. samsettar, er 4 verda af 2s. 2 ꝛc. 9 af 3⋊3, 15 af 3⋊5, 22 af 2⋊11, 26 af 2⋊13, 38 af 2⋊19, 39 af 3⋊13, 46 af 2⋊23, ꝛc.

En ímóti heita frumtølur (upphafligar edr stakar) allar þær er eigi kunnu afleida margfølldun slíkra gierenda tveggia ne fleiri, sem hvarr er einum stærri.

T. d. Þessar tølur 2, 3, 5, 7, 11, 13, 17, 19, 23, 29, 31, 37, 41, 43, 47, 51, 53, 57, ꝛc. nefnast frumtølur, fyri þeim søkum er þær leida einúngis af 2⋊1, 3⋊1, 5⋊1, 7⋊1, 11⋊1 ꝛc. og 1 margfelldr ønga tølu (§. 65).

§. 77. Hvart helldr madr leidir margfalldann í einni atrennu til margfalldandi, edr dreifir honum í jafna edr újafna parta ad siálfrædi sínu, og eptir þad leidir til margfalldandi hvern slíkan part ser, en ad sídustu leggr allar verdandi tølur saman, þá má verkanin vera øll ein hvartveggia, þvíad allir partar samteknir eru heilu iafnir, bædi í tilliti margfalldans og verkunarinnar (§. 15).

T. d. Hvart eg margfelld 15 med 6 einu sinni, edr dreisir eg 6 í sjálfrádliga parta, sem 3 + 3, edr 5 + 1 edr 4 + 2, edr 3 + 2 + 1 edr 2 + 2 + 2 edr enn á adra lund, og margfelld sídan 15 med hverum þeßa parta serilagi, og samlegg þá verkanir allar, sem 3falldt med 3folldu, 5falldt med 1folldu, 4f. med 2f., 3f. med 2f. og 1f; edr 2f. med 2f. og 2f. til, þá fæ eg þó iafnan 6falldna 15, þ. e. ad segia 90.

§. 78. Verkanir þær sem af koma leidslu þeßháttar parta margfalldans heita serligar verkanir. en Alverkan edr høfudverkan er sú er verdr af serligum verkunum samanløgnum.

§. 79. Hvernig margfallda skal einhveria tiltekna tølu med annarri, þá er í bádum er fleiri enn einn serþýdandi tølustafr.

I. R. Rit margfalldandi fyrst, þá margfalldann ad hægri lid (sem áskilid var í §. 70). og

II. R. Drag þverstrik nedan margfalldandi (ad tølur þær, er sídan skal samanleggia, blandist eigi med henni).

III. R. Sídan leid fyrst þann telustaf margfalldans, er næstr er hægri hendi, til serhvers margfalldanda stafs, og skrifa verkunina undir strikid á þann hátt sem ser í §. 70 (eptir III. og IV. reglu). Þarnæst leid annan staf margfalldans (frá hægri hendi) til allra margfalld-

andi

dandi ſtafa, og byria ad rita verkunina rúmi framarr enn fyrr, þ. e. undir tuga telu fyrſtu verkunar (þvíad annarr ſtafr margfalldans er tuga tala). þá leid hinn þridia á ſømu lund og ſvo hvern ad ødrum, og rit jafnan hveria ſerliga verkun undir rúmi framarr enn næſt ad ofan, ſvo ad ſeinaſti ſtafr í hverri verkan hafi ſama rúm þar, ſem hefir ſiá ſtafr í margfallda er hún af leiddi.

IV. R. Þá drag enn ſtrik nedan þær ſerligu verkanir (til þeß er um er ſkilid í §. 41. II. R.). og

V. R. Legg þær ſídan allar ſaman ad rettum Samlagníngar málum (§. 41).

Nú ſkal margfállda t. d. 875464 med 36. þá leid fyrſt 6 og rit verkunina ſem í §. 70 er audſýnt, þá 8 og ſkrifa rúmi framarr, þvíad 3 er tugatala, en 6 einínga. Item 46578 med 345. og leid her fyrſt 5, þarnæſt 4, og rit hveria verkun ſem nú ſagda eg. þá 3 og ſet verkunina rúmi framarr en þá næſtu af 4, þvíad 4 eru tugatala, en 3 hundradatala. og ſtendr þá hvartveggia þannig:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 1ſta dæmi. | 875464 (36. | | 2. D. | 46578 (345 |
| 1. ſerlig verkan | 5252784 | | 1. ſ. v. | 232890 |
| 2. ſerlig V. | 2626392 | | 2. ſ. v. | 186312 |
| alverkan | 31516704. | | 3. ſ. v. | 139734 |
| | | | alv. | 16069410. |

§. 80.

§. 80. Nú veit hve mæla skal eptir §. 70. og margfølldunar tøblunni (§. 68). en vili madr gløggvarr siá efni slíkrar framfærslu i ritníngu vørkananna, þá vil eg margfallda 46578 serílagi med 5, þá med 40, þá med 300, sem til er máttr talnanna, á þvísa lund:

$$\frac{46578}{232890}(5 \quad \frac{46578}{1863120}(40 \quad \frac{46578}{13973400}(300$$

nú er þeßar verkanir skal samanleggia, þá stendr svo ad rettum málum (§. 41).

232890 (þad er 5falldnir 46578)
1863120 (— — 40f. — — )
13973400 (— — 300f. — — )
16069410 (— — 345f. — — ).

§. 81. Ella giøra þad flestir ad setia margfalldann undir hægra enda margfalldandi, sem 36 undir 64 í fyrra dæminu (§. 79.), en 345 undir 578 í hinu seinna: fyrir því er þeim þikir sem þá standi greiniligar, og betr muni þeir med hverium staf er verid ad margfallda, og hvernig undir skyli rita í umferd hverri. En med því fyrir eitt kemr hvargi verkanin er skrifud (þvíad eg hefir alldregi tilskilid ad hana skuli setia rettlínis undir, en þó svo giørt ad annarra vanda einum.) þá er framfærslu tiga og hundrada ꝛc. er skynsámliga geymt. og áleingr fyrir sømu søkum er tíndag í §. 71, þá hefir eg hitt af tekid helldr ad rita margfalldann ad hægri lid margfalldandi. og kann hverr øngu minnr ad þeßum kosti enn ella ad muna þann staf er medferr í hverri umferd, og allt eins framfærslu verkananna. En se nokkurr sva minni stolinn

stolinn ad slíku tóni úr hug ser, þá kannkad eg þeim annad rád enn draga út í hverri umferd þann staf í margfalldanum er þad sinn er leiddr, sem og margir gera þótt fari ad hinn rádi. en um uudirritníngu verkana, þá seti púnkt þegar undir tølustaf þann er fyrstr er ritinn vid hægri hønd í hverri verkun, og iarteini púnktr sá ad í því rúmi megi engan staf skrifa, helldr næsta fyrir. tvo má og setia ef vill í þridiu umferd, annan undir fyrsta púnkt í einúnga rúmi, en annan í tigarúmi, þriá í fiórdu umferd, og þá einum fleiri í hverri þadan af, ef svo er vidvaxid um rúma fiollda margfalldans, ad því er siá mun litlu sídarr.

§. 82. Þad má af §. 80 ráda, ad fyrir eitt komi med hverium tølustaf sem byriad er ad margfallda, og hverngi veg sem þær serligu verkanir se ritnar undir ef geymt er ad eins rúmafærslunnar. þvíad hvart in fyrsta verkan stendr í midiu edr nevst, edr hin ønnur efst edr nedst, edr hin þridia efst edr í midiu, þá má alverkanin hvarvetna verda øll ein, er samar ero tolurnar. Nú verda slíkir atburdir margir er tølur skal telia, ad bregda má til skyndíngar af almennum reglum, og þó ná rettu máli. en til þeßa liggia þá serligar reglur. Fyrir því vil eg þeß í fyrstu vidgeta, ad

§. 83. Hvargi sem 1 stendr eitt sinn edr optarr í margfalldanum (edr gioranda þeim er madr vera lætr margfallda, þótt hinsvegar se) ásamt einum edr fleirum merkiligum staf t. d. 11, 13, 31, &c. 112, 211 &c. 123, 321 &c. 151, 515 &c. 1416, 6141 &c. þá kann madr

ad

að spara strikdráttinn og leiðslu einingarinnar og undirsetníngu einnar verkanar. Hafi því I) siálfa margfalldandi fyrir þá 1sølldu verkun, er hún er ell hin sama (§. 65). og II) margfalldi þessa tølu með serþýðanda staf hverium ødrum er í stendr margfalldanum, og seti verkunina undir margfalldandi með aðgætni rettar rúmafærslu (§. 79). III) dragi þá strik neðan tølurnar og leggi þær allar saman er yfir því standa.

1. D. margfalld 26748219 með 11, og set svo:

26748219.
―――――――
294230409

2. D. 58973 með 31. Item 58973. með 13.

| | |
|---|---|
| 176919. | 176919 |
| 1828163 | 766649 |

3. D. 6567 m. 211. It. 6567.. m. 112.

| | |
|---|---|
| 6567. | 6567. |
| 13134.. | 13134 |
| 1385637 | 735504 |

4. D. 7875 m. 321. It. 7875.. m. 123.

| | |
|---|---|
| 15750. | 15750. |
| 23625.. | 23625 |
| 2527875 | 968625 |

5. D. 2345 m. 151. It. 2345. m. 515.

| | |
|---|---|
| 2345.. | 11725 |
| 11725. | 11725.. |
| 354095 | 1207675 |



6. D.

| | |
|---|---|
| 6. D. 3425 m. 6141. | Jt. 3425 . m. 1416. |
| 3425 . . | 3425 . . . |
| 13700 . | 20550 |
| 20550 . . . | 13700 . . |
| 21032925 | 4849800 (ſ. §. 82). |

§. 84. Þad má af ráda 1ſta dæminu, ad hvar ſem margfallda ſkal med 11, þarf eigi annad enn þegar draga ſtrik undir ad ritinni margfalldandi (án þeß ad ſkrifa toluna odru ſinni), taka þá hvern ſtaf tviſvar og leggia ſaman, og undir eins rita ſummuna nedan. ſvo ad þá er eg vill margfallda 26748219 (ſem ádr) med 11, þá rít eg fyrſt ordalauſt 9 undir ſtrikid, og qved ſídan ad ordi: 9 og 1 eru 10. ſet 0 undir, en legg 1 í minni. þá 1 og 2 e. 3 og 1 í hug e. 4. þá 2 og 8 e. 10, og geri ſem fyrr. þá 8 og 4 e. 12 og 1 í hug e. 13. þá 4 og 7 e. 11 og 1 í hug e. 12. þá 7 og 6 e. 13 og 1 í h. e. 14. þá 6 og 2 e. 8 og 1 í h. er 9. þá rít eg ad ſídurſtu 2, er engi er meirr í minni, og ſtendr þá ſvo:

26748219 (11
294230409

| | | |
|---|---|---|
| Jt. 6567 (211 | Jt. 6567 (112 | Jt. 2378 (3114 |
| 72237 | 72237 . | 9512 |
| 13134 . . | 13134 | 26158 . |
| 1385637 | 735504 | 7134 . . . |
| | | 7405092 |

Merk 1) Þá er margfalldinn er tveir ſomu ſtafir adrir ſem 22 til 99 ſamt, og búid er ad leida hinn fyrſta, þá má finna hofudverkunina med ſomu atferd ſem nú hafda eg um 11, án endrritníngu fyrſtu verkanar.

T. d.

```
T. d.  534 (22.   534 (44.   534 (66.   534 (99.
      1068       2136       3204       4806
      ----       ----       ----       ----
     11748      23496      35244      52866.
```

2) Þá er margfallda skal med 11, t. d. 3245, má og segia svo: 5s. 11 e. 55. þá 4s. 11 e. 44, og 5 t. e. 49. þá 2s. 11 e. 22, og 4 t. e. 26. þá 3s. 11 e. 33, og 2 t. e. 35, og er þá verkanin 35695. og svo um annad.

§. 85. Hvargi sem eitt edr fleiri o standa í margfallda (edr gioranda þeim er fyrir hann verdr hafdr) ímillum serþýdandi stafa, þá hlaupi madr yfir þau og margfalldi ad eins med inum merkiligum stefum, og seti púnkt vid hveria framfærslu er af mundi koma leidsu ósins, sem her:

```
1. D.  65432. m. 102.  It.  65432 m. 201.
       130864               130864.
       -------              --------
       6674064              13151832

2. D.  42356. m. 2103. It.  42356. m. 3012.
       127068                  84712
       84712.               127068.
       --------             ---------
       89074668             127576272

3. D.  48 m. 101.   Item   758 m. 1001.
       48.                 758..
       ----                ------
       4848                758758

4. D.  2438 m. 607.   5. D.  34072 m. 2006.
       17066                 204432
      14628.                68144..
      -------               --------
      1479866               68348432
```

6. D. 730024 med 40003.
2190072
2920096...
29203150072

7. D. 2357 med 403008.
18856
7071..
9428.
949889856.

8. D. 24 m. 404. It. 35 m. 600402.
9696 21014070

Item 66 med 300003.
19800198

Merk. í slíkum dæmum sparir madr med þessi atsør ad minsta kosti eina umferd, en ella 2 og 3 og 4 edr fleiri eptir fiolld óa og einínga. og samstadar þarf eigi annad enn ordalanst rita margfalldandi tveim edr þrim sinnum sem á ser í 3dia dæminn, og á somu leid verfunina, sem nú gerdag í enn 8da dæmi.

§. 86. Þá er í hægra enda giorenda annarshvers edr beggia stendr eitt o edr hve mørg sem eru, þá far med því sem skilid var í §. 74, á þessa lund:

1. D. 5703 (3400.
22812
17109
19390200.

2. D. 5703000 (34.
22812
17109
193902000.

3. D. 5703000 (340000.
22812
17109
1939020000000.

§. 87.

§. 87. Þá er giörandi hinn minni er samsett tala (§. 76), kemr þad opt í hag ad skipta honum í ýmisliga hluti, og verdr þad med tvennu móti veitt, annadhvart í margfalldna parta (sem er allt eitt og giörendr, §. 75) edr samlagna (er ødru nafni heita siálfrádligir, §. 77). Hin fyrri adferd kallast Margfølldunardreifíng, en hin seinni Samlagníngardreifíng.

§. 88. Med margfelldunardreifíngu sparir samlagníngu verkana, þvíad verkan ens fyrsta giøranda verdr margfalldin med ødrum, og sú er þar af leidir med hinum þridia, og s. fr. svo ad hin sídarsta er jafnan høfudverkan (§. 75). sem her:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| T. d. | 327 med 56 | edr svo: | 327 med 56 | |
| | 2289 | 7 | 2616 | 8 |
| | | 8 | | 7 |
| | 18312 | | 18312 | |

Þetta er svo ad skilia ad 56 eru fyrir margfølldun samsettir af 7 og 8, og má því hvart er vill margfallda fyrst med 7 og sídan id 7falldna med 8, edr fyrst med 8 og þá hid 8falldna med 7, og verdr verkanin øll ein sem 56falldid væri.

| 2. D. | | 3. D. | | 4 D. | |
|---|---|---|---|---|---|
| 362 med 48. | | 283 m. 63. | | 425 m. 72. | |
| 2172 | 6 | 1981 | 7 | 3400 | 8 |
| | 8 | | 9 | | 9 |
| 17376 | | 17829 | | 30600 | |

Merk. Þessa atferd má og vidhafa þótt margfalldinn se vordinn af giørendum þeim er samanstanda

af fleirum enn einum tølustaf, edr fleirum einstøkum giørendum enn tveimr, sem ef han væri t. d. 528 er samsett er af 22 sinnum 24, edr 245 er samsett er af 5 sinn 7 s. 7. en med því seint og ógiørla vita kann án fyrigerrar tiltøln, af hverium giørendum slíkar stórar tølur se vorduar, þá er þeßi dreifíngarháttr allz øngu haggvæmri er þær egu í blut, enn hinn er alment gengr (§. 79). Fyrir því neytir madr þeßar dreifíngar hellst vid þá er vid tølur þær er um ad eiga, sem hverr má vita giørendr þeirra eptir Pýthagors tøblunni (§. 68), og þær id sama er í eru tveir sømu stafir, sem 22, 33, 44, 55 rc. þvíad af þeim er audrádit, ad þær se samansettar af 11sinnum 2, 3, 4, 5 rc. En þó má her fráqvedia þær sem um er getid í §. 83, frá 12 til 19 samt, þvíad á þann hátt gengr margfalldanin mun greidarr þá er vid heilar edr samkendar tølur er ad skipta, en ímóti gengr hún fliótarr í brotnum og blendnum edr margnefndum tølum, ef dreist er í margfalldna parta. Ella þótt tølunum fylgi 0, sem 560 edr 7200, þá er þad til engis baga, þvíad eins verdr skipt sem ádr (í 7 og 8, og 8 og 9) og óin ad lyktum vidritin høfudverkunina, sem í §. 89.

§. 89. Samlagníngardreifíng er svo miøg ýmislig ad eigi má ræda um serhveria grein hennar á þeßum stad. en þó vil eg drepa á fáeina þá atburdi er hana má vidhafa med nytsemi, einkum ef margskonar tølur edr blandnar eru í margfalldandi. og

Er þá hinn Isti atburdr sá er margfallda skal t. d. med 23, 26 edr 29, rc. er dreifa má

þeim í 10 og 13, 16 og 19 ꝛc. og fara med ellu sem kennt er í §. 77 og 83. á þvísa leid:

| T. d. 284 . m. 23. | | It. 284 . m. 26. | | It. 284 . m. 29. | |
|---|---|---|---|---|---|
| 852 | 13 | 284. | 10 | 284. | 10 |
| 284. | 10 | 1704 | 16 | 2556 | 19 |
| 6532. | | 7384. | | 8236. | |

Unarr atburdr er þad er tølunum er svo vidvárid, ad þeim dreifa má í slíka samlagna parta, sem hinn fyrsti er nokkurum sinnum inni-falinn í ødrum og annarr í enum þridia ꝛc., þ. e. ad segia ad hinn fyrsti er giørandi annars partsins, er vera má einhver þeirra talna sem finna kann í Pythagors toblunni, edr sú er af 2 femu stefum er samsett. og id sama er um enn þridia part í tilliti merkiligra stafa. Nú er giørendr eru fundnir, þá skal margfallda verk-un ens fyrsta parts med giøranda annars, og verk-un annars partar med giøranda ens þridia, og skrifa verkanir allar hveria nidr frá annarri án rúmafærslu, og sídan leggia þær allar saman, og er þá summan alverkan. sem her:

| | | |
|---|---|---|
| 1. D. | 4325 med 276 | |
| | 25950 (6 | 6 |
| | 129750 (5 | 30 |
| | 1038000 (8 | 240 |
| | 1193700. | |

Þetta er svo ad skilia, ad 6 er fólgid í 30 fim-sinnum, og því verdr verk-anin af 6 fimfalldin 30-følld. en 3 er giørandi 24ra og annarr 8, edr 30 eru innibundnir í 240 átta

finnum, og því verdr verkanin af 5 × 6 áttfalldin jafnstór sem 4325 væri 240falldnir.

2. D. 2374 med 65.
11870 (5 | 5
23740 (2 | 10
118700 (5 | 50
154310.

3. D. 327 med 369.
2943 (9 | 9
29430 (10 | 90
88290 (3 | 270
120663.

4. D. 3423 med 204.
13692 (4 | 4
68460 (5 | 20
616140 (9 | 180
698292

5. D. 3242 med 485.
16210 (5 | 5
129680 (8 | 40
1426480 (11 | 440
1572370

Þá er vid einskonar tølur er ad skipta, veitir þessi atferd engu fliótarr enn hin algenga (§. 79), en því mátta eg þessa vidgeta her, ad aungum á úvart komi sídarr ef vid verdr haft.

Illdi atburdr er sá er svo er vidvarid um tølurnar, ad giøra má 3 stafi ad 2 þ. e. ad s. þá er fyrsti stafr margfallda er giørandi beggia seinni stafa, edr hinn seinasti beggia fyrstu. þá skal margfallda verkun þessa stafs med ødrum giøranda hinna stafanna, og skrifa þá verkun med rettri rúmafærslu hundrada og tiga (eptir §. 79); og sídan leggia bádar saman. sem her:

1. D. 386 med 432.
1544.. (4 | 400
12352 (8 | 32
166752.

It. 23453 med 856.
187624.. (8 | 800
1313368 (7 | 56
20075768.

2. D.

2. D. 327 med 369. It. 537 med 328.

```
  2943 (9 |  9          4296 (8 |  8
 11772 (4 | 360        17184 (4 | 320
 120663.               176136.
```

Merk. Þeßum atferdum má svo margvísliga vidkoma er her verdr eigi frá serhveriu greint. en þad eina vil eg þó tilleida, er 1 er umfram nokkurn þvílikan part í rúmi nokkuru, og má þá allt eins margfallda med giørendum sem fyrr, en hafa siálfa margfalldandi fyrir þá einfolldu verkun, og skal hún standa í sama rúmi sem einíng sú er yfir er, og skal hana samanleggia med ødrum verkunum. á þvísa lund:

```
1. D.  2374 med 65.      2. D.  3589 . med 577.
   18992 (8  |  8                25123 (7 |  7
  132944 (7  | 56+1             200984 . (8 | 560+10.
  154310.                      2070853.

3. D.                       4. D.
  24783 . . med 1277.          3243 . . . med 12034.
 272613 . . (11 | 1100            3243 (11  | 11000
  1908291 (7    |   77         35673 . . . (3 |   33+1
 31647891.                      107019
                               39026262.
```

§. 90. Enn ýmislig dæmi til æfíngar.

a) eptir §. 79.

1. D. 2634 Rd. hve margir ß.? svar 252864 ß.

2. D. 5748 ár, hve margir dagar (ad undanskilnum hlaupársdøgum)? úrl. 2098020 d. (§. 35. 14 Kbr. T.).

3. D. Túnvøllr nokkur þýfdr er 14 dagsláttur, og telzt svo til ad 45 þúfur se á hvern veg í dag-

sláttu hverri. hve margar eru þá í ollu túninu? þetta set þannig:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 45 (45 | | 45.(14 | | 45 (45 |
| 225 | edr | 180 | edr | 225 5 |
| 180 | svo: | 630 (45 | enn | 9 |
| 2025.(14 | | 315 | svo: | 2025.(14. |
| 8100 | | 252 | | 8100 |
| svar 28350 þúf. | | 28350. | | 28350. |

4. D. J slagi ro hnansar stúngnir 346 ad endlaungu, en 684 í breidd. hve margir eru þá hnausarnir allz? úrlausn 226664.

b) eptir §. 83.

5. D. 436 megn heita lestir, fadmar, skillíngar, ár edr dægur. Nú verdr spurt hve margar tunnur, qvartil, Q. mánadir eda stundir þad se?

$$\begin{array}{r} 436.(12 \\ \underline{872} \\ 5232. \end{array}$$ (§. 35, VIII, 8, 3 og 14 Kbr. T.).

úrlausn 5232.

6. D. 284 heiti lagartunnur edr stundafiórdúngar; hve margir kútar edr minútur er þad?

$$\begin{array}{r} 284.(15 \\ \underline{1420} \\ 4260. \end{array}$$ (10 og 14 Kbr. T. s. §.).

úrlausn 4260.

7. D. 846 heiti mørk í Cour. Lpd. edr merkur vegnar. hve margir ß. edr pd. edr lód er þad?

$$\begin{array}{r} 846.(16 \\ \underline{5076} \\ 13536. \end{array}$$ (3, 5 og 6 Kbr. T.).

úrlausn 13536.

8. D. 578 mørk í Crón. hve margir ß.? svar 9826 ß. (3 Kbr. T.).

9. D. 359 veri mk. í Spec. lestir, edr korntunnur. Hve margir ß. tunnur edr kútar eru þá í nefndri tolu?

359. (18 (3 og 11 Kbr. T. it. VIII).
2872
úrlausn 6462.

10. D. 685 nýjar speciur, hve margir ß.? er í hverri eru 118 ß.

685. (118 edr svo: 685 (118
685. (eptir 7535.
5480 §. 84). 5480
úrlausn 80830 80830.

c) eptir §. 85.

11. D. 685 Rd. í Crónum. Hve margir ß. er það? svar 69870 ß. (3 Kbr. T.).

12. D. 685 gaml. speciur, hve margir ß.? úrlausn 73980 ß. (3 Kbr. T.).

13. D. 666 lagart. edr stórhundrud. Hve margir pottar edr álnar er það?

666. (120 (10 og 1 Kbr. T.).
1332
úrlausn 79920.

14. D. 20100401 pd. Hve mørg er það lód?

32 (20100401.
svar 643212832 lód (5 og 6 Kbr. T.).

d) eptir §. 86 og 87.

15. D. Hve margir dagar eru í 1700 árum?

365 dagar (1700
2555
úrlausn 620500 dagar.

16. D.

16. D. 5849 Skpd. hverſu mørg pd.?

5849 (320 (5 Skr. T.).
23396 4
úrlauſn 1871680 pd. 8

17. D. Hve margar ſecúndur eru í 8766 ſtundum?

8766 (3600 (14 Skr. T.).
52596 6
úrlauſn 31557600 6

18. D. 484 Rd. hve margir er það ſkildíngar?

484 (6 P.
2904.(16
17424
úrl. 46464 ß.

edr ſvo 484 (96
1936 4
7744 6
46464

edr ſvo 484 (96
2904 6
23232 8
46464 2

19. D. Hve margir kútar eru í 546 ſalttunnum?

546 (22
6006 11
úrl. 12012 k. 2

edr ſvo: (eptir §. 89).

546 (22
6006 11
12012. 11+

20. D. Hve margt er 1234567890, 6666 ſinnum?

740740734 6
ſvar 8229629554740. 1111

§. 91. Fyri ſømu ſakar ſem í Additióninni (§. 44.) byria menn iafnan að margfallda á ſtaf þeim í margfalldandi tølu er næſtr er hægri hendi. þ. e. að ſegia til þeß að hvargi ſem ſtærri einingar verda af ſmærrum, edr einínga verkun edr tuga edr hundrada ɛc. vex í tígi upp, þá kunni þetta verda lagt þegar til verkunar næſta ſtafs að framan. þvíað ef byriað væri

væri ad vinstra enda margfalldandi, þá mætti rita verkun af hverium staf í margfalldandi ser, og sídan leggia saman, eins þó at margfalldinn væri einstakr sem ella.

§. 92. Af somu rokum leidir og þad, ef margfalldandi fylgdu partar einfalldra einínga edr broti, þá mætti og á þeim portum byria ad margfallda, svo ad þad er jafnadist vid heila einíngu, vyrdi lagid til einínga verkunar.

§. 93. Slíkt id sama sem umgetid var í Samlagníngunni (§. 45), er í margfolldun adgætanda, ef 1 í fremra rúmi skylldi þýda fleiri edr færri enn tíu einíngar í eptra, þá mætti þad allt í setia verkun minni einínga, sem ekki jafnadist vid slíka stærri, og id sama er þá um samlagníngu verkana.

§. 94. Þær tuga einíngar, sem leggia skal til nærsta rúms ad framan, eru margir vanir ad skrifa nokkur hiá ser til minnis, og kenna svo odrum hid sama, en eg ætla þad úngaunginn þarfligt og enn sídr nauðsynligt, nema þeim er illa er gefid minni, og ræd eg því vidvaníngum er eigi leggi þeir slíkt i vanda sinn, þvíad þad er til tafar einnar þá er flýta skal tolunum.

§. 95. Med því er bædi samlagníngar og margfolldunar adferdin byriar jafnan frá hægri hendi (§. 44 og 91), þá er og audvellt, í þeim atburdum er lagin skal vera til verkunar einhverra talna vannr áqvedin, ád margfallda og leggia saman í einu. t. d. ef giora skyli 24 rd. og 5 mk. ad morkum einum, edr

34 Lpd. og 15 pd. ad pundum einum, þá mætti þegar ad margfolldnum 4 til verkunarinnar leggia þau 5 mk. edr 5 pd. ꝛc.

Nú er fremia vill margfelldun og samlagníng undir eins, þá taki þegar, ad margføldnum hverium staf margfalldandi tølu vid sig, þann samleggianda staf er í stendr sama rúmi sem hinn frá hægri hendi, og leggi vid verkunina, en standi o í ødrumhvarum giøranda, þá riti þegar í øndverdu svo marga samleggiandi stafi undir sem þau eru, og sídan fari sem ádr, og þá er hvartveggia veitt.

1. D. ad 7fallda 6567 og bæta 345 undir eins 46314. vid verkunina. þá taki svo til orda: 7 s. 7 eru 49, og 5 til c. 54. rit 4 en legg 5 í minni. þá svo: 6 s. 7 c. 42 og 5 í hug eru 47, og 4 t. c. 51. þá 5 s. 7 c. 35, og 5 í hug c. 40, og 3 t. c. 43, þá 6 s. 7 c. 42, og 4 í hug c. 46.

2. D. giør 247 lestir og 25 vættir ad vættum einum. (30 verda 7435 vættir.

3. D. giør 27 balla prentpappírs og 578 ørk ad ørkum einum. 27 (5000 v. 135578 ørk.

4. D. 485 Centner og 99 pund, hve mørg eru þad pund? úrl. 48599 pd.

Þá

Þá er í margfalldanum er fleiri merkiligir stafir enn einn, má og á sömu leid ad fara og leggia slíkar tølur til fyrstu verkanar. en med því ella skal saman-leggia þær serlign verkanir, þá kann hægra vera nokkurn ad bæta hinum tølunum vid undir eins, án þeß ad rita þær annad sinn. sem:

5. D. 365 Skpd. og 285 pd. hve mørg er þad pd.?

```
   365 (320.   edr    365 (320.
   730               1460  ⁀4
  1095              117085 pd. 8‿
Sv. 117085 pd.
```

6. D. 948sinnum 38749, ásamt 5346. hve margt er þad? úrlausn 36739398.

7. D. 751008sinnum 411567, ásamt 235879, hvemargt? úrlausn 309090345415.

§. 96. Auk þeßa verda þeir atburdir, sem eigi er tilskilid samlagníng tølu med verkun annarra, og þó má med nytsemi vidkoma slíkri atfør sem nú hefir eg sýnt (§. 95). þ. e. ad s. þá er margfalldinn er einum fleiri enn nokkur þeirra samsettra talna sem í standa Pýthagors toblunni, t. d. 37, 43, 46, 57, 73 ꝛc. edr þær id sama, er í ern tveir stafir einir (sem um-getid var í §. 88) sem 34, 67, 78 ꝛc. þá má dreifa þeim í margfalldna parta med 1 umfram, sem 37 í 6sinnum 6 + 1 edr 4s. 9 + 1 ꝛc. og 34 í 11s. 3 + 1 ꝛc. og hafa siálfa margfalldandi fyri þá 1folldu verkun, og leggia hana í einn saman vid giøranda verkun þeß er seinast (en eigi fyrst) er leiddr. sem her:

1. D.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| 1. D. 234 med 37. | | It. 342 m. 43. | | It. 423 m. 46. | |
| 1404 | 6 / 6+1 | 2052 | 6 / 7+1 | 2115 | 5 / 9+1 |
| 8658. | | 14706. | | 19458. | |

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| It. 635 m. 57. | | It. 536 m. 73. | | It. 356 m. 82. | |
| 4445 | 7 / 8+1 | 4288 | 8 / 9+1 | 3204 | 9 / 9+1 |
| 36195. | | 39128. | | 29192. | |

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| 2. D. 486 m. 34. | | It. 864 m. 67. | | It. 468 m. 78. | |
| 5346 | 11 / 3+1 | 9504 | 11 / 6+1 | 5148 | 11 / 7+1 |
| 16524. | | 57888. | | 36505. | |

Merk: se 2 edr fleiri umfram, þá veitir þeßi atferd sialldan fliótarr vid heilar tølur, enn hin er algeng er (§. 79), þvíad svo má fyrst rita verkanir allar, þá leida munarsiafinn til margfalldandi, og med þeirri verkun samleggia verkun ins seinasta giøranda. sem hèr:

| | | | |
|---|---|---|---|
| 96 med 68. | | It. 96 med 75. | |
| 1056 | 11 / 6+2 | 768 | 8 / 9+3 |
| 6336 | | 6912 | |
| 6528. | | 7200. | |

§. 97. Framvegis er margfalldan og samlagníng eru sva líkar (§. 95) og þær serlign verkanir skal samanleggia eptir ad búid er ad margfallda, þá kunnu þær og samlagnar verda undir eins og margfalldad er.

Þá er frammi skal hafa margfelldun og samlagníngu serligra verkana í einu, þá leidi madr fyrst enn sídarsta tøluſtaf margfalldans ad venin og skrifi þá fyrstu verkun sem í §. 79.

1. D.

1. D., þarnæst annan, og leggi vid þá verkun, er af leidir serhverium staf í margfalldandi, þann telustaf fyrstu verkanar er þar yfir stendr sem undir skyldi rita í annarri, og dragi hann þegar út, ef eigi er allr einn, og skrifi þá summuna ad rettu máli á sama stad hveriu sinni sem ella átti verkunina. Þá leidi hinn þridia og giøri á sømu lund. þá hinn fiórda, ef er, og fari enn sem fyrr. og med þeßu móti verdr høfudverkan allir þeir nedstu stafir er eigi er yfir dregid.

1. D. 2345 med 248. Nú leid fyrst 8 ad vanda og rit fullt undir. þá leid 4 og qved svo ad ordi: 4 s. 5 eru 20, og
18760
2125
581

6 til (er standa í tiga rúmi) e. 26. lát nú 6 standa óútdregna (þvíad þeir verda í alverkun), en geym 2 í minnum. þá mæl: 4 s. 4 e. 16, og 2 af hug e. 18, og 7 til (er í standa 1stu verkun) e. 25. drag út 7 og rit 5. en legg 2 í huga. þá seg: 3 s. 4 e. 12 og 2 í hug e. 14, og 8 til (í fyrstu verkun) e. 22. drag 8 út, og rit hægri 2, en geym vinstri 2 í minni. þá seg: 2 s. 4 e. 8, og 2 í hug e. 10 og 1 til (í 1stu verkun) e. 11. drag þann út og rit allt. þá mæl: 2 s. 5 e. 10. og 5 til (í annarri verkun) e. 15. lát nú 5 standa óútdregna, en haf 1 í minnum. þá 2 s. 4 e. 8 og 1 í minni e. 9, og 2 til (í anarri verkun) e. 11. rít 1 og drag út 2, en legg 1 í minni. þá 2 s. 3 e. 6 og 1 í hug e. 7, og 1 til

(frá 2ri verkun) e. 8. rit þá, en drag 1 út ofan. þá 2 s. 2 e. 4, og 1 til (af 2ri røð) e. 5. set þá, en drag 1 út, og hefir svo alverkun 581560.

2. D. 3275 med 894. 3. D. 43756 m. 9284.

| | |
|---|---|
| 13100 | 175024 |
| 30785 | 70 50 |
| 292 | 124267 |
| (alverkan 2927850) | 406230 (alverkan 406230704). |

§. 98. Nú er madr hefir framid sig vel í þeßi íþrótt, þá snúi nú aptr fram til móts vid dæmi þau er til eru leidd í §. 83, 84, 85 og 90. og reyni þá hversu flýta megi margfølldun slíkra talna er hvartveggia er framid í einu. og vil eg því her setia nokkur þvílík dæmi til audsýníngar þeßu máli.

1. D. 58973 med 31. It. 58973. m. 13.
1182816. 766649

2. D. 6567 m. 211. It. 6567 m. 112.
72237 72237.
13856.. 735504

3. D. 94354 m. 10001. It. 34072 m. 2006.
94363... 284432
68348...

4. D. 234 rd. í Cr. hve margir ß.? úrlausn 23868 ß. | 234.. (102 ß.
868

5. D. 342 Sp., hversu m. ß.? úrlausn 36936 ß. | 342.. (108 ß.
6936

6. D.

6. D. 487 L. tunnur, hve margir | 487. (120 p. pottar? úrlausn 58440 p.

7. D. 1800 ár, hve margir | 365. (1800 d. dagar? úrlausn 657000 dag.

8. D. 1900 Skpd., hversu | 320 . (1900. merg pd.? úrlausn 608000 pd.

§. 99. Enn er þad fyrir sokum skylldleiks Margfolldunar og Frádragníngar, þeß er bádar þær byria frá hægri hendi (§. 53 og 91), ef svo berr til ad toln einhveria skal nokkrum sinnum draga frá annarri (þ. e. fyrst margfallda og sídan taka verkunina frá einhverri áqvedinni toln, sem 2sinnum 96 frá 200.), þá má lítid verda fyrir ad fremia hvartveggia med einverknadi.

Þá er veita skal margfolldun og frádragníng í einu, þá I) drag þegar ad margfolldnum hverium staf ser verkan hans frá mínkandi, fyrst eínínga verkun frá eínínga telu, þá tiga verkun frá tigum rc. og rit hveriu sinni eptirstodina undir mínkandi. II) ef verkanin á einhverium stad verdr stærri enn mínkandi stafr, þá tak ad láni hiá fremra staf mínkandi svo margar tuga eíníngar sem þorf hefir, og tel þann staf er ad honum kemr fyri svo mergum færra sem af eru numnir (§. 56 og 58 vid endann). sem her:

T. d. 806973 (2falldid frá 3590467 Tak nú til orðs verda 1976521. á þvísa leid:
2 s. 3 e. 6, frá 7 verdr 1. þá 2 s. 7 e. 14, frá 16

v. 2. þá 2 s. 9 e. 18, frá 23 (þvíad 1 tók eg fyri fram hiá 4, en 2 tigi nú aptr hiá 0, og verdr þad því ad 8 og 9 eins) v. 5. þá 2 s. 6 er 12, frá 18 (og nú nem eg enn 1 frá 9 og verda þar ad eins 7) v. 6. þá 2 s. 0 er 0, frá 7 v. 7. þá 2 s. 8 e. 16, frá 25 v. 9. og 1 (edr 16 frá 35 v. 19).

Merk. Þeßi atferd þikir sumum tornumin og vandasöm, einkum ef vid mørg 0 er ad skipta í minkandi (sem eigi má níta med øllu), og fyri því láta þeir stafþann, er af til láns nema, þóda eins mikid sem ádr, en leggia svo margar einingar til næstu verkunar sem þeir tuga tóku hiá honum. og ferr þetta allvel. Setia og mdr á þeßa lund og mæla svo:

2sinnum 806973 frá 3590467 | 2s. 3 e. 6, frá 7, v. 1976521 | v. 1. þá 2s. 7 e. 14, frá 16 v. 2. þá 2s. 9 e. 18 og 1 til (er ad láni var tekinn af 4) e. 19, frá 24 v. 5. þá 2s. 6 e. 12, og 2 (til (er unnnir voru frá 0) e. 14, frá 20 v. 6. þá 2s. 0 er 0, og 2 t. (er hafdir voru frá 9) e. 2, frá 9 v. 7. þá 2s. 8 e. 16, frá 25 v. 9. þá 2 frá 3 v. 1.

§. 100. Í þeßi íþrótt skylldi hverr fremia sig vel, þvíad hún er miøg nytsamlig ad kunna í mørgum atburdum, hveriga atferd sem hefir, einkum og allra hellst í Deilíngargreininni sem her eptir mun siá, og vil eg því framselia fleiri dæmi til æfíngar.

1. D. 3sinnum 98675 frá 320514, verda 24489.
2. D. 4s. 879316 frá 4800231, v. 1282967.
3. D. 5s. 6897038 frá 38000009, v. 3514810.

4. D.

4. D. 6s. 9783541 frá 63123456, v. 4422210.

5. D. 7s. 89748238 frá 6903021045, verda 6274783393.

6. D. 8s. 97305284 frá 1234567890, verda 456125618.

7. D. 9s. 987654321 frá 9876543210, verda 987654321.

8. D. Drag eina serþýdandi stafi frá 23400 um sinn, þ. e. ad s. 234 frá 23400. og verda 23166 eptir.

9. D. Nem þá merkiligu stafi í þeßi tølu 3879000 frá siálfri henni 4sinnum, og verda 3863484 eptir. It. þá serþýdandi frá þeßi 687340000, 8sinnum. og verda 686790128 leifdir.

§. 101. Um þeßi tvø seinustu dæmi er svo ad skilia, ad þau heyra þeim atburdum sem margfalldinn gengr nær tuga tølu edr hundrada edr þúsunda ꝛc. þvíad þá kann madr ad margfallda med þeirri tuga edr hundrada tølu edr þúsunda, og draga frá þeßi verkun afleidandi stafs þeß er munar og siálfrar margfalldandi, hvart helldr han er eining edr einínga tala. Og verda þeßir atburdir med tvennu móti.

Hinn Isti atburdr er sá ad margfalldinn gengr nær stórum einíngum (sem 100, 1000 ꝛc.). og skal þá 1) rita þegar svo merg 0 (edr púnkta) vid hægra enda margfalldandi sem í eru þeirri einíngu er næst ferr (§. 73). og 2) draga margfalldandi

siálfa svo optsinnis þar í frá, sem einíngar eru í munar tølunni. þ. e. ad segia, ef 1 munar, þá 1sinni, en muni fleirum, þá skal margfallda hana med munar stafnum og draga hveria verkun frá undir eins, og verdr þá eptirstedin alverkan. T. d. 1. skal margfallda 38795 med 99, þ. e. 100÷1, og stendr þá verknadrinn á þvísa lund:

38795.00 (99=100÷1. og þarf her eigi ad verk. 3840705. leida 1. en segia ad eins svo: 5 frá 10 verda 5, 9 frá 9 v. 0, 7 frá 14 v. 7, 8 frá 8 v. 0, 3 f. 7 v. 4. og sídan rita þá stafi nudir er eptir standa. Allt eins verdr med farid, ef margfalldinn veri 999 edr 9999 edr þadan af fleira.

2. D. Margfalld 58345 med 98, þ. e. 100÷2. þannig: 58345,00 (2. (þ. e. munarstafrinn).
verk. 5717810.

3. D. Margfalld 23057 med 997, þ. e. 1000÷3. þannig: 23057.000 (3 (munarstafr).
verk. 22987829.

4. D. Margfalld 9984 med 9992, þ. e. 10000÷8. þannig: 9984,0000 (8 (m. stafr).
v. 99760128.

En þikki nokkurum þetta váudskilid, þá má (ef svo vill) rita verkun munarstafs undir, og frá draga hana sídan ad rettu máli (§. 50), og er þó atferdin styttri enn hin algengna. og stendr þá

2nad dœmid svo: 58345.. med 98=100÷2
116690
verk. 5717810.

og

og hid 3dia svo: 23057... med 997=1000÷3.
69171
verk. 22987829.

Unarr atburdr er þad er margfalldinn er svo nærvarinn stærri tuga tølu edr hundrada edr þúsunda (sem 30, 40 ꝛc. 200 ꝛc., 2000 ꝛc.). og skal þá 1) margfallda med inum merkiliga staf þeirrar tølu, og 2) draga frá þeirri verkun afleidandi stafs þeß er munar, undir eins og han er leiddr til margfalldandi, allt eins og í fyrsta atburdi er skilid. á þvísa lund:

1. D. margfalld 96 med 39. 3840 edr 40÷1 verk. 3744.
It. 342 med 199. 68400, edr 200÷1 68058.

2. D. 3796 med 396. 1518400, edr 400÷4 1503216.
It. 4238 med 5930. 25428000, edr 6000÷70 25131340.

3. D. 342.. med 159. 2052. edr 160÷1 54720 54378.
It. 342.. med 182. 3078. edr 190÷8 64980 62244.

Merk. Þeßar atferdar, er nú hefir eg sýnt í bádum atburdum, má optsinnis viðnýta í samlagníngarðreifíngu (§. 89). sem her skal eg sýna:

1. D. 38924... med 1923.
3581008. edr 1000
116772 92. = 100÷8.
74850852 3 (ad venju).

2. D. 3796 med 4398.

```
15184...   edr 4000 (ad venin).
 1510808        398 = 400 ÷ 2.
16694808.
```

3. D. 234567891987 med 1199877.

```
2580246811857....(11 | edr 1100000
 234098756203026..)   |      998.. = 1000÷2.
    18061727682999(7  |       77
281452618533685599.
```

§. 102. Pad er enn fyrir sømum søkum er mælltag í §. 99, ad draga má tølu nokkura frá verkun annarra talna undir eins og margfalldid er. en þá er þeß gætanda I) ef margfalldinn er einstakr stafr og láns er þørf tug-einíngar, þá skal hana taka frá næsta staf í frádraganum siálfum, og sídan er ad honum kemr, þá telia hann hvart er vill 1 fleira enn ádr, edr ad ødrum kosti láta hann vera sem mind hans og máttr stendr til. enda kasta þá einíngu braut af næstu verkun. II) Ef dreift er í margfalldna parta, þá skal draga tøluna frá seinustu verkun (en eigi fyrstu ne annarri). ella III) ef serligar verkanir eru, þá verdr her øll ein atferd sem sýnt er í §. 58 vid Unan atburd.

T. d. 1. drag 3687 frá 2 × 34529, og qved þannig verda 65371. ad ordi: 2sinnum 9 eru 18. 7 frá 18 verda 11. rit 1, en haf annan í hnga. þá 2s. 2 e. 4, og 1 í hug e. 5. 8 frá 15 (og tak 1 ad láni hiá 6) v. 7. þá 2s. 5 e. 10, 6 frá 9 (edr ef vill, 7 frá 10) v. 3. þá 2s. 4 e. 8, 3 frá 8 v. 5. þá 2s. 3 e. 6.

2. D.

2. D. 576 frá 233 × 24. (eptir II. reglu).
233
932 (4, 6)
v. 5016

3. D. 576 frá 233 × 24. (eptir III. reg.)
233 (10, 14)
932
5016.

Merk nú ad þeßar atferdar má jafnan vidneyta þá er margfalldinn er einum færri enn tala nokkur samsett í Pýthagors töblunni, edr þær sem í eru 2 einir stafir (sem 22, 33 ꝛc.), þvíad þá má margfallda med giørendum þeirrar sem er einum fleiri, og draga siálfa margfalldandi frá sídurstu verkun, 1 staf í hverri leidslu. sem her:

1. D. 352 med 34. (5, 7÷1)
1760
11968.

It. 253 m. 47. (6, 8÷1)
1518
11891.

It. 523 m. 53. (6, 9÷1)
3138
27719.

2. D. 124 m. 43. (11, 4÷1)
1364
5332.

It. 124 m. 65. (11, 6÷1)
1364
8060.

It. 241 m. 87. (11, 8÷1)
2651
20967.

Se fleirum í fátt (sem 2 edr 3) þá má þó á sömu leid adfara, nema þad eitt er þá skal leida munnarstafinn (sem í §. 101), og þegar undir eins draga þá verkun hvert sinn frá nedstu verkun. á þvísa lund:

96 med 74. (11, 7÷3)
1056
7392
7104

En med því ad slík adferd gengr aungu greidarr í slíkum dæmum, þá er á vid heilar tölur, enn hin algengna (§. 79), þá má hagqvæmligar dreifa í giørendr minni tölu, sem 74 í 8 × 9 + 2 (sem siá má í §. 96 vid endann). en því villda eg sýna þetta herna, ad eingum skylldi á óvørum koma, ef sídarr verdr vidhaft.

## Um DIVISIONina.

§. 103.

DIVISIO edr Deilíng er adgreiníng tølu í svo marga iafna hluti sem einíngar er í annarri, á þá leid ad fundin verdr sú tala sem áqvedr um stærd serhvers þvílíks hlutar, edr og hve opt ønnur talan se innibundin í hinni.

104. Tala sú er deillt er, edr deila skal, heitir dividendus edr deilandi. sú er med verdr deillt, kallast divisor edr Deilir. en hin þridia sem fundin verdr fyrir deilíngu, nefnist qvotus, þ. e. Hlutartala, edr Hlutatal (af því er hún telr bædi stærd og fiølld þeß er í hlut verdr).

§. 105. Þeßa talnagrein hefir madr vid í tveim atburdum, annadhvart þá er skipta vill t. d. 15 í 3 stadi edr parta, sem 15 ß. í medal 3 manna, og vita stærd eins þvílíks hlutar, þ. e. þridia partsins. edr þá er madr tekr tvær einskonar tølur saman, sem 15 ß. og 3 ß. og leitar þeirrar tølu sem áqvedr hversu opt 3 ß. se innifólgnir í 15 ß. En þó kemr hvartveggia í sama stad nidr. þvíad í hinum fyrra atburdi má allt ad eins vita, sem ad ødrum kosti, hve opt 3 ß. se innibundnir í 15 ß. þvíat svo mørgum

um sinnum færr madr hverr 1 ß. í hlut. þ. e. ad segia 5 sinnum. og á allan einn hátt verdr í hinum sídara atburdi leitad hve stórr þridi partrinn se af 15. og er sjá 5.

§. 106. Nú er þá einúngis adgætanda um kenníngarnøfn enna framsettu talna í þeßi grein, eptir hvarri þeirra kenna skuli Hlutartøluna, ef sundrnefndar eru. og má her því allt eins og í Margfølldunni (§. 64) vandliga í hug leida kríngumstædurnar í hverium atburdi, hvart Qvóturinn se einskonar og deilandi tala, edr se han telunafn eitt án kenníngu, og megi því honum annad nafn gefa enn hún hefir. þá er deillt skal 15 ß. med 3 mønnum til iafnadar, þá verda 3 álitnir sem kenníngarvøu tala, en qvótrinn sama konar sem deilandi og heitir þá 5 ß. En þá er vita vill hversu opt tølustærd nokkur se í annarri innifalin, þá megu bádar vera eins konar og kenníngarnafns, t. d. 3 álnir og 15 áln., og þá kann hlutartalan verda eptir nefnd ødrum hlut, t. d. ef spurt væri hve margir fadmar se 15 ál., þá, er þeim verdr deillt med 3 álnum, sem í gánga fadm hvern, heti qvótrinn 5 fadmar.

§. 107. En um tølurnar siálfar álitnar einar vid sig, þá gilldir her eigi einu (sem í Marg=

Margføllduninni, §. 63 og 64) hver se deilandi edr hverr deilirinn, þvíad hún er iafnan stærri edr ad minsta kosti iefn honum (þótt þad kunni opt ad hendum bera er hún sýnist minni, þá er vid heilar tølur er um ad eiga). fyri því er nauðsyn mikil ad rett grein se áger i þvísa máli, og þeß vegna vil eg her yfir lýsa því, ad hvargi er þeßi atqvædi med, edr ímillum, standa medal talnanna, þá er hin fyrri deilandi, en hin seinni deilir. en standi svo, 2skipta (þ. e. tvískipta) edr 3skipta (þrískipta), þá iafnan deilir sú er næst fyrri gengr, en hin deilandi er eptir ferr.

§ 108. Rannar er þad ad Deila ad nema deilinn svo opt sem verdr í frá deilandi (§. 17) t. d. 3 frá 15, verda 1sta sinn 12 eptir, 2nad sinn 9, 3dia sinn 6, 4da sinn 3, 5ta sinn 0. og verdr þá hlutartalan þad sinn er eigi má lengr. En nú med því ad hún iafnan má hafa svo margar einíngar sem deilirinn er opt innifalinn í deilandi (§. 103), og kann því aptr ad sýna deilandi tølu alla, þegar er hún er margfalldin med deilinum (§. 59), þá kennir Deilíngargreinin ad finna hlutatølluna fliótarr mikln vid fulltíngi Margføldunar enn med frádragníngu. Sem í ádr tedn dæmi þarf ad eins fyrst ad reyna, hvert 3 megi taka 6sinnum frá 15. nú med því 6s. 3 edr 3s. 6 ern 18 (§. 68) er yfirstígr 15, þá ser þegar ad 6 er ofmargt, og má því eigi vera hlutartalan. Í annan stad má til reyna med 4, og verdr verkanin 12 af 4s. 3, og

12

12 minna enn 15. þá ser að 4 er til fátt, og fyrir því má sá retti qvótr vera í medal 4 og 6. og nú að teknum 5 verdr bædi frádregid og ekki umfram.

§. 109. Um Hlutartøluna er þeßa þá hellz að gæta, er svo stór se høfð, að 1) verkan hennar, er hún margfalldin er med deilinum, kunni þó frádregin verda deilandi tølu: og 2) að gerri frádragníngu verdi annadhvart ekki eptir edr iafnan minna enn deilirinn er, þvíað ella er það merki að qvótrinn se minni tekinn enn kunni.

§. 110. Þá er deilirinn er einstøk tala, kann madr án lángleiddri tilrann að hitta hlutatalið í Pýthagors tøblunni (§. 68) er hana kann, med því að gæta hverra giørenda verkan sú tala se er við er að skipta.

T. d. ef deila skyli 72 med 9, þá veit að qvótrinn er 8, þvíað 8ſ. 9 eru 72. It. se deilirinn 8, þá má hlutartalan vera 9. og s. fr. En se deilandi hvergi í Tøblunni, sem 71 edr 75, þá rædr af verkun þeirri sem næst ferr, en þó er minni, t. d. 63 edr 72, ef deilirinn er 9, hver se hlutatalan. en væri han 8, þá 64 og enn 72.

§. 111. Þetta er allt eins að skilia um stórar talna einíngar og smár. þvíað svo sem 9 ß. einir verda í hlut þá er 72 ß. einum er skipt med 8; svo verda og 9 tígir ß. í hlut, ef 72 tigum ß. er deillt med 8. og 9 hundrud ß. ef 72 hundrudum ß. verdr med 8 skipt. Fyri því má þá iafnan í tilliti slíkra eginnafna talnanna setia qvótinn í það rúm sem í stendr

hin

hin deillda tala. T. d. ef deila skyli 720 med 8, þá segdi madr sem fyrr, 8 í 72 er 9sinnum. en nú med því 72 jarteina hér eigi einfalldar einíngar, helldr 72 tuga, er þeir standa í 2dru rúmi, þá skal og hlutartøluna í 2nad rúm setia, en fylla einínga rúm ói, þar sem engi stafr er annarr (§. 22), og er hún þá 90. á saman hátt er 8 í 7200, 900sinnum, og í 72000, 9000sinnum, ɩc.

§. 112. Þá er deilandi stafr í rúmi nokkuru er minni enn deilisins, svo ad eigi má í hlut hafa 1 þeßkonar einíngu, þá giørir madr þann staf ad minnum einíngum, og skiptir þeim svo í eptra rúmi.

T. d. 30 skal 3skipta, og má vel veita í 2dru rúmi, er 3 eru í 3 tignm 1 (tuga) sinni. en veri nú ad deila 30 med 5, þá verdr þad eigi gert í 2dru rúmi, svo ad í hlut komi tugar einíng. og því má þeßa 3 tígi giøra ad smærrum einíngum, og þá segir madr í 1sta rúmi, 5 í 3tíu einíngum er 6 (einínga) sinnum.

§. 113. Hvart helldr deillt er tolu nokkurri allri í einu med annarri, edr henni fyrst er skipt í samlagna parta (§. 87), og þá parti hverium deillt med sømu tølu, og hlutartølur allar samlagnar, þá verdr hvervetna allr einn høfud-qvótr. Þvíad samteknir partar eru heilu iafnir bædi í tilliti til deilandi og hlutartølu (§. 15).

T. d.

T. d. Se 24 deillt med 4, verda 6 í hlut. edr 24 er skipt í siálfrádliga parta, sem 20+4, og þeim deillt med 4, þá verdr og hlutartalan 5+1=6. edr í 16+8, þá 4+2=6. edr í 12+12, þá 3+3 =6. edr og í 8+8+8, þá 2+2+2=6.

§. 114. Hvart madr deilir tølu med annarri allri samt, edr dreifir henni í margfalldna parta (§. 87), og deilir fyrst med ødrum hvarum gíøranda og þá hlutatølunni med hinum, þá verdr qvótrinu allr einn hvartveggia. og eins þótt fleiri væri gíørendur.

T. d. Af 48:12 verda 4 í hlut, og þótt eg skipta 12 í gíørandur 3 og 4 (§. 68), og deilag fyrst 48 med 3, verda 16, og þarnæst 16 med 4, þá koma eins 4 á hlut. It. af 90:30 er hlutartalan 3. eins þótt eg dreifa 30 í 2s. 5s. 3, og deilag 90 med 2, verda 45, og 45 med 3, verda 15, og enn 15 med 5, þá koma 3 í lut.

§. 115. Um deilinn verda tveir atburdir, ad han er annadhvart einn merkiligr stafr edr þadan af fleiri merkiligir, hvartveggia án og med ómerkilignm. og vil eg því um ræda hvern atburd ser, en þad fyrst

## §. 116. Hve deila skal áqvedinni tølu med einstøkum tølustaf.

I. R. Rita fyrst deilandi tølu og þá deilinn ad vinstri hlid henni med boga í medal til adgreiníngar. og

II. R.

II. R. Drag þverstrik nedan deilandi. og

III. R. Rannsaka þá med fullthugi Pythagors tøblu (á slíka lund sem kendag í §. 110), hversu opt deilirinn se innifalinn í fremsta staf deilandi, edr ef siá er minni deilinum, þá í tveim fyrstu støfum (§. 112). ad fundinni þeirri tølu (sem er qvótrinn), þá set hana undir strikinn rettlínis nedan einínga tølu þá er deillt var (eptir §. 111). sídan

IV. R. Margfalld med þeßi hlutartølu deilinn, og drag þegar verkunina frá þeirri tølu er nú deildir þú, á þann hátt sem kennt er í §. 99, og legg eptirstødina í minni, ef nokkur verdr, þar til

V. R. Er komid er í næsta rúm aptr, þá vit enn hversu opt deilirinn se í fólginn einíngum þeßa rúms, þ. e. ad segia, eptirstødinni frá fremra rúmi (ef nokkur var, med því ad eining hver í henni merkir 10 í hægra rúmi, §. 25) ásamt tølustaf þeim sem her er fyrir. sídan far med ødru sem ádan skildag (í III og IV R.). og á þvísa leid gáck rúm frá rúmi til þeß er lokid er deilandi.

1sta D. (§. 70) deilir 3) 20625 deilandi. Og mæl nú 6875 hlutatal. þannig: 3 í 20 (ad 2 er minna enn 3, því má í næsta rúmi deila,

deila, sem rædt var í §. 112) eru 6sinnum (innifalnir). rit þegar 6 í ødru rúmi, þ. e. nedan o. og seg þá: 3sinnum 6 eru 18, frá 20 verda 2 (eptir). gáng þá til næsta rúms, og qved: 3 í 26 (þ. e. þeim 2 tugar einingum er leisdutt ádan, og 6 í þridia rúmi) eru 8sinnum. skrifa þá 8 nedan sama rúm, og seg þá: 3s. 8 eru 24, frá 26 verda 2. far svo í næsta rúm, og mæl þá: 3 í 22 (þ. e. þeim 2 tigum frá 3dia rúmi og 2 í 4da r.) eru 7sinnum. set þá 7 undir 2, og seg: 3s. 7 eru 21, frá 22 verdr 1. gáng þá til efsta rúms, og qved svo: 3 í 15 (þ. e. þeim 1 tug frá 4da rúmi og 5 í sídarsta) eru 5sinnum. rit þá 5 nidr frá þar, og qved sídan: 3s. 5 eru 15, frá 15 verdr ekki eptir (edr iafnast upp).

VI. R. En beri svo ad høndum, ad deilandi se í rúmi nokkuru minni enn deilirinn, edr er þar ómerkiligr stafr einn fyrir, þá set o undir því rúmi í hlutartølunu, en tak þann merkiliga staf med (er oftitill var) til næsta rúms, sem adra eptirsted (V. R.), á þennan hátt:

2. D. deilir 2) 90140180 deilandi. og qved svo
45070090 hlutatal. ad ordi: 2 í 9 eru 4sinnum. 2s. 4 eru 8, frá 9 verdr 1. þá 2 í 10 eru 5s. þá 2 í 1 eru o (þ. e. ekki sinn, edr øngu sinni fólgnir) og rita þad undir. þá 2 í 14 e. 7s., 2s. 7 e. 14, v. ekki eptir. þá 2 í o eru o, og set þad. þá 2 í 1 er o. þá 2 í 18 e. 9s., þá 2 í o e. o.

§. 117. Vill madr nú greiniligar fyrir augu hafa þvílikan verknad, þá skal eg dreifa 20625 á saman

hátt sem ádan vard í deilíngu þeirra(§. 116), og skipta hverium parti vid sig. og ser þá gløggliga, ad

af 3skiptum 18000 verda 6000 í hlut, (§. 111)
og af 3skiptum 2400 verda 800 í hlut,
og af 3skiptum 210 verda 70 í hlut,
og af 3skiptum 15 verda 5 í hlut. því megu
og af 3sk. sum. 20625 verda 6875 í hlut.

§. 118. Hvern part af deilandi er numinn verdr um sinn á slíkan hátt sem í §. 116, heita menn dividuum eda serdeilandi tølu. Sem í Ira dæminu var serdeilandi fyrst 20 (þúsundir), þá 26 (hundrud), þá 22 (tigir), og þá 15 (einir). þvíad hvatki sem leift verdr edr eigi deillt í rúmi nokkuru, er hvervetna tekid med til eptra rúms.

§. 119. Pad er sidvandi margra, ad rita deilinn undir serdeilandi hvert sinn, og líka eptirstød yfir til minnis ser, en hlutatal ad hægra enda deilandi, og stendr þá verknadr ens fyrra dæmis (í s. §.) alritinn á þvísa lund:

221 221
20625 (6875. edr svo 20625 (6875.
3333 3333

En þetta er med sønnu engi naudsyn, ne en helldr þørf, nema þeim sem illa er minni farnir, en miklu framarr íll venia og verkatøf ein þá er greida skal tali. svo ad þeir sem slíkt kenna ødrum í øndverdu, venia þá siálfir af sídan, og veitir þá torvelliga, þvíad best man þad er úngr nemr. nú dugir þá ad nema þad fyrst er hvarvetna má vidkoma og betr serr. og

er

er þad skiótt ad segia, at fyri þær sakar þarf eigi ad vita leifarnar, er þær verda bædi med hafdar til næsta rúms þegar ad ordi qvednu, og iafnan einstakr stafr (§. 109) þá er deilir er svo, og má því hægt vera ad muna þær án sionar.

§. 120. Af aungri serdeilandi kann hlutatal meira verda enn 9, hvart helldr deilir er einstok tala edr samstæd. ella er þad merki ad fleiri voru rúm numin til deilingar enn þurfti, edr hlutatalid haft minna enn kunni (siá sama §.).

§. 121. Fyri því megu jafnan vera eins margir stafir í hlutartølunni eptir inn fyrsta þar, sem í eru deilandi eptir fyrstu serdeilandi, sem siá má af tilleiddum dæmum (§. 116).

§. 122. Fleiri dæmi ad æfa sig í.

1. D. 172872104 hálfir (t. d. fiskar) hve margir eru þad heilir? Nú veit þad hverr ad í heilu hveriu eru 2 helmíngar. fyrir því má nu ráda, er 2skipta skal tølu þessi, og ad í henni eru svo margir heilir innifalnir sem opt eru 2 í. er þá ad vita hve mørgum sinnum 2 hálfir se í 172872104 hálfum, ef svar vill til finna. en þad er þetta: 86436052 (§. 72) og kenniʒt vid heila (eptir §. 106).

En hve margt verdr í hlut, ef 172872104 hálfum er 2skipt? Her er deilir og hlutartala øll ein og fyrr, en nú kenniʒt hún vid hálfa (eptir sama §.).

2. D. Hve margir fadmar ero 1158621 áln? þad er sem til mællt veri, hve opt eru 3 álnir innifólgnar í 1158621 álnum, og verdr svarad 386207 sinnum, og kennist tala siá vid fadma, sem spurt var (s. §.). En væri nú tilmællt, hve siórr se 3di partrinn af 1158621 áln. þá heti hlutatalid 386207 álnar.

3. D. 395060 vikur, hve margir mánadir?

4) 395060
úrlausn 98765 mánudir.

4. D. Hve margir fiórdúngar eru 2751774240 fiskar?

5) 2751774240
svar 550354848 fiórd.

5. D. 2910 álnir, hve margir aurar edr St. hundr.?

6) 2910
úrlausn 485 aurar, edr 4' og 5 aur.

6. D. Hve margar vikur eru 2429129794 dagar?

7) 2429129794
svar 347018542 vikur.

7. D. 550354848 fiórdúngar, hve margar vættir?

8) 550354848
úrlausn 68794356 vættir.

8. D. 8989898989898989899 níundu partar, hve margir heilir?

9) 8989898989898989899
svar 998877665544332211 heilir.

§. 123. Verdi nokkud eptir af seinustu ferdeilandi, er minna se deilinum, þá heitir þad Eptir-

Eptirstød edr leifar (áqvedinnar deilandi). og í slíkum atburdum kallast deilandi øll óskiptilig, þ. e. ad segia, med tilteknum deili. en hinseginn þá er ekki verdr umfram, nefnist hún skiptilig (med áqvednum deili).

§. 124. Vill madr nú til fullnustu deillda fá slíka úskiptiliga tølu, þá skal eptirstødina taka af nýiu sem deilandi og giøra ad smærrum eingingum, þ. e. ad pørtum heillra einínga edr brotum (§. 112), og deila þeim þá svo, ad setia leifarnar ofan þverstrik eitt á lesti hlutartølu, en deilinn þar nedan (s. §. 36), og verdr þá brot þetta id retta hlutatal af eptirstødinni. sem her:

1. D. $3)\underline{20627}$ $6875\frac{2}{3}$ It. $2)\underline{90140181}$ $45070090\frac{1}{2}$ It. $6)\underline{2915}$ $485\frac{5}{6}$.

2. D. Hve margar vættir eru 230 fiórdúngar, edr hve mikid er 8di partrinn af 230 fiórdúngum?

$8)\underline{230}$ svar $28\frac{6}{8}$ vættar, en $8)\underline{230}$ $28\frac{6}{8}$ úr fiórdúngi.

§. 125. Á allan einn hátt skal og medfara hvargi sem deilandi øll er minni deilinum, sem nú ræddag um eptirstødvar.

T. d. 1 skal deillt í medal 2, og verdr $\frac{1}{2}$ í hlut (§. 36). It. 4 Rd. ímillum 6 manna, verdr hlutr hverr $\frac{4}{6}$. It. 7 ß. medal 9, verda $\frac{7}{9}$ ß. Edr ef spurt er, hve opt 2 se fólgnir í 1, þá svarar madr $\frac{1}{2}$ (hálfu)

sinni. It. 6 í 4 rd. þá $\frac{4}{6}$ (fjórum settu) sinnum. It. 9 í 7 ß. þá $\frac{7}{9}$ (sjau níundu) sinnum. En vili madr vita hve mikill hverr slíkr hlutr se þá er talan er vidkend (bædi í þeßum atburdi og hinum, §. 124) einhvern þann hlut er kynbreyta má (§. 35), þá lesi þar um í Divisio margsKonar talna skommu her á eptir.

§. 126. Þá er deilirinn er nokkur margfølld eining (§. 5) sem 10, 100, 1000 2c. og þarf þá ekki annad enn skilia svo marga stafi frá eptra enda deilandi tølu sem 0 eru mørg í deilinum, hvart er vill med púnkti edr striki, og stendr þá hlutatal framan, en leifar eptir (og ferr um þær sem fyrr, §. 124, ef merkiligar eru), á þvísa leid: 2.0, 2,00, edr svo 2|000.

1. D. Hve mørg 10 potta ílát þarf undir 380 potta?
10) 38.0 (siá §. 73).
úrlausn 38 ílát.

2. D. 2400 pd., hve mørg Centner? 100) 24.00
úrlausn 24 C.

3. D. Hve stórr er 1000sti partr af 256738 Rd.?
úrlausn $256\frac{738}{1000}$ Rd.

4. D. Hve mikid verdr í hlut, ef 38877990 ß. er skipt í 10000 stadi? svar $3887\frac{7990}{10000}$ ß.

§. 127. Þá er deilirinn er stærri einínga tala, sem 20, 30, 40, 5000, 2c. þá 1) skili madr og med púnkti einum edr striki svo marga stafi

stafi frá hægra enda deilandi, sem í eru deilinum. II) deili þeim stöfum að veniu er framan standa (§. 116) með inum merkiliga staf. og III) ef þar verðr eptirsted, þá taki hana meðr því samt er frágreint er, og fari með sem fyrr (§. 124).

1. D. 69166 Lpd. hve mörg eru það Skpd.?

$$20)\,\underline{6916.6}$$
úrlausn $3458\frac{6}{20}$ Skpd.

2. D. Hve margar lestir eru 205350879 vættir?

(s. §. 74). $$30)\,\underline{2053508 7,9}$$
svar $6845029\frac{9}{30}$ lestar.

3. D. 589239 fiskar, hversu margar vættir?

$$40)\,\underline{58923,9}$$
úrlausn $14730\frac{3|9}{40}$ vættar.

4. D. 136678örk, hve margir ballar af prentpappír?

$$5000)\,\underline{136|678}$$
úrlausn $27\frac{1678}{5000}$ ball.

5. D. Hve stórr er inn 600dradasti partr af þeßi tölu

$$600)\,\underline{39999.99}\,?$$
svar $6666\frac{399}{600}$.

6. D. Hve mikill er enn 70000dasti hlutr af þeßi tölu

$$70000)\,\underline{2034|8765}\,?$$
svar $290\frac{48765}{70000}$.

§. 128. En se 0 bædi í enda deilandi og deilis, þá skili madr iafnmörg frá hvarvetna og

ſleppi med ellu. og ſe fleiri í deilinum, þá giøri enn ſem fyrr (§. 127).

T. d. 1. ef deila ſkal 182000 med 80, þá deil ad eins 18200 med 8. Eins ef ſkipta ſkal ſømu tølu med 800, þá deil 1820 med 8. og med 8000, þá 182 med 8.

2. D. Hve mikid er $\frac{1}{50}$aſti hlutr af 394500?

5) 39450|0
úrlauſn 7890.

3. D. Hve ſtórr er $\frac{1}{6000}$ partr af 5485900?

60) 5485.9|00
ſvar $914\frac{19}{60}$.

4. D. Hve opt eru 9000000 innifalnär í þeßi tølu

9) 1111111010|0000000?
ſvar 1234567890 ſinnum.

## §. 129. Hve deila ſkal tølu med fleirum enn einum ſerþýdanda tøluſtaf.

I. R. Rit deilinn framan deilandi med þverſtriki undir (er þar nedan ſkal ſetia hlutatal þad er fundid verdr).

II. R. Tak þá til deilingar einn part af deilandi, ſem deilirinn er eigi optarr ífólginn enn 9 ſinnum (§. 120), þ. er ad ſ. ſvo marga tøluſtafi ſem í eru deilinum, edr því ad eins fleiri, nema hinn fremſti ſtafr deilandi ſe minni fyrſta deiliſtaf (§. 112), edr og hinir fremſtu í

bádum

bádum se iafnir, en seinni í deilandi minni enn þeir í deilinum þar ad rettu rúmatali. Vit þá med fulltíngi Pythagors tøblu, hversu opt hinn fremsti stafr í deilinum se innifalinn í fremsta staf deilandi, edr og tveim fremstum, ef svo er vidvaxid sem nú taldag. og tel til í huga þer, hvart verkan hlutartølu (þeirrar er þú áqvedr fyrzt) og deilis, er hvart er leitt til annars, kunni frádregin verda ferdeilandi. þ. er ad s. margfallda framan frá deilinn med áqvednu hlutatali, og drag í hverri leidslu verkun þá er verdr frá ferdeilandi støfum, allt þar til er finnr hvart verkan hlutatals og deilis øll saman muni verda of stór edr of smá. er hún nú til mikil, þá fætka hlutatalid um 1 edr 2 ꝛc. og tel enn til, þar til er framgengt verdr. nú er hún til lítil, þá fiølga hlutatali um 1 edr 2 ꝛc. og haf enn tiltølu sem fyrr (§. 109).

III. R. Þá skrifa hid rettfundna hlutatal nedan strikid, og margfalld þad aptan frá med hverium deilistaf ser, og drag undir eins hvert sinn verkun þá er verdr frá ferdeilandi støfum, á allan einn hátt og kennt er í §. 99 og 100. en rit leifar, er verda, beint undir þeim staf í ferdeilandi er frádregr hveriu sinni, og gæt þá er búid er, hvart eigi stærri se þær enn deilirinn

(§. 109). og ſe ſvo, þá ſtækka hlutartøluna, og ſídan far ſem nu var áſkilid.

IV. R. Ad ſvo giørvu far til næſta rúms, og verdr þá ſerdeilandi ſtafr ſá er þar er fyrir áſamt leiſum þeim er vurdu frá enni fyrſtu. nú giør her allt eins og ſkilid heſig um fremſtu ſerdeilandi. og á þeßa lund gáng rúm frá rúmi, þar til ad lokid er deilandi, og far med øllu rádi ſem fyrr. og hlýdir þó enn alls hins ad geyma í þeßi grein ſem fyri mællt er í VI reglu §. 116 (vid endann), ít. §. 121 og 123 til 128 ſamt um eptirſtød á leſli og úmerkiliga ſtafi.

T. d. ſkal deila 138938 med 254, og nidrſetia fyrſt á þvíſa lund:

254 138938. og nú med því ad fyrſti ſtafr deilandi er minni enn í deilinum, þá má en fyrſta ſerdeilandi vera rúmi ſtærri enn han, þ. e. ad ſegia 1389. og ſýnir þad púnktrinn undir 9, ad ſiá ſtafr ſe inn ſídarſti hennar, er fyrſt ſkal frádraga verkun hlutartals og deilis. Nú ad ſvo búnu má þannig ad ordi qveda: 2 í 13 eru 6ſinnum. en þá er gætt verdr um ena ſeinni ſtafi deilis (þ. e. 54) og ſerdeilandi (þ. e. 89), þá er audſært ad hvarki eru 5 innifalnir í 18 ſexſinnum, ne 4 í 9 ſvo. og má þetta enn gløggvarr ſiá, ef margfalldid er ad framan og frádregid undir eins, á þennan hátt: 2ſinnum 6 eru 12, frá 13, verdr 1, og 5ſinn. 6 e. 30, frá 18, má eigi draga. fyri því er hlutartalan 6 ofſtór,

og skal um 1 minka, og reyna þá til med 5, enn á sömu lund sem fyrr. og þegar er ser ad framgengt verdr, þá rit 5 undir strikid, og mæl sídan: 4s. 5 eru 20, frá 29 (þvíad 2 tigu nem eg ad láni hiá fyrrum 8, sem greiniliga sýnt er í §. 99) verda 9. rit þá undir 9 í deilandi. og seg: 5s. 5 e. 25, frá 26 (og tek enn 2 tigu frá fyrrum 3) verdr 1. og set hann undir 8. þá qved: 2s. 5 e. 10, frá 11 verdr 1. og rit hann undir (fyrri) 3. og má nu draga þá deilandi stafi út er búnir eru, ef vill. og stendr þá svo:

254 178938 Far nú aptr í næsta rúm og
Qvótr 5 119. set púnkt undir 3 (sem her ser),

og iarteinar han sem fyrr sagdag. (enda má og 3 ofan flytia til 9, ef þá þykir betr skilia). og er nu ferdeilandi 1193. tak nú þá og tel til, svo mælandi: 2 í 11 e. 5, 2s. 5 e. 10, frá 11 v. 1. þá 5s. 5 e. 25, frá 19, verdr eigi dregid. fyri því ser ad 4 má vera hin retta hlutartala af rúmi þessu. rita því 4 undir strikid, og qved svo ad ordi: 4s. 4 e. 16, frá 23 verda 7, og set þá nidr frá 3. þá 4s. 5 e. 20, frá 27 (þvíad 2 tigir voru teknir frá 9) verda 7. rit þá undir 9. og seg: 2s. 4 e. 8, frá 9 (þvíad nummir voru frá 11 tveir tigir) verdr 1. og set hann undir eptra 1, og stendr þá svo:

254 178978 Nú gáck í efsta rúm, og set
Q.v. 54 119.. púnkt nidr frá 8 og aptan 7,
177. og þýdi þeir sem fyrr. (edr

fær 8 nidr til 7 ef vill). og er nú ferdeilandi 1778. tel enn til á saman hátt, sem fyri mællt er, og þá er fundid hefir ad 7 verda her id retta hlutatal, þá rit

rit þad undir strikid, og tak svo til ords: 4s. 7 e. 28, frá 28 v. o. set þad nidr frá 8 med striki ámill- um (er iafnan draga má nedan seinustu ferdeilandi, svo fremi er eigi veit hvart merkilig eptirstød verdr, en ella er þess engi þørf). þá seg: 5s. 7 e. 35, frá 35 (er 2 tigir voru fyri fram teknir af sídarum 7) verdr o. þá 2s. 7 e. 14, frá 14 (er 3 tigir voru numnir frá fyrrum 7) verdr o. og nú stendr verknadr þessi algerr á þvísa lund:

| | | | |
|---|---|---|---|
| 254 | 138938 | edr svo: | 138938 |
| Qv. 547 | 119.. | | 119.. |
| | 177. | | 177. |
| | 000 | | 000. |

§. 130. Þetta má vidvæníngum ad sønnu þúngskilid og erfidt fyri verda ad giøra, og er þó ekki svo torvellt í sem ad finna þá rettu hlutatølu af hverri ferdeilandi. en þá er þeir opt og vandliga lesa og í minni leggia bædi reglurnar og allt þad er talid hefig í verknadi dæmisins, þá munu þeir snarliga nema atferdina svo nokkuru miøg, ad þeir kunnu ad finna hlutatal af deilandi hverri án lángvinnri fyrirhøfu edr tilraun. og þurfu þá eigi ad margfallda tiltekid hlutatal med øllum deilistøfum framan frá, þvíad þegar er búid er ad margfallda med tveim enum fyrstu, edr þrimr ef løng er talan, þá má nærfellt hvar skynia, hvert qvótr se hafdr til mikill edr til smárr. En nú til nokkurs leidarvísis í þessu máli, þá er þetta merkianda, ad í þeim atburdum er fyrstu stafir deilis 1 edr 2 eru stærri enn hinir sídari, þá kann madr nær allstad-

ar

ar ad hafa hlutatal svo stórt sem má (eptir Pýthagors töblunni) í fremstum støfum ferdeilandi hverrar. sem her t. d.

| | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 91 | í | 697. | It. 83 | í | 679 | It. 931 | í 8988 |
| hl. t. 7 | | 60. | hl. 8 | | 15. | hl. 9 | 609. |

En þá er hinn fremsti stafr deilis er miøg sva minni enn fyrstu deilandi stafir, en hinir sídari stærri, þá er hlutatal vandfundnara miklu, og verdr stalldan hitt án gerrar tiltølu edr samiafnadar talna, og má þó iafnan hafa þad í øndverdu nokkurum sinnum færra, iá optsinnis hálfu færra, enn fyrsti deilistafr sýnizt í fólginn vera. og eru slíkir atburdir svo margir miøg, ad eigi má ræda um sérhvern innan í þeßu, og vil eg því ad eins leida 1 dæmi til, sem svo stendr algert:

| | | |
|---|---|---|
| 1986 | 1877714 | og má her þad siá, er fremsti |
| Qv. $945\frac{944}{1986}$ | 903.. | stafr deilis er miøg svo |
| | 1087. | minni miklu enn hinir frem- |
| | leif. 944. | stu í ferdeilandi hverri, en |

hlutatal af inni fyrstu og þridiu er þó hálfu færra, og meirr enn hálfu af annarri, og kemr þad af stærd enna sídari deilistafa.

§. 131. Um atferd margføldunar og frádragníngar í þeßi grein sem nú hefir eg vidhaft, þá er hún aungu torvelligri þeim er hana í fyrstu nema eptir §. 99 100 og 101, enn hinar er adrir kenna. en þá er numin er, miklum mun fliótari þeim. Ein atferd er sú ad menn skrifa deili nedan deilandi, en leifar ofan (sem á er drepid í §. 119), og er siá eingum mun betri. Ønnur er sú er menn og rita deilinn undir deilandi, og þar nedan verkun alla deilis og hlutatals, og enn

þar

þar nedan eptirstødvar allar med striki ímillum. er þeßi verknadr miøg lángveittr, en þó greiniligr ad því leiti, er madr hefir þá fyrir siónum ser alla þá tølustafi er í verda. Nú fyri þær sakar ef svo þikkir nokkurum ad mín atferd se vandleikin, og eg vilia láta þá er tornæmir eru, þermlast hina sem gløggligri er, þá vil eg her setia ádr tilleidd dæmi á slíka leid, og standa þau alger svo:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 1 deilandi | 138938 | (547 qv. | 187714 | (945 qv. |
| deilir | 254.. | (§. 129). | 1986.. | (§. 130). |
| frádr. verk. | 1270.. | | 17874.. | |
| 2 deilandi | 119,3. | | 903,1. | |
| deilir | 254. | It. 697(7. | 1986. | It. 8988(9. |
| frádr. verk. | 1016. | 91 | 7944. | 931 |
| 3 deilandi | 177,8 | 637 | 1087,4 | 8379 |
| deilir | 254 | 60. | 1986 | 609. |
| frádr. verk. | 1778 | | 9930 | |
| | 0000. | | leif. 944. | |

§. 132. Hin þridia atferd er sú ad menn I) giøra ser tøblu eina af verkunum ágvedins deilis frá 1falldri til 9falldrar samt, þ. er ad s. rita hann fyrst og sídan margfallda hann med øllum einstøkum tølum (§. 68), og skrifa hveria verkun nedan adra, og beint fram undan hverri þann einstaka staf er hún afleiddi. þeßi tabla nefnist á vallendsku Tariffa. II) ad henni tilbúinni leitar madr eptir med samanburdi slíkra verk-ana vid fyrstu ferdeilandi (sem tiltekin verdr eptir II reglu §. 129, og afmørkud med striki edr púnkti ef vill) hver þeirra fari næst þeßi deilandi, en þó minni se edr med øllu iøfn henni. og þegar er fundid hefir slíka tølu, þá ritr hana undir ferdeilandi og dregr þar

í frá

í frá, og skrifar eptirstød er verdr þar nedan med striki í medal. en tekr fyri hlutatal þann einstaka staf er hiá ritinn stendr slíkri verkun. þá flytr madr ofan til leifanna næsta staf deilandi, og giørir enn sem fyrr. og á slíkan hátt er adfarid þar til ad lokid er deilandi.

T. d. veri deilandi 1649408, en deilir 34, og má þá nidr setia med þvísa móti:

| 34 | 164.9408 | (Verkana tablan.) | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Hl. t. 48512. | a136 .... | 1 | sinni | 34 | er | 34 | d |
| abcde | 28,9... | 2 | sinnum | „ „ | eru | 68 | e |
| | b272... | 3 | — | „ „ | — | 102 | |
| | 17,4.. | 4 | — | „ „ | — | 136 | a |
| | c170 .. | 5 | — | „ „ | — | 170 | c |
| | 4,0. | 6 | — | „ „ | — | 204 | |
| | d34 . | 7 | — | „ „ | — | 238 | |
| | 6,8 | 8 | — | „ „ | — | 272 | b |
| | e68. | 9 | — | „ „ | — | 306. | |

Her setta eg þá látínsku stafi til leidarvísis um verkanir og hlutartølur, en ella er þeirra engi þørf. má og rita þá einsiøku tølustafi aptan verkan hveria ef vill med boga í medal edr lángstriki til skýndíngar. En um þeßa atferd ad segia, þá er hún trúust og best allra ad því leiti, er hún afnemr vandrædi øll um qvótar fund, og er hennar þá hellst ad vidneyta, er miøg svo margir eru deilistafir og þørf er lángrar tiltølu. en ad ødrum kosti er hún harla seinlig, þar sem finna skal verkanir allar deilis frá 1falldri til 9falldrar samt, og er slíkt næsta leidinligt, en þarf þó allsalldan á þeim ad hallda svo mørgum; nema því ad

ad eins ef deilandi er svo løng id sama. Þeßi atferd má ad vísu enn styttri verda, enn nú var sýnt, þ. e. ad s. þá er tablan er einúngis gior af 1falldri verkun og 2falldri og 5falldri, en hinar allar, er þorf verdr, skal finna í huganum med samiøfnudi deilandi hverrar og enna þriggia verkana er í tøblunni standa. en med því ad slíkt veitir eigi stórn fliótarr enn hitt, nema þeim er skarpskygnir eru og leiknir vel í tølum, þá vil eg her eigi framarr umræda, og má þó hverr nema er vill, eptir því sem nú hefir eg á veg vísad. En hversu greiniligar sem eru tvær enar seinni atferdir, þá vil eg þó ráda øllum þeim er fyrst læra ad telia tølur eptir þeßum bæklíngi og finnda þar í sæmiliga hvatgiorvi, ad helldr aftaki þeir ina fyrstu adfør (§. 129) til veninlags ser, og þeß vegna læt eg nú fylgia her á eptir

§. 133. Nokkur dæmi til æfíngar, eptir §. 129.

1. D. Her ad framan (§. 79) vard verkan tveggia talna 31516704, en giørandi annarr var 875464, hverr var þă hinn? It. í 2dru dæmi var margfalldi 345, en verkan 16069410, hver var þá margfalldandi?

| | | | |
|---|---|---|---|
| 875464) | 31516704. | 345 | 16069410 |
| Qv. 36, sú | 525278. | Qv. 46578, | 226 . . . . |
| tala er ad- | 0000000 | sú tala er | 199 . . . |
| spurt var | | til var mællt | 269 . . |
| fyrsta sinn. | | annad sinn. | 276 . |

2. D. Hve mørg Ꝓ í couranti edr Crónum eru 9826 ß?

| | | | |
|---|---|---|---|
| 16 | 9826. | 17 | 9826 |
| svar $614\frac{2}{16}$ Ꝓ | 2 . . | en 578 Ꝓ | 13 . . (§. 90.) |
| í courant. | 6 . | í Crón. | 13 . |

3. D.

3. D. Hve margar nýiar og gamlar Speciur eru 80830 ß?

```
  118   80830        108    80830
svar 685  100..     en 748 46/108  52..
 n. Sp.    59.        g. Sp.      91.
```

4. D. Hve mørg ár eru 620500 dagar, þá er í hveriu teliazt 365 d.?

```
                       255...
úrlausn 1700 ára.      0000..
```

```
5. D. Deil 1234567890     6. D. Deil 14357000,00
med 13579.  1245....      m. 1973,00.  546...
hl. 90917.   2367..       hl. 7276.    1514..
            10100.                      1329.
         leif. 5947.           leif. 1452,00.
```

§. 134. Ad deila med 11 er allt eins hægt og hverium einstökum tölustaf. Hvíad svo sem tölur þær allar er samanstanda af 2 sömu stöfum (sem 22, 33, 44 rc.) eru samsettar af 11 sinnum 2, 3, 4 rc. svo má og vita, þegar er áqvedid er um hlutatal med hugrenníng einni, hvad verkanin se, þ. e. ad segia, stafr sá hverr tvítekinn er á er til hlutatelu qvedid.

T. d. skal deila 11) 3598034 med 11, og taka qvótr 327094. svo til orda: 11 í 35 er 3sinnum, 33 (þ. e. 3s. 11) frá 35 verda 2. þá 11 í 29 er 2sinn., 22 (þ. e. 2s. 11) frá 29 verda 7. þá 11 í 78 er 7sinn., 77 (þ. e. 7s. 11) frá 78 verdr 1. þá 11 í 10 er 0 sinn, og leggiazt nú 10 til næsta rúms, og þá segir madr: 11 í 103 er

9ſ., 99 (þ. e. 9ſ. 11) frá 103 verda 4. þá 11 í 44 er 4ſ. og iafnazt þad upp.

2. D. ad deila 83074
med 11)
og verdr hl. t. $755\frac{2}{11}$.

3. D. ad deila 279008
med 11)
og verdr hl. $25364\frac{4}{11}$.

Allt eins veit hver verkanin ſe ad áqvednu hlutatali, þótt deilirinn ſamanſtandi af fleirum einíngum, ſem 111 edr 1111 ꝛc., en þá má eptirſted rita undir deilandi iafnódt og frá er dregid, og gæta þá ad eins fiellda ſtafanna, er ſvo margir eru ſamir í verkun hverri ſem einíngar í deilinum.

T. d. Þá er deila ſkal 6239789 med 111, má þegar ſiá ad 5 er hlutatal fyrſt og verkan þeſs 555, og ad henni frádreginni verdr ſerdeilandi 689, og ſú verkan af 111, ſem næſt gengr, er 666, þá 222 næſt 237, þá 111 næſt 158, þá 444 næſt 479. og ſvo ferr um annad.

111
qvótr. $56214\frac{35}{111}$.
68....
23...
15..
47.

2. D.
1111 í 2345678.
qv. $2111\frac{357}{1111}$
123...
125..
146.

3. D.
111111 í 987654321.
qv. $8888\frac{99753}{111111}$
98766...
98775..
98864.

§. 135. Ad dreifa ſamſettum deili í giörendur, og deila fyrzt med einum, og þá hlutartölu þeirri er verdr med ödrum, og enn qvóti þeim er tilkemr med inum þridia ꝛc. (§. 114), þad

það skýtir forkunnar mieg telum, og er allt eitt sem að deila með einstekum deili (§. 116), og má þessu við koma hversu mörg o sem deilinum fylgia, hvíað við þeim skal her fara sem áðr er fyrir mællt (§. 127), og skal þetta audsýna með nokkurum dæmum.

1. D. Hve mörg ár eru 5232 mánaðir, er í hveriu eru 12 mán.? 3) —— 4) 1744 (siá §. 90.)
svar 436 ár.

2. D. Hve mörg mk. eru 13536 ß. sem í hveriu eru 16 ß.? 4) 13536 eðr svo: 2) 13536
úrl. 846 mk. 4) 3384, 8) 6768.

3. D. Hve mörg ℔. eru 643212832 lóð, er í hveriu eru 32 lóð? 4) ——
úrl. 201004O1 ℔. 8) 1608032O8.

4. D. Hve margir Rdr. eru 252864 ß., sem í hverium eru 96 ß.? 4) 252864 eðr svo 6) 252864
úrl. 2634 rd. 4) 63216 8) 42144
6) 15804. 2) 5268.

5. D. Hve mörg Sk℔. eru 1871680 ℔., er í hvert fara 320 ℔.? 4) ———
úrl. 5849 Sk℔. 8ø) 46792ø.

6. D. Hve margar stundir eru 31557600 secúndur, er í hverri eru 3600? 6) ———
svar 8766 st. 6øø) 52596øø.

7. D. Hve margar tunnur eru 12012 kútar, er í hveria fara 22 K.? 11) ——
úrl. 546 tunnur. 2) 1092.

8. D. Hve stórr er 6666 partr af 8229629554740?

```
      1111        1111) 452.........
        6                82........
                         452.......
1 qvótr 7407407340        81.....
     6)-----------        377....
2 qvótr 1234567890, sá     444..
  partr er um var spurt.
```

9. D. Bóndi telr 28350 þúfur í velli sínum, sem er 14 dagsláttur, hve margar þúfur munu þá vera í hverri? 14 2)28350

úrlausn 2025 þ. 7)14175.

§. 136. Tala sú hver sem **gagnmælir** adra, þ. e. deilir henni án eptirstedvar, heitir **Mælir** hennar. T. d. heita 4 mælir 24, þvíad 24 verdr algerla deillt med 4, svo ad ekki verdr umfram.

Tveir eru mælar fæstir hverrar tolu, annarr 1, en annarr talan siálf. T. d. 1 alin má gagnmæla med 1 þumlúngi 24 sinnum, og med 24 þumlúngum 1 sinni. En fyrir utan slíka tvo mæla hafa sumar tolur marga adra. T. d. má algerliga deila 24 med 2, 3, 4, 6, 8 og 12. Nú heita **gagnmælandi hlutir (edr partar)** allir þeir mælar sem minni eru telunni siálfri. T. d. 1, 2, 3, 4, 6, 8 og 12 ímóti 24. en tala hver siálf er sinn eginn mælir, en engi partr.

Tala sú er gagnmælir 2 misiafnar tolur edr fleiri, heitir **sameiginligr mælir** þeirra.

T. d.

T. d. eru 3 sameiginligr mælir 24 og 27, er hvarig þeirra talna lætr nokkud leifast, þá er þær eru mældar edr deilldar med 3. En ímóti eru 2, 4, 6, 8, 12 og 24 mælir 24 einna, en 9 og 27 af 27 einum.

**Mestr sameiginligr mælir** heitir tala sú er næst gengr edr iøfn er hinni minstu tølu af 2 edr fleirum misiøfnum. T. d. eru 4 **mesti** sameiginligr mælir þeßarra talna, 8 og 12, þvíad hvartveggiu verdr deillt med 4 án eptirstødvar. og ad ødrum kosti er 8 inn **mesti** sameiginligr mælir til 8 og 16, bædi í tilliti minni tølustærdar og meiri.

§. 137. Þær tølur er engi ønnur heil tala er sameiginligr mælir þeirra, heita **frumtølur** (edr **upphafligar**) sín ímillum, þ. er ad s. þá er þær eru samanbornar. T. d. eru 4 og 9 upphafligar tølur sín á medal, fyrir því er þeim verdr eigi deillt med noqvarri annarri tølu án eptirstødvar.

**Merk.** Eining er sameiginligr mælir allra heilla talna. en med því ad qvótr og deilandi verda. øll ein þá er deillt er med henni, en madr skilr ad almennu fyrir sameiginligan mæli slíka tølu, er fætka má ødrum tølum med henni, þá telia menn eigi 1 med sameiginligum mælum.

§. 138. Þad er madr iafnadarliga byriar deilíngu frá vinstri hendi (§. 116), kemr svo til, ad hvad sem eptir verdr af ferdeilandi hverri, megi þegar lagt verda til næsta stafs aptan. þvíad ef tekid væri til vid hægri hønd, mætti alldregi leggia þad er væri umfram til

næsta rúms framan. Og af þessu leidir þá ef deila skylldi bløndnum edr margskonar tølum, þá mætti taka til á einum heiln, edr þeim er væru stærra kyns.

§. 139. Allt eins og eining hver, sem umfram verdr serdeilandi í fremra rúmi, telst fyrir 10 einingar í eptra (§. 116), svo mætti og ef eining epkir af deilandi nokkurri þýddi annadhvart fleiri edr færri einingar í næsta rúmi ad aptan, enn tíu, þá mætti telia hana fyrir svo margar einingar í næstu serdeilandi, sem veruliga væru innifólgnar í henni.

T. d. Ef deila skylldi 2, og 1 væri eptir frá næsta rúmi framan er iarteindi 16, þá yrdi nú serdeilandi 18 slíkar einingar sem 2 eru. og svo færi um annad; siá §. 45 og 57).

§. 140. Í deilingu verdr deilir svo opt frádreginn deilandi hverri, sem einingar eru í hlutatali (§. 103 og 108). Hafi nú madr deilinn nokkuru stærra enn til er tekinn, og fremi deilingu vid honum, þá dregr madr meira frá deilandi enn skylldi, í tilliti áqvedins deilis, og því má hlutatal verda minna enn ella (þar sem þad er iafnan því minna, því stærri sem deilirinn er), iá svo mørgum færra, sem verkan sú er mikil, er afleidir slíkri hlutatølu, þá er hún verdr margfalldin med telustaf þeim er munr er deilanna.

fyri

fyri því þá er lagin er verkan þeßi til hlutartölu þeirrar er oflítil vard, þá verdr hún (hlutatalan) med öllu jafnmikil sem deillt veri med úauknum deili.

T. d. se deilir 8, en deilandi 50, þá verda $6\frac{2}{8}$ í hlut ad rettu tali. en deili eg nú 50 med 10 í stadinn 8, þá verdr qvótrinn 5. og ad eg finnà enn rettà, þá má eg margfallda þeßa 5 med munartölu deilanna (8 og 10), þ. e. 2, og verdr verkanin 10. og nú ser eg ad 8 ern þar í fólgnir 1sinni, en 2 umfram; og þá er eg samlegg þenna qvót med 5, þá framgánga $6\frac{2}{8}$ sem ádr.

§. 141. Þeßi deilíngar háttr á einkum heima í slíkum atbúrdum, er deilir gengr nærri 100, edr 1000 edr 10000 2c. svo mjög ad eigi muni fleirum í enn 11 fleßtum. en þá er frammi skal hafa slíkan deilíngarhátt, þá er atförin þeßi. I) deilir madr áqvedinni deilandi med 100, edr 1000, edr 10000 2c. (hverri sem tiltekinn deilir gengr næst) á alla eina lund sem tilskilid er í §. 126. II) margfelldr þá hlutartölu, er framan stendr skilnadarstrikid, med munarstaf deilanna, og ritr verkunina beint undir deilandi frá hægri hendi (sem áskilid er í §. 41). III) ef hún verdr svo mikil ad hún taki fram fyrir skilnadarstrikid, þá margfalldar madr enn þad er fram af gengr med enum sama munarstaf, og skrifar verkun

þá sem fyrr mælltag. og verdr fram farid slíku, þar til er ekki tekr lengr fram fyri strikid. og í IV. grein leggr madr tølurnar allar saman ad rettu máli (§. 41), og verdr þá hlutatal framan skilnadar strikid, en leifar aptan. en þeß er þá gætanda um, ad allar þær tug-einíngar sem gánga fram fyri strikid af søfnudi talna þeirra er aptan standa, þá skal þær margfallda sem fyrr med munartølu deilanna, og leggja verkun þá saman vid eptirstødina. og verdi summan iøfn deilinum, þá má enn bæta 1 vid hlutartøluna.

T. d. 1. skyli deila 678345 med 99, þ. e. 100 ÷ 1, þá má þad uppi láta á þvísa leid:

```
      6783|45
        67|83
          |67
     -----|--
Qvótr 6851|95
          | 1
          ----
eptirstød 96.
```

Med því ad hér munar eigi nema um 1, þá verda tølurnar enar sømu (§. 65.) aptan og framan, en þá er fleirum munar, verdr þad eigi svo, sem siá má af dæmum þeim er nú fara eptir.

```
2. D. 379681 med 97,
edr 100 ÷ 3. svo: 3796 81
                   113 88
                     3|39
                      |  9
            ----      |---
      qvótr 3914      |17
                      | 6
                      ---
          eptirstød  23.
```

```
3. D. 22987829 m. 997,
svo:          22987|829
                 68|961
                   |204
              -----|---
      qvótr   23056|994
                  7|  3
                   ----
          eptirstød 997.
```

4. D. 8976432509 med 9989, edr 10000 ÷ 11,
á þvísa lund:

| | |
|---|---|
| 897643 | 2509. |
| 987 | 4073 |
| 1 | 0857 |
| | 11 |
| qvótr 898631 | 7450. |

Merk. Hvargi sem giøra skal ß. ad Rdølum í Couranti, má vidkoma slíkum deilíngar hætti, þvíat þá skal iafnan deila med 96, þ. e. 100 ÷ 4. en satt ad segia, þá veitir þad litlu greidarr med honum, enn þá er svo er tilfarid sem anglýst er med 4 dæminu í §. 135.

§. 142. Enn eru adrir vegir deilíngar, sem úngling num er hellzti vandrædir, og þvíad eins megu ad gagni koma, nema madr hafi leikid sig vel í tølum. og fyri þeim søkum læt eg her fyrir faraz ad telia fleiri atferdir ad svo búnu. En nú med því er eg hefir skýrt svo nokkuru miøg frá enum 4 Hofudgreinum í Einskonar tølum, ad hlýda mun þeim er vandliga ískygnazt, þá er nú þángad ad snúaz er hinar kynbreytiligu margskonar tølur eru (§. 10 og 11), og ræda nokkud um hve fara skuli vid þeim eptir serhverri høfudgrein.

## Um fiórar Hofudgreinir Talnavitskunnar í margskonar tølum, og ser í lagi

## Um ADDITIONina.

§. 143.

Þess hefir eg ádr vidgetid, ad ýmißkonar tølur vyrdi eigi regluliga samlagdar ne svo frádregnar ødrum tølum,

um, nema breytt væri kyni þeirra fyrst (§. 40 og 49). en nú með því að búin eru hverium í hendur gögn þau er við þarf að neyta í slíkum giörníngi, þá skal nú þegar greina hve kynbreyta skuli. nú berr tvent að höndum i kyniabreytíngu, er annadhvart giöra skal meira kyn að minna edr id minna að enu meira. Meira kyn (edr stærra) heitir eg allar þær tölur og hluti samt, sem í eru fólgnir partar nokkurir edr hlutir med annarligu kenníngarnafni. T. d. er 1 Rdr. kyn mest í móti mℤ. β. hvít. og Q. er allt þetta heyrir honum. og svo er um Lestir, Skℤ. fadma, tunnur, balla og ár (§. 35). mℤ. er stærra kyn enn β. og β. stærra enn Q, og svo um hína hlutina. Eu minna kyn (edr smærra) er hvatvetna sem nokkurum sinnum er í fólgid ödrum lut, og hefir þó annað kenníngarnafn, sem Q. hvít. β. og mℤ. í Rd. og svo um annað. Nú vil eg þá skýra um það

§. 144. I) Hve breyta skal meira kyni í minna. Þetta skal giöra med margfölldun. þ. er að s. margfallda tölu ins meira kyns (hverigt sem er) með svo mörgum einíngum hins minna, sem iafnast við (edr sara í) 1 af stærra kyni: edr rettar að mæla, telu parta þeirra, sem í eru fólgnir einíngu hins meira kyns, med fielda þess ens sama. og færr þá verkanin kenníngarnafn ins minna kyns, edr parta þeirra sem til eru teknir (§. 72), hverigu nafni sem heita.

T. d. skyli breyta 9 Rd. í mℤ. þá med því að 6 mℤ. eru iafn 1 Rd. skal margfallda 6 mℤ. medr 9 (edr

(edr ef vill, 9 med 6, ad breyttum kenníngum, sem greint er í §. 64), og verdr afleidandi 54 mg. It. skyli giøra 24 kúta ad pottum, þá er 8 pt. eru í hverium kút, skal margfallda þeßar tølur saman, og verdr verkanin 192 pottar. It. skyli breyta 6 Sk℔ í ℔. þá má hafa þar til, hvart er vill, 20 L℔ fyrst, og sídan 16 ℔, edr einúngis 320 ℔, en í slíkum atburdum sem meira kyn er í medal, álitr madr helst þá tøluna er hægri er medferdar.

II) Hve breyta skal minna kyni í meira. Þetta skal fremia med deilíngu, þ. e. ad s. deila tølu ens minna kyns med svo mørgum einíngum edr pørtum sama konar, sem iafnast vid (edr í fara) 1 einíngu sérhvers meira kyns, og verdr þá hlutatal sømu kenníngar sem id stærra kyn (§. 122), en leifar, ef verda, hallda kenníngarnafni deilandi tølu edr hins smærra kyns, nema þvíad eins ef hlutatal allt skal vera stærri kenníngar, og skal þá svo leifum deila sem ádr er fyrimællt í §. 124.

T. d. ef breyta skal 54 mg í Rd. þá má vita med deilíngu, hversu opt 6 mg. sem í eru Rd. hverium, se innbundin í 54 mg. og verdr qvótr iafn-margir Rdr., þ. e. 9 Rd. It. skyli giøra 192 potta ad kútum, þá medr því er 8 pt. fara í hvern kút, má eptirgrenslast med deilíngu, hve opt 8 se fólgnir í 192, og verdr hlutatal iámmikid, þ. e. 24 kútar. og um hid 3dia dæmi í Iri greininni má her id sama ad álitum

um giøra, sem þar taldag. En skylldi madr breyta (t. d.) 180 þumlúngum í fadma, þá deili med 72 þumlúngum, er ígánga fadm hvern, og verda þá 2 fadmar, en leifarnar 36 heita þumlúngar (sem deilandin 180). en skal nú allr qvótinn heita fadmar, þá seti madr 36 ofan þverstrik eitt, en 72 nedan, vid hægri lid qvótinum, og þá heitir han allr 2 $\frac{36}{72}$ fadmar (edr $2\frac{1}{2}$ fadmr). og svo um annad.

§. 145. Þeß ætlar eg eigi þørf ad leida her fleiri dæmi til, þvíad nógt þikkir atgert bædi í Margføllduu (§. 72, 74, 90) og Deilíngu (§. 122, 127 ꝛc.), þad er draga má til þeßa máls. og skal þad svo skilia, er øll þvílík margfølldunardæmi heyra enni Iri kynbreytíngargrein, en deilíngardæmin þeirri IInarri. Hitt má og áminnazt til vørunar únglíngum, hvar fara skal ad hverri grein þeßi. og á þá hin I grein einkum heima í Frádragníngu og Deilíngu ýmißkonar talna, þar sem øllu því er fyri fram er tekid af stærra kyni, edr eptir verdr af því, má breyta í minna kyn, ad frádraga megi, edr svo deila. En IInur grein kynbreytíngar heyrir einkum Samlagníngu og Margfølldun slíkra talna, er allt þad minna kyns, er jafnazt vid meira kyn, má þángad leggia. Nú safnar madr Rdala tølum saman og mꝛ. og ß. ꝛc. edr margfelldr þær id sama, og verdr summa edr verkun (t. d.) skillínganna 72, þá er sem madr spyri siálfan sig, hve mørg mꝛ. þetta se, og kemr þá í hug ad 16 ß. eru í mꝛ. hverin,

hverin, þá viti madr þegar ad deila skal 72 med 16, og nefna hlutatøluna 4 mk. og 8 ß. og svo um adra luti. En hinsíeginn þá er deila skal og eptirstød verdr af meira kyni (t. d.) 12 Rd. hvar madr um parta hans, hverrar kenníngar sem hellzt vill vera láta, og margfelldr þá þeßa 12 Rd. med partatølunni, hveriga sem tiltekr, og hefir þá verkanin allt eitt nafn og hún, og qvótr af þeßi verkun id sama. og s. u. a.

§. 146. Nú má svo vera ad margir kunni grádur hmißkonar talna flestar allar, sem hver kemr eptir adra (t. d. ad í 1 Rd. eru 6 mk., í 1 mk. 16 ß., í 1 ß. 3 hvítíngar edr 12 Q. ꝛc.), en eigi svo gerla rettlínis hveria í gegnum, er yfir verdr stokkid nokkurar (t. d. hve margir Hvít. edr Q. se í 1 Rd. edr 6 mk. ꝛc.), og þeir atburdir verdi, ad á þyrfi ad hallda slíkri vitandi fyrir hagnadar sakir í nokkurri talnagrein, edr vill madr svo telia tølur ad eins til frama ser, og má slíks eigi víß verda í tølum enna kynbreytiligu hluta (§. 35). þá, er svo berr til handa, skal leita partatøln þeirrar, sem vita girnir, í Kynbreytíngar tøblunum (í s. §.), og stendr hún iafnan á sameiginligum reit, þ. e. beint aptr (edr fram) undan stærra kyni, og rettlínis nidr frá enu minna. og verdr þá eigi slíkt ad vandrædum framarr enn svo.

## §. 147. Hve saman skal leggia margskonar (edr hmißkonar) tølur.

I. R.

I. R. Skrifa samleggiandi tølur hveriar nidr frá ødrum eptir samkenníngum þeirra, beint ad því sem tilskilid er í §. 34, med striki nedan. og ad svo búnu

II. R. Byria vid hægri hend á minstum kyninn hvervetna (§. 44) og samansafna talna flokki hverium (edr dálki) fyri sig (eptir §. 41), og legg allt þad til stærra kyns framan er jafnazt því um sinn edr optarr, ad rettgerri kynsbreytíngu (§. 144 II grein, og §. 145). þ. e. tel fyrir 1 í fremra flokki svo margar einíngar minna kyns, sem iafnast vid 1 af stærra kyni (og nú eru sem optast fleiri edr færri enn 10), beint eptir því sem rád er fyri gert í §. 45, en skrifa þad er eptir verdr af flokksafnudi hverium (edr þad er eigi iafnazt einíngu hins meira kyns) þar nedan, og far þeßu fram, unz lokid er flokkum øllum.

T. d. skal samanleggia þeßar tølur:

| Rd. | mk. | ß. | S. |
|---|---|---|---|
| 30 = | 3 = | 9 = | 8 |
| 25 = | 5 = | 12 = | 11 |
| 305 = | 4 = | 15 = | 9 |
| og 2456 = | 5 = | 11 = | 7 |
| S. 2819 = | 2 = | 1 = | 11. |

Nú verdr summa S. 35, og má eigi svo giørt skrifa nedan, en vita helldr fyrst, hve margir ß. þetta se. fyri því deilir madr 35 med 12 S. (3 Kbr. T.) og færr þá 2 ß. og 11 S. og ritr þegar 11 nedan

an R. flokkinn, en hefir 2 ß. med til næsta flokks framan. nú verdr søfnudr ß. 49, en ad veittri kynbreytíngu 3 mk. og 1 ß. þá skal 1 rita nedan ß. flokk, en taka 3 mk. med, og þegar leggia vid mk. saman (eptir §. 46), og verdr summan þar 20 mk. en þá er kynbreytt hefir (med 6 mk.) verda 3 Rd. og 2 mk. og skal þetta setia nedan mk. dálkinn, en bæta 3 Rd. vid 6 í fremsta flokki, og sídan fara sem løg eru til (§. 41).

§. 148. Nú er þad séd, er 12 eining ar hins minna kyns eru taldar 1 til ens meira, ít. 16 og 6 id sama. og ferr svo um adra hluti á sinn hátt, hvegi sem kendir eru. en ella er til farid í serhverinum flokki sem venia er til (§. 41), fyrir utan þad eitt, ad her má þvíad eins rita summu hinna smærru kynia þegar, nema í øndverdu siái, ad hún se minni enn partatala sú, er í ferr stærra kyn hvert. og verdr því hafa ad setia nokkur hiá, ef hún er svo mikil ad eigi má hallda í minnum (sem optliga berr til) ne svo kynbreyta henni med eintómis hugreuníngu.

§. 149. Nokkur dæmi til æfingar.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 1. D. | 34567 Rd. | 95 ß. | | summa ß. |
| | 2985 " | 92 | 96 | 543 |
| | 768 " | 89 | qv. 5 rd. | leif. 63 ß. |
| | 49 " | 87 | | |
| | 2 " | 86 | edr svo: | 5 \| 43 |
| | — " | 94 | (§. 141) | — \| 20 |
| Sum. | 38376 Rd. | 63 ß. | | qv. 5 \| 63. |

2. D.

2. D. Frá 1766 ári til 1776 (e. Gb.) er kaupmønnum fengid af hørdum fiski

| | Skk. | Lk. | k. | |
|---|---|---|---|---|
| í Vestm. eyium | 3129 | 11 | 13 | |
| á Eyrum | 5642 | 5 | 1 | |
| í Grindavík | 2335 | 1 | 8 | summa |
| á Bázsendum | 3830 | 18 | 8 | 111 k. |
| í Keblavík | 7894 | 1 | — | 16 |
| í Hafnarfirdi | 6646 | 14 | 4 | qv. 6 Lk. |
| í Hólminum | 6201 | 13 | 11 | og 15 k. |
| ad Búdum | 3526 | 17 | — | |
| á Stapa | 4403 | 1 | 2 | |
| í Olafsvík | 5528 | 14 | 8 | summa |
| í Grundarfirdi | 3324 | — | 13 | 142 Lk. |
| í Stykkishólmi | 4985 | 2 | 2 | 20 |
| í Patr. f. og Bildud. | 3050 | 1 | 12 | qv. 7 Skk. |
| í Isa og Dýraf. | 3792 | 15 | 15 | og 2 Lk. |
| í Reyk. f. og á Hofda | 61 | 19 | 2 | |
| á Akureyri | 2 | 3 | 12 | |
| og í Reydarfirdi | 2 | 1 | — | hve mikid |

er þad allz? úrl. 64357 Skk. 2 Lk. 15 k.

| 3. D. hundr. aur. ál. | 4. D. lest. vætt. fk. | |
|---|---|---|
| 20 : 12 : 5 | 24 : 29 : 38 | 40) 120 f. / 3 v. |
| 25 : 10 : 4 | 32 : 28 : 39 | |
| 21 : 9 : 3 | 12 : 27 : 36 | |
| 18 : 5 : 2 | 19 : 26 : — | 30) 120 v. / 4 l. |
| 14 : 1 : 4 | 109 : 7 : 7 | |
| S. 100 hundrada. | S. 200 l. — : — | |

§. 150. I þeim atburdum er samleggiandi tølur hinna minni kynia eru eigi svo miklar miøg umfángs hver

hver þeirra, þá má undir eins kynbreyta med frádrags-níngu partatølu ens meira kyns. þ. e. ad s., iafn ódt og summan af minna kyni verx í partatølu ens stærra kyns upp edr yfir, þá má þegar draga partatøluna (edr stærra kyn) þar í frá, en setia púnkt vid einhvern staf í meira kyni fyrir einíngu hverri er þángad er lagin (og telia þann staf, er ad kemr honum, svo mørgum fleira), og ad sídurstu rita þad undir sem jafnazt eigi vid stærra kyn. og med þeßu móti firrizt madr allar medalritníngar dálka-safnada og deilíngu flokka-súmmu hverrar. T. d. skylldi samanleggia þeßar tølur:

| Rd. | mg. | ß. |
|---|---|---|
| 7. | 5 | 12 |
| 9 | 3. | 15 |
| 8. | 4. | 8 |
| 6. | 2 | 10 |
| 5 | 3 | 9 |
| 4 | 1. | 7 |
| summ. 42 | 3 | 13. |

Og má þá svo taka til orda: 7 og 9 eru 16 (og setia nú þegar púnkt vid 1 mg). þá 10 og 8 eru 18, og (ad gervum púnkti vid 4 mg. fyri þeim 16 ß. edr 1 mg.) 2 til 15 eru 17, og (ad settum púnkti vid efri 3 mg. fyri þad 1 mg.) þá 1 til 12 eru 13, og rita þá nedan. þá í mg. dálki svo: 2 (þ. er 1.) og 3 e. 5 og 2 til eru 7, og (ad ritnum púnkti vid 6 rd.) þá 1 og 5 (þ. er 4.) eru 6, og (ad gervum púnkti vid 8 rd.) þá 4 (þ. er 3.) og 5 e. 9, og (ad settum púnkti vid 7 rd.) þá rita 3 mg. nedan. þá telia Rd. saman, og hvern staf einum fleira sem púnktr er hiá ritinn. og gengr þetta forkunnar skiótt af hendi.

§. 151. Á alla eina lund ferr madr med ókynbreytanligum ymißkonar tølum (§. 11) sem vid enum kynbreytiligu. þ. er ad s. setr verd

(edr annad iafnvægt) fyri hlut hvern (§. 12), og leggr þá verdaura saman, hverium nefnum sem heita. T. d. Madr hefir tekid út í kaupstad 2 miølhálftunnur, 1 ℔. iárns, 10 ℔. preßutóbaks og 5 pt. brennivíns. en sellt kaupmanni 6 kúta af hákallslýsi, en $2\frac{1}{2}$ af þorskal. ít. 1 grátt tóuskinn og 2 hvít, ít. 8 pør dugg. sokka. þá telr han verd hverra luta vid sig, þeirra er einum eru fleiri, og sídan leggr allt saman. og stendr þá tal þetta svo:

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| miøl | = 3 rd. | 76 ß. | hák. lýsi | = 2 rd. | 90 ß. |
| iárn | = — | 73 | þorska l. | = 1 | 4 |
| tóbak | = 1 | 74 | tóusk. | = 2 | 14 |
| br. vín | = — | 65 | prjónles | = — | 74 |
| summ. | 7 rd. | — | summ. | 6 rd. | 86 ß. |

§. 152. Þá er madr bætir 1 edr fleirum vid tølu nokkura, og dregr iafnmargt í frá henni aptr, þá verdr hún øll ein og fyrr. Af þeßu leidir þad, ef samlagdar eru stærri tølur enn á er qvedid, og sídan fránumid summunni allr munrinn samt, þá má hún verda øll in sama sem hin, er ekki var til margt í talid.

T. d. hvart eg legg 4 og 5 saman ad rettu máli, edr læt eg summuna í fyrstu vera 10, og dreg sídan þar í frá 1, er vant er í helmíng tigarins, þá verdr hún hvarvetna 9.

§. 153. At þeßarri undirstødu er þad byggt, ad hvargi er samleggiandi tølur eru nærgengar stærrum

stærrum einíngum (§. 5), þá má þegar í endverdum gerníngi leggia slíkar einíngar saman í tilheyriligu rúmi, og þá telia misinun samleggiandi talna, og draga summu þá í braut frá hinni, og verdr eptirstedin sú summa er eptir er leitad. T. d. skylldi samanleggia 994 (þ. e. 1000 ÷ 6) vid 3687, þá má þegar setia 1 þúsund í þúsunda rúmi (undir 3), en nema 6 frá staf þeim er stendr í eining a rúmi, á þvísa leid:

| | |
|---|---|
| 3687<br>+ 1 ÷ 6 | Merk. + þýdir ad 1000 se lagin til, en ÷ ad 6 se dreg- |
| sum. 4681. | nir frá 7 (§. 37), og verdr |

summan øll ein med þeßu móti sem ella.

2. D. ad samanleggia 2986 + 997 + 1998 + 2996, og má svo setia:

| | | | |
|---|---|---|---|
| 3 . . . ÷ 14 | edr svo: | 2986 | og veitir |
| 1 . . . ÷ 3 | sem fyrr. | + 6 ÷ 9 | þad mun |
| 2 . . . ÷ 2 | og verdr | sum. 8977. | fliótarr. |
| og 3 . . . ÷ 4 | | | |
| sum. 9000 ÷ 23 = 8977. | | | |

§. 154. Þeßi talnaskyndíngu má aungu minnr vidkoma í sundrnefndum tølum, enn hinum samkendu. þ. e. ad s. ef telur einhvers ins minna kyns eru svo nokkuru mieg nærvarnar einíngu stærra kyns, og má þá telia saman þad er vant er hvar, og draga munarsummuna frá tølu ens meira kyns er oftalin er, edr ef talid er 1 færra í stærra kyn, þá frá partatølu þeß allri, hveriga

kenníngu sem hefir og vid er ad skipta. Her til má draga hid 1sta æfíngardæmi (§. 149), er saman skylldi leggia 95 + 92 + 89 + 87 + 86 + 94 ß. nú má þegar telia þetta 6 Rd. og þá leggia mismuninn saman, þ. e. 1 + 4 + 7 + 9 + 10 + 2 = 33 ß. og draga hann frá 6 rd. Edr ef vill í fyrstu telia 5 rd. + 96 ß., og þar í frá nema 33 ß. og má þetta svo nidr setia:

| | | | |
|---|---|---|---|
| 95 ß. ÷ 1 | edr | 1 Rd. ÷ 1 ß. | edr einn svo |
| 92 = ÷ 4 | svo: | 1 = ÷ 4 | (sem miklu er |
| 89 = ÷ 7 | | 1 = ÷ 7 | fliótara): |
| 87 = ÷ 9 | | 1 = ÷ 9 | |
| 86 = ÷ 10 | | 1 = ÷ 10 | 5 rd. + 96 ß. |
| 94 = ÷ 2 | | 1 = ÷ 2 | ÷ 33 |
| sum. 6 rd. ÷ 33 ß. | | 6 rd. ÷ 33 ß. | = 5 rd. og 63 ß. |

2. D. Madr skal samanleggia 15 ℔ og 28 lód, 11 ℔ og 31 ld., 14 ℔ og 27 ld., 13 ℔ og 30 ld., og 12 ℔ og 29 ld., og má þegar telia 4 L℔ + 16 ℔, og 4 ℔ + 32 ld. og ad samantøldu hvervetna því er oftalid hefir, þá fara med verknadinum á þvísa leid:

| | |
|---|---|
| 4 L℔ + 16 ℔ | 4 ℔ + 32 lód. |
| ÷ 15 | ÷ 15 |
| 4 L℔ + 1 ℔ + | 4 ℔ + 17 l. = 4 L℔ 5 ℔ 17 l. |

3. D. Legg s. 29 vætt. 38 fsk. og set þannig:

| | | |
|---|---|---|
| 27 = 36 = | | |
| 28 = 39 = | 3 lest. + 30 v. | 3 v. + 40 f. |
| og 26 = 37 = | ÷ 10 | ÷ 10 |
| sum. 3 lest. 23 vætt. 30 f. | = 3 l. + 20 v. | + 3 v. + 30 f. |

§. 155.

§. 155. Med þeßi atför verdr iafnan söfnudr enna smærri kynia minn minni enn ella, svo ad lítid verdr fyrir ad draga hana frá stærra kyni, þarf og eigi á deilíngu ad hallda til kyniabreytíngar, þvíat það fremr madr med hugrenníngu einni. En einkum er þeßi medferd miøg gagnsøm ad því leiti, ef samleggiandi tølur eru fár, ad madr kann þá sem optast ad fremia talid í huga ser, ef svo er ad farid. T. d. væri tilmællt hve margt se 12 ß. + 14 + 15 ß. (þ. e. 1 mℨ ÷ 4, og 1 mℨ ÷ 2 og 1 mℨ ÷ 1 ß.), þá safnar madr þegar munartølunum 4, 2 og 1, og svarar þá svo: það er 3 mℨ ÷ 7 ß. edr 2 mℨ og 9 ß. It. er spurt hve mikid se 18 Lℒ, 17 og 15 Lℒ þá svari madr ad samtøldum munartølunr (2 + 3 + 5): það eru 3 Skℒ ÷ 10 Lℒ, edr 2 Skℒ og 10 Lℒ og svo um annad þeßháttar. Nú berr það optsinnis vid, einkum í penníngatølum, ad samleggiandi tølur eru iafnar, og má þá margfallda mismun þeirra (frá stærra kyni) med fiølldatølunni, og veitir þá enn fliótarr enn ella. T. d. standa 14 ß. í penníngatølu nokkurri 6 sinnum, þá lætr madr summuna vera 1 rd. edr 6 mℨ ÷ 6 × 2 ß. (edr 12 ß.) = 5 mℨ og 4 ß. It. stædu 87 ß. 8 sinnum, þá er summan í fyrsta áliti 8 rd. ÷ 8 × 9 ß. (edr 72 ß.) = 7 rd. og 24 ß.

§. 156. Á líkan hátt, sem nú hefir eg audsýnt, má og adfara, þótt sumar tølur ens minna kyns fari eigi svo nær sem nú er áqvedit, iá þó ad þær se helmíngi minni. Þá iafnar madr þeßum vid munartølurnar med nótunum + og ÷,

og sleppir øllu því er iafnt verdr, og skal þá telia svo margt í stærra kyn sem ÷ er opt ritad. Nú verdr nokkud umfram af munartølum, er ekki iafnazt upp, og má þá nema þad frá því er oftalid er í meira kyn. en verdi nokkud umfram af hinum telunum, sem nótinn + stendr vid, þá skal þad og telia umfram hid stærra kyn.

T. d. 1, Legg þeßar tølur saman, og merk svo:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 124 Rd. | 13 ß. | — | — | ÷ 3 |
| 236 — | 9 | = | + 9 | |
| 324 — | 12 | = | — | ÷ 4 |
| 423 — | 11 | = | — | ÷ 5 |
| 142 — | 3 | = | + 3 | |
| sum. 1249 Rd. | 3 mk. | | | |

og vit nú ad 3 iafnazt vid 3, en 4 og 5 vid 9, og því er hvervetna yfirdregid. en 3 mk talin í stærra kyn, þvíad svo opt stendr ÷, og er þetta svo ad skilia ad 3 ß og 9 eru teknir frá því er oftalid væri, ad summa þeß verdi svo lítil sem má, edr engi, ef svo er vidvarid tølunum.

2. D. Legg þeßar tølur saman, og merk þannig:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 6 Rd. | 86 ß. | — | — | ÷ 10 |
| 10 — | 81 | = | — | ÷ 15 |
| 5 — | 10 | = | + 10 | |
| 11 — | 15 | = | + 15 | |
| 7 — | 89 | = | — | ÷ 7 |
| sum. 41 rd. | 89 ß. | | | |

nú er her útdregid þad er iafnast upp, en talid í stærra kyn 3 rd. sem nótinn ÷ stendr opt, og þar í frá numnir 7 ß, sem umfram vard af munartølunni ímóti hinum smærrum.

3. D

3. D. Legg þessar tølur saman, og merk svo:

| | | | |
|---|---|---|---|
| 15 ℔ | 28 lód. | — | ÷ 4 |
| 12 = | 24 = | — | ÷ 8 |
| 14 = | 9 = | + 9 | |
| 10 = | 8 = | + 8 | |
| 13 = | 4 = | + 4 | |
| 9 = | 12 = | + 12 | |
| 15 = | 20 = | — | ÷ 12 |
| sum. 91 ℔ | 9 lód. | | |

Enn er her yfir dregid þær tølur er iafnar eru, og talin 3 ℔ í hid stærra kyn, sem opt stendr notinn ÷, en 9 (sem eigi eru dregnir út) verda umfram í minna kyni. og ferr svo um annad. Ella er þad merkianda um þvílíka atferd, ad svo fremi er madr er nokkud leikinn í henni, þá þarf eigi ad skrifa nema munartølurnar, og setia + hiá hinum til minnis, ef vill, en rita þær eigi af nýiu, þvíad þad er til verkatafar, en þó her gert til liósari skilníngar.

§. 157. Margfølldunar má svo framt vidneyta í samlagníngu, er opt standi í dálki nokkurum in sama tala. þ. e. ad s. madr telr þá hversu opt þad se, og margfelldr tøluna siálfa med fiølda þeim. t. d. stædu 8 ß. 9 sinnum í dálki, þá segir madr 8 s. 9 eru 72 og leggr þetta saman vid þær tølur er ímillum eru, en hleypr yfir 8 alla ad svo búnu.

## Um SUBTRACTIONina.

§. 158.

Þessi talnagrein berr hellst þreut til handa um enar framsettu tølur, ad (1) annadhvart eru hvortveggiu sundrkendar, edr (2) mínkandi nokkurt stærra kyn eitt, svo ad vidþursi kynbreytíngar, edr og (3) ad frádrag-

inn er samakonar sem einhver minkandi tala og minni enn hún, og er þad skiótt ad segia um þennan atburd, ad med því ekki er til ad draga frá tölum hinna annarra kynia, þá verdr her eigi láns þorf ne kynbreytíngar, og fyrir því er aferdin oll ein sem í frádragníngu Einskonar talna. T. d. ef draga skyli 8 Rd. frá 12 Rd. og 3 mk., þá ritar madr þegar 3 mk. undir strikid, og dregr 8 rd. frá 12 rd. ad venju (§. 50, VII. R.). It. 8 ß. frá 1 mk. og 10 ß., og verdr 1 mk. og 2 ß. ꝛc. En nú er um hitt ad ræda

§. 159. Hve draga skal margskonar (edr ymißkonar) tølur frá ødrum slíkum edr einni stærra kyns, þá er þørf verdr kynbreytíngar nokkur.

I. R. Rit enar áqvednu tølur hveriar undir ødrum, eptir samkenníngum þeirra, beint ad því sem tilskilid er í §. 34, med striki nedan.

II. R. Byria þá vid hægri hønd á minstum kynium (§. 54), og far med því sem fyrir mællt er í §. 50. nema þad eitt, ad hvargi sem láns verdr þorf einíngar nokkurs ens meira kyns, þá tel hana svo margar einíngar hins minna kyns, sem hún verulíga innibindr (og nú eru jamnan fleiri edr færri enn 10) ad rettum kynbreytíngar málum (§. 35 og 144), beint eptir því sem rád er fyri gert í §. 57. á þvísa leid:

1. D.

1. D. 238 Rd. 2 mk. 15 ß.
÷ 149 = 5 = 12 =
leif. 88 Rd. 3 mk. 3 ß.

Nú kannat madr nema 5 mk. frá 2 mk., leitar því til Rd. og hefir 1 fyri fram af þeim, og telr hann 6 mk. í ødrum stokki, og leggr vid 2 mk., og þá verda 8 mk. en 3 mk. eptir, er 5 eru þar í frá numin. um annad ferr her ad venju.

2. D. 32 Rd. 87 ß.
÷ 12 = 92 = 10 S.
leif. 19 Rd. 90 ß. 2 S.

Nú er engi S í mínkandi, og því má taka 1 ß. ad láni (hiá 7) og telst han 12 S. þar í frá 10, verda 2 S. þá 92 frá 86, kannat madr, og skal því nema 1 rd. fyrir fram, og telia hann 96 ß. (er þad kyn á nú í hlut). nú skal ad rettu lagi (§. 50) bæta þeßum 96 ß. vid 86 fyrr enn frádragning er samin, en med því ad tølurnar eru svo miklar vidfángs, ad þetta má eigi veita svo hægt edr skiótt sem vill, þá leitar madr hæginda í slíkum atburdi, bædi her og hvar ella. þ. e. ad s., dregr þegar, ad veittri kynbreytingu þeß er fyri fram er tekid, frádragann í brant frá þeßi partatølu, sem her 92 frá 96, og þá leggr þad er eptir verdr saman vid mínkandi tølu, er oflítil var, og ritar summu þá er framgengr sem adra eptirstød nedan strikid, og er þad her 4 + 86 = 90. þetta má allt eins giøra í slíkum atburdum, sem heyra fyrsta dæminu, en þeß er þó eigi svo þorf, med því ad tølurnar eru svo litlar, er þá er vid ad skipta.

| | |
|---|---|
| 3. D. 12 ℔. | |
| ÷ 11 = 31 lód 3 qvt. | |
| leif. — = — = 1 qvt. | |

Nú med því ad stærra kyn eitt er í mínkandi, þá má tvívegis kynbreyta 1 ℔. er numid er ad láni frá 12 ℔, fyrst í 32 lód, og þarnæst 1 lódi í 4 qvintin, og lætr madr þá sem 31 lód standi ofan hin 31 l. í frádragandi, en 4 qvt. ofan 3 qvt. og med þeßu móti verdr frádragníng veitt. nú má sá rita slíkar tølur í tilheyriligu rúmi, er vill, og treystizt eigi ad muna, en þeß ætlar eg fám einum þorf.

| | | |
|---|---|---|
| 4. D. 24 vætt. | — fiórd. | 8 merk. |
| ÷ — = | — = | 16 = |
| leif. 23 vt. | 7 frd. | 12 mk. |

Her er medalkyns vant í hvarnuntveggium; og má því þegar, ad breyttri 1 vætt í 8 fiórd., rita 7 frd. nedan fiórdúnga rúm, en giøra hinn 1 frd. ad 20 mørkum á veginum til marka dálksins, og þá fara sem talid var í 2dru dæmi. Ad ødrum kosti er þad, ef madr vill eigi hafa fiórdúnga kyn í eptirstød, og má þá giøra lánsvættina ad mørkum einum, þ. e. 160 mk. og þar í frá draga 16 m., og þá verda 144 + 8 mk. leifdar.

§. 160. Svo mørg sem kyn eru flest, svo margbreytiligt er þad um høfn og vanhøfn þeirra og fiølld parta hid sama, hvartveggia í mínkandi ølum og frádragandi, ad þeß er vant í ødrum sem í ødrum hefir, allz edr sums. og má eg eigi ræda um serhvern þvílíkan tilburd innan í þeßu. en þad vil eg her ad alqvednu segia til, ad hvegi sem vid er vaxid um slíkt, þá verdr alldregi þorf ad taka fyrir fram nema 1 einíngu um sinn frá stærra kyni, þviad hún nærr yfir

øll

øll minni kyn út, er henni heyra (nema því ad eins ad samlagdar se og frádregnar undir eins tvennar edr fleiri tølur). Fyrir því er kynbreyting her in hægasta, er iafnan skal margfallda med 1, svo ad undir eins og madr veit edr rennir huga sínum til parta tøln ens meira kyns, þá er þegar veitt kynbreytíngin. Lát-um nú mínkandi vera 8 Rd. en frádragandi 6 rd. 5 mk. 12 ß. 2 hvít. og 3 S., þá ef madr vill rausn-arliga tilfara, og sem hæfiligt er þeim er leita sér afbragds í tølum, þá qvedi svo ad ordi: 3 S frá 1 hvít. edr 4 S (þótt hverigt se til í mínkandi), verdr 1 S. þá 2 hvít. frá 2 hvít. verdr ekki. þá 12 ß. frá 15 ß., verda 3 ß. þá 5 mk. frá 5 mk., verdr ekki, og riti þá ordalaust 1 Rd. nedan. þvíad med hug-renníngu einni kann madr ad láta sem seti 5 mk. (af þeim Rd. er fyri fram tekr hiá 8 rd.) yfir 5 mk., 15 ß. yfir 12 ß., 2 hvít. ofan 2 hvít. og 4 S. ofan 3 S. og má jafnan svo gera, þá er madr tekr ad leikazt í nokkud.

§. 161. Enn dæmi ad æfa sig í.

1. D. A. hefir keypt land ad B. fyrir 20 hundrud. og golldit honum 12 H. 10 aura 5 áln. og 1 fisk., en hitt á frest. hve mikid á þá B undir A?

| | | | |
|---|---|---|---|
| 20ᶜ — | a. — | ál. — | fsk. |
| 12 = 10 = | | 5 = | 1 = |
| úrlausn 7ᶜ | 9 a. — | ál. | 1 fsk. |

2. D. Kaupmadr á ad heimta undan bónda einum 1 lest og 8 fiska ad gømlum tølum, en bóndi gelldr nú ad eins 10 vættir og 30 fsk. hve mikil er þá eptirstødin hans?

1 L.

1 lest — V. 8 fsk. edr svo: 30 v. 8 f.
— 〃 10 〃 30 〃    10 〃 30 〃
úrl. — 〃 19 v. 18 fsk.    19 〃 18 〃

3. D. Madr tekr af 2 Sk℔. og 2 ℔.
— 〃 18 L℔. 14 〃, hve mikid er þá eptir?
úrlausn 1 Sk℔. 1 L℔. 4 ℔.

4. D. Tre eitt er 4 fadm. og 1 qvartil, annad 3 fadm 2 áln. 2 qv. og 5 þuml. hve miklu munar þá?

4 fdm. — ál. 1 qv. — þl.
3 〃 2 〃 2 〃 5 〃
úrlausn — 〃 — 〃 2 qv. 1 þuml.

5. D. Af brennivíns tunnu er tekid 10 kútar, 1 hálfk. og 3 pelar, hve mikid er þá eptir?

1 Tn. — k. — hk. — pl. edr 15 k. 〃
— 〃 12 〃 1 〃 3 〃    12 〃 1 hk. — 3 pl.
sv. — 〃 2 k. — 〃 13 pl. edr 2 k. — 〃 3 pt. 1 pl.

6. D. Prentari telr ad han eigi 2 hrís og 15 bækur og 20 ørk eptir af hálfum balla. hve mikid hefir han prentad á? 5 hr. — bk. — ørk.
2 〃 15 〃 20 〃
úrlausn 2 hr. 4 bk. 5 ørk.

7. D. Frá 10 ár. 1 viku 4 stund. 2 mín. og 3 sec.
ad draga 9 〃 7 m. 3 〃 6 d. 23 〃 3 qv. 14 〃 og 59 〃
verda — 〃 5 m. 1 v. — 〃 4 st. — 〃 2 mín. og 4 sec.

§. 162. Slíkt id sama sem talid er um einverknad samlagníngar og frádragníngar í Einskonar tølum (§. 58), má frammi hafa vid margskonar tølur, ef eigi eru því meiri vidfángs. og nú setr madr púnkt í stærra

